# Lögbók

## Magnúsar konungs, Lagabætis,

handa Íslendingum,

eður

## Jónsbók hin forna;

lögtekin á alþingi 1281.

---

Útgefandi

Sveinn Skúlason.

Akureyri.

Prentuð af H. Helgasyni.

1858.

# Til lesendanna.

---

það mun þykja við eiga, að jeg gjöri grein fyrir því með fám orðum, er hefur komið mjer til að ráðast í að gefa út Jóns lagabók hina fornu, sem nú hefur ekki verið prentuð síðan 1709. Aðalhvöt mín til þessa var þá sú, að þó að lögbók þessi sje, nú orðið, í mörgum atriðum úr gildi gengin, þá er hún þó eina lögbókin, er vjer Íslendingar höfum, og hefur verið að miklu leyti gildandi landslagabók hjer á landi hátt á fjórða hundrað ára, og fjölda margar af hinum almennustu lagasóknum hjá oss fá enn þann dag í dag úrslit sín eptir laga-ákvörðunum hennar, og fjölda margar af hinum seinni tilskipunum konunga vorra, er breyta sumum atriðum hennar, eru eðlilega leiddar af henni sem frumlögum. Auk þessa eru mörg atriði í þessari hinni fornu lögbók, sem þrátt fyrir það, þó að þau sjeu úr gildi gengin sem laga-ákvarðanir, sýna oss ljóslega og kenna hver rjettindi land vort hafi, og hversu Magnús konungur, er setti þessa lögbók, viðurkenndi fullkomlega hinn frjálsa sambandssáttmála, er vjer gjörðum við Noregs konunga, þegar stjórnleysi innlendra höfðingja vorra, þrekleysi alþýðunnar og slægviturleg áleitni Hákonar gamla kollvarpaði hinni fögru og frjálslegu stjórnarskipun forfeðranna.

það knúði mig enn fremur til þess að gefa lögbók þessa út að nýju, að margir höfðu kvartað um, hve torvelt væri að eignast þessa bók; enda hefur hún ætíð verið í slíku uppáhaldi hjá lærðum og leikum hjer á landi, að menn hafa einatt yfirborgað gömlu útgáfuna, þegar svo hefur borið til, að hún hefur verið á boðstólum.

Hjer vil jeg segja með fáum orðum, hvernig lagabreyting varð á Íslandi eptir að það var komið undir konungsvald.

það mátti nú geta því nærri, eptir að Ísland gekk und-

a*

ir konungsvald, að konungar mundu sem fyrst vilja fá landslögunum breytt, því hin forna lögbók Íslendinga Grágás hafði svo margar ákvarðanir, er ekki gátu staðizt með hinni nýju stjórnarskipun. það leið heldur ekki lengi, því árið eptir, að allir á landi höfðu að fullu gengið undir konungsvald, eða 1265, sendi Magnús konungur hið fyrsta frumvarp til lögbókar til Íslands, Járnsíðu eða Hákonarbók — hið síðara mun hún kölluð af því, að Hákon konungur gamli hafði þegar fyrir fráfall sitt verið farinn að búa hana undir. — þessi bók var nú ekki lögtekin fyr en 1272, og mun þó aldrei hafa orðið hugþekk alþýðu.

Magnús konungur varði miklum tíma meðan hann sat að völdum til að endurbæta lög í ríki sínu, og var það því sann-nefni, að hann var kallaður lagabætir. Hann bætti um flest lög í Noregi, og hefur farið mikið orð af því, svo að Íslendingar fólu honum á hendur að gefa sjer einnig nýja lögbók, og ljet hann þá setja saman þessa bók, og hefur hann sjálfsagt haft í ráðum með sjer íslenzka höfðingja, er um það leyti voru iðuglega við hirð hans. þessi lögbók var nú samt ekki send til Íslands fyr en að Magnúsi konungi liðnum, að þeir fóru út með hana um haustið 1280 Jón lögmaður Einarsson, er hún hefur síðan verið kennd við, og Loðinn leppur, norskur vildarmaður. þeir fóru um land um haustið og vorið eptir fyrir þing, og ljetu menn sverja Eiríki Magnússyni land og þegna, og um veturinn kynntu menn sjer hina nýju lögbók, og var síðan á alþingi deila mikil um lögtekning hennar. þótti Árna byskupi og öðrum klerkum mjög dreginn þar fram konungs rjettur, og þó að mikil linun væri á gjörð um óbótamál og aðrar fjársektir frá því sem verið hafði í hinum eldri lögum, þá þótti þó bændum víða freklega mælt, og mæltu móti ýmsu er í bókinni stóð; en þó kom svo fyrir kapp Loðins og fylgi handgenginna manna íslenzkra, að hún var það sumar mest öll lögtekin með lófataki á alþingi [1].

---

[1]) Greinilegri frásögn um þetta er að lesa í Árna byskups sögu 25, 28, 29 og 30 kapítula; sbr. einnig Safn til sögu Íslands 1. b. 636—7. bls.

Eptir því sem tímarnir liðu fram, og land vort komst undir stjórn Dana konunga, er lítið þekktu, hvernig hjer hagaði til, ræður það af líkindum, að ýmislegt hafi framkomið í tilskipunum stjórnarinnar og annari lagasetningu, er snið var eptir lögum og rjetti í Danmörku, án þess athugað væri, að hve miklu leyti slíkt ætti hjer við, og án þess að alþingið hefði þau áhrif á löggjöfina, sem ætlazt var til í upphafi, að það hefði. Eptir því sem konungsvaldið styrktist, eptir því rjenaði löggjafarvald alþingis í framkvæmdinni, þó að rjettarkrafan til þessa valds stæði og standi enn óbreytt. þannig er það þá smám saman svo komið, að nokkur hluti þessarar fornu lögbókar er úr gildi genginn, og ýms lög komin í staðinn, án þess þó að nein aðallögbók hafi verið innleidd hjer síðan að Jónsbók var lögtekin.

Jeg fann því brýna nauðsyn til bera, að útgáfu þessari á Jónsbók skyldi fylgja inngangur, er skýrði frá því stuttlega, hverjir kaflar í lögbók vorri væru nú úr lögum teknir, og hverjar væru hinar helztu tilskipanir og lög, er nú stæðu um þessa kafla, sem og hverjir bálkar hennar enn þá væru hjer landslög að nokkru eða öllu leyti; en sjálfur var jeg ekki fær til þessa, því mig skorti þa lagaþekkingu, er til slíks þurfti. Jeg leitaði því til herra amtmanns J. P. Havsteins að takast þetta á hendur fyrir mig, og varð hann við þessari bón minni, þó að hans mörgu embættis-annir gefi honum lítinn tíma afgangs til þess konar starfa. Útgáfu þessari fylgja því: Nokkrar athugasemdir um núverandi gildi Jónsbókar og um löggjöf Íslands yfirhöfuð eptir amtmann Havstein og sýslumann E. Briem, og tjái jeg þeim hjer innilegustu þakkir mínar fyrir þessa mikilvægu hjálp, er þeir hafa látið mjer í tje með útgáfu bókarinnar.

Um útgáfu sjálfrar bókarinnar þarf jeg ekki að vera langorður. Textinn er tekinn eptir hinni seinustu prentuðu útgáfu 1709, og þær mismunagreinir, er þar standa aptan við bókina, og nokkurs þótta verðar, eru hjer settar neðanmáls, þar sem þær áttu við textann. Rjettarbótunum aptan við er raðað niður eptir áraröðinni, er þær hafa út komið, að því leyti sem varð, og er þar

bætt við í heilu lagi rjettarbótum þeim, er skotið er inn í texta bókarinnar, til samanburðar, og eru þær teknar eptir lagasafni Íslands. Efnisregistrið er einnig hið sama, en bætt við registri yfir efni bálka og kapítula og rjettarbæturnar.

Jeg vona að útgáfa þessi geti þannig bætt úr því, hvað sjaldfengin þessi ágæta fornbók er orðin, og að hún með inngangiuum geti bent alþýðu víða til, hvað lög eru í landi. Það getur vel verið, að það fyrir vísindamenn og lögfræðinga væri nauðsynlegt, að gefa Jónsbók út eptir elztu og beztu skinnbókum með samanburði handrita og lærðum skýringum, en hvorki var þessa hjer kostur, enda er það einmitt þessi texti bókarinnar, sem við höfður hefur verið, og dómar á byggðir, svo að hann virðist fullnógur almenningi.

Jeg sendi yður því Jónsbók, landar góðir! þannig úr garði gjörða, og vona, að þjer takið henni eins vel og þjer hafið áður gjört.

Akureyri 1. janúar 1858.

Sveinn Skúlason.

# Nokkrar athugasemdir

## um núverandi gildi Jónsbókar, og um löggjöf Íslands yfirhöfuð.

---

það er kunnugra en frá þurfi að segja, hvílík óvissa hefur átt sjer stað um það, hvað hjer á landi væri lög og rjettur, og er það sumpart að kenna lagasetningunni, þar sem útlend lög hafa opt verið innleidd hjer, „að því leyti þau ættu hjer við“, án þess að frekari skýring hafi á því verið gjörð, eða án þess, að þau væru löguð eptir háttum landsins, eða snúið á íslenzka tungu, og jafnvel án þess þau væru birt, en einkum var það að kenna yfirvöldum landsins og dómendum, að hjer var beitt útlendum lögum fremur en lagaheimild var til. Um þetta var þegar á öndverðri 18. öld kvartað af Páli lögmanni Vídalín (sjá Skýr. yfir fornyrði lögbókar I. 396. bls.), enda má og sjá vott þess í lögþingisbókunum.

Hins vegar er það eðlilegt, að sumar greinir í lögbók Íslendinga, er var lögtekin á alþingi árið 1281, og síðan hefur verið nefnd Jónsbók — fleiri en þær, er beinlínis voru afmáðar með lögum — hafi úrelzt, þegar tímar liðu fram, og bæði stjórn og landshættir breyttust, og einkum þegar lagasetningin var, eins og áður er sagt, þannig, að sum af hinum nýju lagaboðum voru byggð á öðrum grundvelli en hin eldri lög, og stóðu ekki í neinu nánu sambandi við þau.

þegar Ísland var gengið undir vald Noregs konungs árið 1262, bar löggjafarvaldið konunginum og alþingi í sameiningu; en eptir að einveldið komst á, er það í hendi konungs eins, og er

því vilji konungsins, er hann lætur í ljósi í lögunum, skuldbindandi fyrir þegnana, sjá konungsúrsk. 27. júní 1813, en til þess að lögin nái fullkomnun og almennu gildi, er nauðsynlegt að birta þau þegnunum, og segir þar um í tilsk. 8. okt. 1824, sem hjer er lögleidd með konungsbr. 7. des. 1827, að þinglýsing laganna sje hið almenna og fyrir alla skuldbindandi birtingarform; þó er athugandi, að hin almennu lagaboð, fyrir Danmörku eða Noreg eru ekki gildandi á Íslandi fyrir það, þó þau hafi verið birt hjer á lögformlegan hátt, því til þess, að eitthvert lagaboð verði einnig gildandi hjer á landi, útheimtist líka, að annaðhvort lagaboðið sjálft eða þá annað sjerstakt lagaboð beri þess vott, að slíkt sje löggjafans vilji eða tilætlun.

Það má kalla, að konferenzráð M. Stephensen væri hinn fyrsti, er leitaðist við að hrinda í lag rjettarfari Íslands með vísindalegri rannsókn um hvað hjer væru gildandi lög; nú finnast í Lagasafni Íslands ágætar upplýsingar um þetta efni.

Hvað nú sjer í lagi gildi Jónsbókar snertir, þá er lögmálið svo ýmislegs efnis í hverjum bálki, og jafnvel í hverjum kapítula, að ekki dugir að ganga á röðina og segja: þessi er gildandi, þessi er afmáður. Ber og til þessa, að hin seinni lagaboð breyta opt hinum eldri ákvörðunum án þess að afmá þær öldungis. Að öðru leyti má geta þess, að rjettindi manna styðjast ekki einungis við hin skrifuðu lög, heldur og við landshátt og venju, eða það sem að fornu hefur verið, og er venjan opt látin hafa meira gildi en skrifuð lög, er aldrei hafa náð rótfestu, eða um langan aldur ekki hefur verið framfylgt.

Þrjár hinar helztu rjettarbætur, er komu út hingað fyrst eptir að lögbókin var lögtekin 1281, nefnilega: Eiríks konungs préstahatara árið 1294 og Hákonar konungs Magnússonar 1305 og 1314, voru, eins og hin síðarsta þeirra býður, ritaðar í bókina, og er í hinum prentuðu útgáfum Jónsbók-

ar rjettarbótum þessum grein fyrir grein skotið inn í á ýmsum stöðum, þar sem það hefur þótt eiga við.

Eins og sjá má af Jónsbókar kristinndómsbálki, kap. 2. hafði byskup á þeim tímum vald til andlegra hluta eins og konungur til veraldlegra hluta. Þannig samdi Árni byskup Þorláksson kristinnrjett, er var lögtekinn á alþingi árið 1275, en þó var í Hólastipti farið eptir hinum eldra kristinnrjetti Þorláks og Ketils frá 1122, þangað til Magnús konungur Smekkur gaf þá skipun 19. okt. 1354, „að sá kristinndómsrjettur, er gengi sunnanlands, skyldi ganga um allt landið“. Kristinnrjettur Árna byskups gilti fram að siðaskiptunum, og gildir enn, að því leyti boðorð hans geta staðizt með hinum nýja sið, en eptir siðaskiptin tók konungur að gefa fyrirskipanir um kirkjuleg málefni. Kirkjuordinanzía Kristjáns III. frá 1537 var lögtekin í Skálholts stipti á alþingi 1541 og í Hólastipti 1551, og líka voru Rípar-artíkular frá 1542 álitnir að gilda hjer eins og nokkurs konar viðbót við ordinanzíuna. Tilskipun 29. nóvember 1622 lögleiddi hjer hina norsku kirkjuordinanzíu Kristjáns IV. frá 1607. Einnig hefur kirkjuritúalinu frá 1685 að miklu leyti verið fylgt hjer á landi.

Árið 1564 var hinn svo nefndi Stóridómur (um hórsakir og legorð) samþykktur á alþingi, og árið eptir staðfestur af konungi. Árinu áður 1563 hafði Friðrik konungur II. boðið, að í þess konar málum og öðrum málum, þar sem Íslands lög næðu ekki til, skyldi dæmast eptir „recessinum“ (þ. e. Koldinghús recessi frá 1558). Sama ár 1563, 27. marz kom út lagaboð, er skipaði yfirrjett á Íslandi; átti höfuðsmaðurinn að vera forseti og nefna í dóminn með sjer 24 af hinum helztu og beztu mönnum landsins, til þessa dóms mátti skjóta dómum lögmanna. Lagaboð þetta var endurnýjað 6. desember 1592; sbr. konungsbr. 19, apríl 1704 og 7. maí 1735.

Að öðru leyti urðu engar stórkostlegar breytingar á lögbókinni fyrri en á 18. öld, og virðist einfaldast að tilgreina við hvern bálk eða kafla sjer í lagi hin helztu lagaboð, er þar að lúta. Það er ekki ætlað athugagreinum þessum að útskyra inntak þeirra og efni eða útlista í samhengi allar þær reglur, er gilda um rjettindi manna, því til þess þyrfti langan tíma og nákvæma vísindalega rannsókn, samanburð á eldri og yngri lögum með öllu því er þar að lýtur og útheimtist til að ná rjettum skilningi laganna í öllum greinum. Hjer verður einungis minnst á hin helztu af hinum seinni lagaboðum eptir bálka skipun lögbókarinnar.

Það virðist samt ekki illa til fallið, að áður sje skýrt frá tilraunum stjórnarinnar að semja nýja lagabók handa Íslandi,og bæta þar við nokkurri skýringu um hina íslenzku lagasetningu yfirhöfuð að tala.

Árið 1688 sendi Kristján konungur V. lögmönnum hina norsku lögbók, er út var komin árinu áður, og bauð þeim ásamt nokkrum af hinum lögfróðustu sýslumönnum að semja nýja íslenzka lögbók í svo mikilli líkingu við hina norsku sem unnt væri, en það sem í íslenzkum lögum væri þess eðlis, að það gæti eigi lagazt eptir Norsku lögum, þá skyldi haga því eptir Íslands háttum og venju. Þetta var ítrekað með konungsbr. 29. maí 1719, og sendi þá lögmáður P. Vídalín frumvarp til íslenzkrar lögbókar, er konungsbr. 2. maí 1732 skipar þáverandi lögmönnum og nokkrum sýslumönnum að endurskoða og lagfæra; jafnframt skyldi snúa frumvarpinu á dönsku, og sú útlegging fylgja því, þegar það væri að öllu leyti búið, og yrði sent til stjórnarinnar [1].

---

[1]) Frumvarp Vídalíns er nú í bókasafni háskólans, en af hinu umbætta frumvarpi eru til tvær útleggingar önnur eptir lögmann M. Gíslason í skjalasafni stiptamtsins, en hin eptir lögmann Bekker í bókasafni konungs (sjá nótur við kgsbr. 39 maí 1719 og 7 maí 1735 í lagasafni Íslands).

Með fyrtjeðum konungsbrjefum 1688 og 1719 var byskupum boðið með ráði og styrk lögmanna og nokkurra annara, er þar til væru færastir, að semja ný kirkjulög og laga þau eptir Norsku lögum, 2. bók. Var frumvarp til kirkjulaga samið af Mag. Jóni Vídalín og að nokkru leyti af Steini byskupi Jónssyni, og eptir ýtarlegri endurskoðun er var skipuð með konungsbr. 12. maí 1727, var frumvarpið sent til kanselísins 1729.

það lýtur svo út sem frumvörp þessi hafi gleymzt um tíma, því í brjefi 20. marz 1753, þegar verið var að tína saman öll Íslandi viðkomandi lög, er eptir konungsbr. 30. apr. 1751 áttu að prentast í einu lagi, segir yfirsekreterinn í kanselíinu, að þar hafi fundizt nokkur frumvörp til íslenzkrar lögbókar með ýmsu þar að lútandi.

Frumvörp þessi með tilheyrandi skjölum voru síðan seld í hendur vísilögmanni Jóni Ólafssyni, er með konunglegu erindisbrjefi 16. maí 1760, var boðið að semja nýja lögbók á íslenzku, og er þar greinilega lögð fyrir öll aðferð, er hann skyldi við hafa, og sjer í lagi er það tekið fram, að hann skuli leggja Jónsbók til grundvallar, en jafnframt hagnýta hin eldri lög, einkum Grágás, ef þar mætti finnast eitthvað betra eða landinu haganlegra en í Jónsbók, og sömuleiðis öll hin yngri lög, (rjettarbætur, tilskipanir, konungsbrjef); viðtekinni venju skuli ekki breyta, þar sem hún geti staðizt, en að öðru leyti skuli laga hina nýju lögbók eptir Norsku lögum þar sem það eigi við eðli landsins og þjóðarfarið, og geti samrýmzt hinum ízlenzku lögum og landsvenju [1].

Með kanselíbrjefi 15. júní 1793, er þáverandi lögmönnum skipað að endurskoða lagafrumvarp Jóns Ólafssonar, og aptur með konungsúrskurði 6.

---

[1]) Frumvarp Jóns Ólafssonar liggur nú í skjalasafni kancelísins, og önnur handrit af því í skjalasafni stiptamtsins og í bókasafni háskólans, sjá nótu í lagasafni Íslands við erindisbr. 16 maí 1760.

júní 1800 er yfirdómara síðan amtmanni St. Stephensen um boðið að semja frumvarp til almennrar lögbókar. Hvorugu þessu varð samt framgengt, og var því með konungsúrskurði 29. marz 1826 ákveðið, að það skyldi tína saman úr Jónsbók allt það sem í henni væri nýtilegt og gæti samrýmzt rjettarfari þessara tíma og þörfum landsins og setja það í eina tilskipun, og þar með afmá Jónsbókarlög, en undir eins lögleiða á Íslandi hina dönsku lögbók ásamt öllum seinni lagaboðum, er snerta þá hluti er hún ræðir um, þó með þeim úrtökum og breytingum, er nauðsyn bæri til eptir högum landsins; skyldi það vera falið á hendur amtmanninum í Vesturamtinu konferensráði Thorsteinson að semja frumvarp til slíkrar tilskipunar.

þessi úrskurður mun hafa gefið tilefni til brjefs amtmannsins, sem getið er um í Tíðindum frá embættismannafundunum í Reykjavík 1839 bls, 52, um það hverjar lagagreinir í Jónsbók enn megi telja í gildi eður og notandi, svo og um það, hvernig bezt mundi verða farið að því að endurskoða lögbók þessa í slíkum efnum. þetta brjef var sent til fundarins frá kanselíinu, er óskaði líka álits hans um fyrgreind atriði, og stakk jafnframt upp á því, að fundurinn tækist á hendur endurskoðun Jónsbókar í tjeðum greinum og samningu nýrrar tilskipunar í stað hinna fornu laga, og kysi fyrst útnefnd af fundarmönnum, til að undirbúa það mál. þetta var og gjört, og sendi fundurinn 1841 til kanselísins frumvörp og athugasemdir útnefndarinnar lútandi að þessu efni, sjá Fundartíðindin 1841, bls. 189. Eitt af þessum frumvörpum er undirstaða til tilskipunar 18. febr. 1847 um fjárforráð ómyndugra. En konungsfulltrúinn á alþingi 1845 kaus 5 menn í nefnd til að segja álit um landbúnaðarlögin, skattalög, rekalög og veiðilög. þessi nefnd sendi stjórninni frumvörp sín 1846, og hafa síðan útkomið tilskipanir um jarðamat 1848, um veiði 1849, og um vogrek

1853, en að öðru leyti liggja frumvörpin óáhrærið hjá stjórninni.

þar eð þannig hefur dvalizt fyrir hinni nýju lögbók, hefur konungurinn smámsaman lögleitt hjer Norsku lög og eptir aðskilnað Noregs frá Danmörk 1814 Dönsku lög í ýmsum efnum, er boðorð þeirra þóttu eiga betur við eða að minnsta kosti vera greinilegri en Jónsbókarlög. þannig eru Norsku lög lögleidd í því er snertir rjettargang og mála rekstur með erindisbrjefi 30. maí 1718. og konungsbrjefi 2. maí 1782, í dráps og þjófnaðarsökum með konungsbrjefi 19. febr 1734, og í erfðamálum með konungsbrjefi 17. febr. 1769, og verður þessara koungsbrjefa síðar getið á sínum stöðum sem og nokkurra fleiri lagaboða, er hafa innleitt einstakar greinir Norsku laga. Dönsku lög eru lögleidd hjer áhrærandi myndugsaldur og fjárforráð með tilskipun 21. des. 1831 og í öllum sakamálum með tilskipun 24. jan. 1838, auk margra einstakra lagaboða.

þar að auki hafa Íslandi fyrir sig verið gefin mörg lagaboð og sum merkileg, er síðar skal verða minnzt á.

þess er áður getið, að konungsbrjef 30. apr. 1751 bauð að prenta íslenzkt lagasafn. Höfuðsmaður Rantzá hafði kvartað um rjettarástandið á Íslandi, að í sumum málum ætti að dæma eptir Jónsbók, í öðrum eptir Norsku lögum og í nokkrum eptir stóradómi eða ýmsum tilskipunum og konungsbrjefum; þar að auki sje sá galli á, að konungsbrjefin sjeu ekki auglýst á prenti, svo að jafnvel dómendurnir þekki þau ekki, og af Jónsbók og Stóradómi vanti danska útleggingu, svo hæstirjettur viti opt ekki deili á lögum þeim, er íslenzk mál eigi eptir að dæmast. Var því með nefndu konungsbrjefi boðið, að öll Íslandi viðkomandi lög skyldu prentast bæði á dönsku og íslenzku.

það varð nú ekkert af prentun eða útgáfu þessa lagasafns. þar á móti er það í kanselí-

brjefi 26. maí 1792 ákveðið, að öll ný lagaboð, er umvarðandi sjeu fyrir almenning á Íslandi, skuli verða prentuð á dönsku og íslenzku; en er landsyfirrjetturinn var stofnaður 11. júlí 1800, var rjettinum með kanselíbrjefi 2. ágúst 1800 falið á hendur að íslenzka og láta prenta bæði tilskipunina um landsyfirrjettinn og hverja tilskipun er út kæmi handa Íslandi, sem og hin helztu af hinum eldri lagaboðum, og er þetta í kanselíbrjefi 14. maí 1803 nákvæmar einskorðað þannig: að öðrum tilskipunum en þeim, sem eiginlega áhræri Ísland, og þessa lands innbúar eigi að hlýða, beri ekki að snúa á íslenzku. Það er auðsætt, að það samt sem áður gat verið vafa undirorpið, hvort þær tilskipanir, er snerta almenn málefni, er að öllu eða þá nokkru leyti voru sameiginleg fyrir Ísland og hina hluti ríkisins, skyldu gilda á Íslandi (sbr. kanselíbrjef 27. maí 1820 og 2. maí 1835), og því var kanselíinu með konungsúrskurði 6. júni 1821 veittur myndugleiki til að birta til eptirbreytni á Íslandi almenn dönsk lagaboð, þegar það að fengnu áliti rentukammersins eða háyfirvaldanna á Íslandi mætti álítast vafalaust, að þau ættu þar við, en í tilliti til þeirra lagaboða, er einungis með breytingum gætu gjörzt hjer gildandi, átti kanselíið, að bera fram fyrir konung þar að lútandi uppástungur.

Þessari tilhögun með útlegginguna og löggildinguna var breytt með tilskipun 21. des. 1831, er lögleiddi á Íslandi ýms á árinu 1827 handa Danmörku gefin almenn lagaboð með nauðsynlegum breytingum og nánari ákvörðunum, og yfir lýsti stjórnin því jafnframt, að framvegis skyldi það verða kunngjört með konunglegum tilskipunum, hver af hinum almennu, fyrir konungsríkið Danmörk út komnu lagaboðum, skyldu, breytt eða óbreytt, gjörast gildandi á Íslandi, og skyldu slíkar tilskipanir verða prentaðar bæði á dönsku og íslenzku. Sömuleiðis var það ákveðið, að þeim lagaboðum, er framveg-

is yrðu gefin handa Íslandi, út af fyrir sig, eða handa Danmörk og Íslandi í sameiningu, skyldi undir eins snúa á Íslenzku, og prenta þau svo á báðum málunum; sjá kancelíbrjef 25. júní 1831 og 12. maí 1832[1].

Í landsyfirrjettardómi 23. maí 1842, sem er staðfestur í öllum greinum af hæstarjetti 9. desember s. á., er það álitið, að þó tilskipun 24. janúar 1838 § 7. bjóði, að sú breyting, er konungur eptirleiðis gjöri á hinum almennu dönsku hegningarlögum, skuli einnig vera gild á Íslandi, þá sje sjálfsagt, að hegningarlögin hljóti að vera löglega birt áður en dæmt verði eptir þeim; en yfirrjettinum virtist löggjafinn í innganginum til tilskipunar 21. desember 1831 hafa með berum orðum gefið til kynna, að lög þau, er eptirleiðis koma út fyrir Ísland, beri ekki að eins að prenta, heldur einnig að þinglesa á íslenzku, til þess þau verði landsbúum kunnug, og þeir geti fært sjer þau í nyt, og samkvæmt þessu hjelt yfirrjetturinn að skilja ætti § 7. í tilskipun 24. janúar 1838 (sjá ný Fjelagsrit 1848, bls. 167—171).

Þessi aðferð — að birta lögin á íslenzku — hefir og síðan yfirhöfuð verið við höfð á öllum lagaboðum, er hafa verið gefin handa Íslandi, eða handa Danmörku og Íslandi í sameiningu.

Þó er í þessu tilliti athugandi:

a, Konungsbrjef 27. marz 1835 segir, að samningar við önnur ríki um afnám afdráttar rjettarins af arfi og öðru fje, sem flutt er út úr ríkinu (sbr. Dönsku laga 5—2—76, Norsku laga 77), sjeu beinlínis gildandi á Íslandi án sjerstakrar ákvörðunar þar um, og eptir því hefði átt að snúa auglýsingum um slíka samninga á íslenzku, sam-

---

[1]) Auk tilskipunar 21. desember 1831, er einungis ein tilskipun út komin, er hefir innleitt fleiri Danmörku gefnar fyrirskipanir í einu lagi, nefnil. tilskipun 3. febrúar 1836, er lögleiðir á Íslandi ýms á árunum 1828 til 1831 fyrir Danmörku út komin lagaboð.

kvæmt áður nefndum ákvörðunum, en þessa hefir ekki verið gætt, líklega af því, að tjeðar auglýsingar hafa ekki þótt svo umvarðandi fyrir almenning.

*b*, Nú seinustu árin er farið að brjóta þessa reglu jafnvel í tilliti til mikilsvarðandi lagaboða. Lögin 31. júlí 1853 um ríkiserfðirnar, og lögin 10. febrúar 1854, er breyta nafninu á myntinni, voru með brjefum frá hinni íslenzku stjórnardeild send háyfirvöldunum á Íslandi til ráðstöfunar um birtingu þeirra, án þess að þau væri íslenzkuð. Alþing 1855 fór því á flot, að þessi lagaboð yrðu lögð út og birt á íslenzku, hið síðarnefnda með lítilli breytingu, en í auglýsingu til alþingis 27. maí 1857 er svo kveðið að orði, að konungi hafi, einkum vegna þess ætla megi, að lög þessi sjeu fyrir löngu birt á Íslandi, ekki þótt nauðsyn á, að gjöra frekari ráðstöfun í því efni.

Sömuleiðis hefir ráðgjafi sá, er settur er yfir Íslands málefni, gjört lög 28. marz 1855, um hinar lausu ríkisskuldir, gildandi hjer á landi án þess að þeim hafi verið snúið á íslenzku.

Víkur nú málinu aptur til Jónsbókar og skal nú minnast á hin helztu lagaboð, er lúta að inntaki hvers bálks fyrir sig.

**1. Þingfararbálkur.** Erindisbrjef amtmanns Fuhrmanns 30. maí 1718, § 3, og konungsbrjef 2. maí 1732 bjóða, að á Íslandi skuli fara eptir Norsku lögum í því er snerti rjettargang og málarekstur; ýmsar tilskipanir, er áhrærðu rjettarganginn í Noregi, hlutu því einnig að gilda hjer á landi, t. a. m. tilskipun 17. maí 1690 um áfríun rjettarúrskurða og um fullnustugjörð námsdóma, tilskipun 31. marz 1719 um afstöðumálverk í landaþrætumálum, tilskipun 19. ágúst 1735 um ýmislegt viðvíkjandi dómsmálum og rjettarins þjónum í Noregi, 23. desember 1735 um skerpingu laganna gegn þrætukærum mönnum og ranglátum dómurum

og málaflutningsmönnum, 3. marz 1741 um vitna stefnur m. m., tilskipun 21. maí 1751 áhrærandi rekstur sakamála, 7. júní 1760 um áfrían sakamála fyrir hæstarjetti, 3. júní 1796 um fljóta afgreiðslu dómsmála, 31. maí 1805 um áfrían sakamála. þess má einnig geta, að eptir konungsbrjefi 24. jan. 1738 og konungsbrjefi 2. júní 1747, sbr. tilskipun 13. jan. 1787 II. 21., á í þeim málum sem það á við, að fara eptir Norsku laga 1—22—19 og 4—8—1, er hljóða um gestarjettar og sjórjettarmál. Loksins var þingfararbálkur að öllu leyti tekinn úr lögum með tilskipun 11. júlí 1800, um stofnun landsyfirrjettar á Íslandi.

Síðan hafa ýmis lagaboð um dómsmál út gengið, og eru þeirra merkust tilskipun 15. ágúst 1832 um rjettarganginn á Íslandi, tilskipun 24. jan. 1838 um sakamál § 13. til 16. og opið brjef 2. apríl 1841 um fjárnám. Með þeim lögum er nú gilda um þingsköp og málarekstur á Íslandi, eru og afmáðar allar þær greinir í lögbókinni er lúta að málaferlum.

**2. Kristinndómsbálkur ásamt konungserfðum.** Kristinnrjettur Árna byskups, er áður er getið, sem og þeirra fyriskipana er konungar gjörðu eptir siðaskiptin á 16. og 17. öldinni. Af þeim lagaboðum er síðan hafa út komið um kirkjuleg málefni eru þessi hin helztu: tilskipun 13. jan. 1736, lögleidd með konungsbrjefi 9. júní 1741 um konfirmation ungdómsins, 29. maí 1744 um yfirheyrslu ungdómsins, s. d. um helgidagahald, 27. maí 1746 um húsvitjanir, s. d. um altarisgöngu, 3. júní 1746 um hjúskaparmálefni og fl., 25. maí 1759 um konfirmationina, 27. júlí 1771 um heimaskírn, 7. maí 1783 um það formúlar, sem á að brúkast við skírnina, reglugjörð 17. júlí 1782, og tilskipun 27. jan. 1847 og opið brjef 18. marz 1853 um tekjur presta og kirkna, tilskipun 30. apríl 1824 um embætti prestanna í tilliti til hjónabanda, 6. jan. 1847 um fardaga presta, 28. marz 1855 um helgidagahald.

Hvað konungserfðum og þess konar við víkur; fjellu ákvarðanir Jónsbókar úr gildi við innleiðslu hinnar einvöldu erfðastjórnar, sjá sendibrjef Friðrik III. til Íslendinga 24. marz 1662, arfhyllingareiðinn 28. júlí s. á., konungalögin 24. nóvember 1665, opið brjef 4. sept. 1709, og hin nú gildandi lög um ríkiserfðirnar í Danmörk 31 júlí 1853. Hjer virðist líka hlýða að geta um tilskipun 28. maí 1831 um stofnun fulltrúaþinga, 8. marz 1843 um stofnun alþingis, 6. jan. 1857 um kosningarrjett til alþingis, sbr. konungsbrjef 23. sept. 1848, kosningarlög 28. sept. 1849 og auglýsing 12. maí 1852 áhrærandi stöðu Íslands í ríkinu.

**3. Þegnskyldubálkur.** Fyrsti kapítulinn gildir enn um skattgjaldið, en þar eð hann er mjög óljós, er hann ýmislega skilinn, og því með fram farið eptir venjunni á hverjum stað. Annar kapítulinn er afnuminn með opnu brjefi 30. marz 1843, og þriðji kapítulinn með áður nefndum lagaboðum um rjettarfarið hjer á landi.

**4. Mannhelgi og þjófabálkur.** Konungsbrjef 19. febr. 1734 bauð, að í dráps og þjófnaðarsökum skyldi fara eptir Norsku lögum, og urðu því einnig ýmsar tilskipanir fyrir Noreg, bæði eldri og yngri, um dráp og þjófnað, gildandi hjer á landi. Jafnframt voru Íslandi fyrir sig gefin nokkur lagaboð áhrærandi hegningu fyrir ýms lagabrot, t. a. m. tilskipun 19. febr. 1783 áhrærandi lausamennsku, opið brjef 24. marz 1786 um straff fyrir innbrot og þjófnað, og 1. sept. 1786 um straff fyrir tíundarsvik, sb. konungsbrjef 25. júlí 1808 og 3. maí 1816; tilskipun 24. sept. 1824, er af tekur búslóðar straffið og önnur þess konar ströff, og setur að nokkru leyti aðra hegningu í staðinn, er innleidd hjer með konungsbrjefi 7. desember 1827, tilskipun 21. desember 1831, II., af tekur útlegðarstraffið og leggur aðra hegningu við þau afbrot er það átti við. Loksins lögleiddi tilskipun 24. jan. 1838 hjer

í sakamálum hinna dönsku lögbók og öll hin seinni dönsku lagaboð, er að því efni lúta; var þá tilskipun 4. okt. 1833 um meiðsli snúið á íslenzku og síðan hafa út komið um þetta efni tilskipun 11. apríl 1840 um straff fyrir þjófnað, svik og fals og önnur þess kyns afbrot, 15. apríl 1840 um straff fyrir falskan vitnisburð og annað meinsæri, og 26. marz 1841 um straff fyrir brennur, opið brjef 24. sept. 1841 hvernig sá skuli straffast, er hefur stolna muni í vörzlum sínum.

þessir tveir bálkar eru þannig felldir úr gildi í sakamálum, en þó hljóta nokkrar ákvarðanir þjófabálks að hafa gildi í einkamálum, t. a. m. 13. kap. um misfanga, 14. kap. um fundarfje, 15., 16. og 17. um ábyrgð á geymslufje og lánsfje.

**5. Kvenna giptingar ásamt erfðatali og arfatökum.** Kaflanum um giptingar var breytt með tilskipun 3. júní 1746 um hjúskaparmálefni og fl., sbr. tilskipun 5. marz 1734 og konungsbrjef 14. júní 1740, en síðan er hún aptur tekin úr lögum með konungsbrjefi 7. des. 1827. er lögleiðir hjer tilskipun 30. apríl 1824 um hjónabönd, sbr. kanselíbrjef 16. júní 1835, og þar með er þá þessi kafli genginn úr gildi.

Kaflinn um erfðir og arftöku er einnig numinn úr lögum; konungsbrjef 17. febr. 1769 skipaði, að á Íslandi skyldi um arf, erfðir og arfaskipti fara eptir Norsku lögum 5. bókar 2. kap. Eptir konungsúrskurði 16. sept. 1832 (í kanselíbrjefi 6. október. s. á.) er Norsku laga 5—2—76 um leyfispeninga fyrir arfflutning (Forlövspenge) ekki gildandi hjer á landi. Konungsbrjef 9. nóvember 1825 gefur reglur um meðferð á arfi fjærverandi erfingja, tilskipun 21. des. 1831 I. lögleiddi hjer Dönsku laga 3. bókar 17. kap. um það hverjir skuli álítast ómyndugir, hálfmyndugir eða fullmyndugir, tilskipun 18. febr. 1847 skipar fyrir um fjárstjórn ómyndugra, og tilskipun 25. sept. 1850 inniheldur breytingar á erfðalögunum.

**6. Framfærslubálkur.** Um framfærslu þurfamanna gildir nú reglugjörð 8. jan. 1834 og opið brjef 6. júlí 1848. Að öðru leyti eru sumar ákvarðanir í þessum bálk ekki beinlínis teknar úr lögum, t. a. m. 9 10. 11. og 12. kap.

**7. Landabrigðabálkur.** Hjer að lúta tvær tilskipanir Kristjáns IV. frá 29. nóv. 1622 um lögboð á óðalsjörðum m. fl., og 10. des. 1646 um tilboð og sölu óðalsjarða. Annars var óðalsbrigðarjettur á Íslandi mjög á reiki þangað til konungsbrjef 28. marz 1776 lögleiddi tilskipun 14. jun. 1771 um óðalsrjettinn í Noregi, en nú gildir hjer um þetta efni tilskipun 17. apríl 1833; um jarðakaup og veðsetningar út kom tilskipun 24. apríl 1833.

**8. Landsleigubálkur.** 12. kapítuli um heykaup er numinn úr lögum með opnu brjefi 19. sept. 1806. En af þeim lagaboðum, er gjöra breytingu á þessum kafla eða innihalda viðauka, eru þessi hin helztu:

*a*, tilskipun 15. apríl 1776 um byggingu eyðijarða.

*b*, konungsbrjef 29. apríl 1776 um vegabætur og ferjur.

*c*, tilskipun 22 júlí 1791 um að tryggja skuli leiguliða í ábúðarrjetti þeirra, samkvæmt N. L. 3. 4. 10. og 3. 13. 1., sbr. tilskipun 15. maí 1705 og kanselíbrjef 8. desember 1832. Þar að auki hafa verið gefnar ýmsar fyrirskipanir um byggingu konungsjarða.

*d*, konungsbrjef 22. des. 1797, er lögleiðir tilskipun 18. júní 1723 fyrir Noreg áhrærandi forkaupsrjett leiguliða á ábýlisjörðum þeirra.

*e*, tilskipun 20. júní 1849 um veiði á Íslandi og opið brjef 22. marz 1855 áhrærandi bann gegn selaskotum á Breiðafirði.

**9. Rekabálkur.** Við þennan kafla má telja tilskipun 20. maí 1595 um vogrek, opið brjef 3. maí 1650 um vogrek á fjörum kirknanna. tilskipun 21. marz 1705 um strönduð skip, konungsbrjef 23. júní 1779 áhrærandi skothval, opið brjef

4. maí 1778, 21. apríl 1819 og 2. apríl 1853 um rekarjett á Íslandi.

**10. Kaupabálkur.** Viðvíkjandi þessum kafla má telja eptirfylgjandi lagaboð:

*a*, tilskipun 18. jan. 1784 um vigt og mæli, 17. nóv. 1786 um íslenzka kaupstaði, 13. júní 1787 um verzlun og siglingu. opið brjef 28 des. 1836, er inniheldur nánari ákvarðanir þar að lútandi. tilskipun 18 maí 1825 um víxlbrjef, sem er lögleidd hjer með kanselíbrjefi 17. marz 1827. lög um siglingar og verzlun 15. apríl 1854.

*b*, tilskipun 20. marz 1815. opið brjef 11. maí 1819. og tilskipun 30 marz 1836 áhrærandi peninga gildi.

*c*, tilskipun 16 júlí 1817 áhrærandi árlegar verðlags-skrár.

*d*, lög áhrærandi nýtt nafn á myntinni (ríkismynt í staðinn fyrir ríkisbankamynt) 10. febr. 1854.

**11. Farmannabálkur.** Hjer má telja konungsbrjef 28. febr. 1758 áhrærandi fiskiveiðar. sbr. tilskipun 13. júní 1787 og lög 15. apríl 1854 um verzlun og siglingar.

Af því sem að framan er til greint, má sjá að þessir kaflar í Jónsbók eru að mestu felldir úr gildi, nefnilega, þingfararbálkur, Kristinndómsbálkur með konungs erfðum, Mannhelgi og þjófabálkur, Kvennagiptingar með erfðatali og arftökum, og Framfærslubálkur, en Landsleigubálkur og Rekabálkur eru enn að mestu leyti í gildi, og sömuleiðis er fátt í Landabrigðabálk. Kaupabálk og Farmannabálk beinlínis afmáð með lögum, og gilda þeir því að því leyti boð þeirra geta samrýmzt landsháttum og rjettarfari nú á tímum.

# Registr

yfir

## bálka ok kapitula, o. s. frv.

---

# Athugasemd.

Af því að mjer gleymdist að geta þess í formálanum, og af því það er ekki tekið fram í athugasemdunum um lögbókina hjer að framan, vil jeg geta þess, að jeg hefi sett í klofa frá byrjun 4. — hefði átt að vera frá byrjun 3. — kapítula í kristinndómsbálki, þar eð þessi kafli, ekki hefur upprunalega heyrt lögbókinni til, en er tekinn upp í sum handrit Jónsbókar, og hinar prentuðu útgáfur hennar, eptir þáverandi norskum lögum. Jón Sigurðsson fer um þenna kafla svo felldum orðum í ritgjörð sinni um landsrjettindi Íslands, að það megi ráða af efninu sjálfu — að hann heyri ekki bókinni til —, „og það sýnist öldungis vafalaust, þegar borið sje saman brjef Magnúsar konungs — sem stendur framan við Jónsbók —, við bókina sjálfa; því eptir brjefinu, geti ekki annað átt heima í Kristinndómsbálki en það, sem stendur í tveimur hinum fyrstu kapítulum; en allur kaflinn um konungserfðir, konungs kosningar, eiða ýmsra embættismanna og stjetta, sje alls ekki talið með bókinni; en þetta sje einmitt það sem nú sje kallað kristinndómsbálks 3. kapítuli og konungserfðir, sem talið er 4.—11. kapítuli í sama bálki, og að þessi

ætlun hans staðfestist fullkomlega við það, að eitt af hinum merkari handritum Jónsbókar Nr. 351 í arkarbroti í safni Árna Magnússonar, hafi ekki nema tvo kapítula í Kristinndómsbálki, en sleppi einmitt 3.—11. kapít.“, og það eru einmitt þessir tveir fyrstu kapítularnir, sem brjef Magnúsar konungs bendir á, þar sem það ræðir um efni bálkanna.

**Útgefarinn.**

## Hèr hefr Prologum með lögbálkaskipan, ok segir hverr bálkr öðrum skal næst vera.

**Magnús með guðs miskunn, Noregs konungr, son Hákonar konungs, sonarsonar Sverris konungs, sendir öllum guðs vinum ok sínum á Íslandi kveðju guðs ok sína.** — Þèr vitið at hinir skilríkustu menn á Íslandi hafa iðuglega getið fyri oss, at þèr hafit spurt, at vèr höfum hlut í átt at bæta nokkut um flestar lögbækr í Noregs konungs ríki, með hinna beztu manna ráði, ok beðit oss, at yðar lögbók skyldi eigi hlutlaus vera þeirra umbóta. En þèr skulut vita, at oss bar áðr vel fyri at sjá, en einkanlega nú bezt, þar sem þèr treystuð svá mikit á vára forsjá, at þèr dæmdut hana alla í vára skipan, þar af at taka, ok þar við at leggja, sem oss þætti bera, með hinna beztu manna ráði. Ok af því höfum vèr nú[1] iðuglega skoðat hana, ok lízt oss svá sem víða mætti með færrum orðum fullan úrskurð gjöra, þar sem hún talar áðr geysilangt um. En í sumum stöðum þyrfti hún sannliga tillögu, þar sem hún var áðr hvergi ljósari en

[1]) Aðrar bæta við: um hríð.

margir þyrfti, þeir sem áðr váru fákunnigir. Nú þó at vèr kennum oss mjög fákunniga til slíkra stórræða, þá höfum vèr þó þessa bók rita látið, sem vèr sendum yðr, með herra Jóni lögmanni, eptir slíkum hætti sem hún váttar. Treystandi á miskunn drottins várs Jesu Christi ok þeirra skynsömustu manna tillögu, sem þá váru hjá oss. En at þèr skilit því gjörr, því vèr höfum svá bálkum skipat sem nú er, þá greinir þessi háttr fyri yðr sem hèr segir.

Þingfararbálkr er nú sem fyr at öndverðu ritaðr, fyr en hefr sjálfa bókina. Þvíat áðr hæfir at skipat sè þingit, nefndir skoðaðar, lögrèttumenn komnir, eiðar fluttir, grið sett ok siðsemdum lýst, at því betr verði bókinni hlýtt ok dómum, sem þingit er betr siðat ok stillt.

Fyrsti hluti bókarinnar er kristinndómsbálkr, at menn skili kristiliga trú sem grundvöll ok upphaf allra góðra hluta, ok heilagrar kirkju frelsi ok hlýðni, ok hennar formenn vera lýsing ok leiðtoga til allra rèttinda ok skynsamligra röksemda.

Næst kristinndómsbálki er um konungs þegnskyldu, at alþýðan skili þann sama guð hafa skipat konungdóminn til veraldligs valds, sem byskup til andligs.

Eptir konungs þegnskyldu er mannhelgi, því at næst þessu hæfir höfðingjum ok öllum út í frá, at halda ok halda láta guðs frið ok góðra manna frelsi á milli kristinna manna, ok þeim með lögum ok þó hófsamliga eptir atvikum at refsa, sem at öðru verða prófaðir.

Næst mannhelgi er erfðatal, með því fleira sem þar fylgir, ok hefr þat með kvennagiptingum, því at miklu varðar þeim, sem til arfanna kalla, at þeir sèu í lögligum hjúskap getnir.

Eptir erfðatal er landabrigðabálkr, því at í þann tíma sem maðr erfir nokkrar jarðir, þá hæfir honum að skoða um sín óðul ok annara manna, at hann haldi engra manna óðulum með lögum sóttum, ok kunni sjálfs síns óðulum með lögum at brigða.

Eptir landabrigði er landsleigubálkur, því at þeim hæfir með lögum sínar jarðir at byggja, sem með lögum hafa at komizt.

Eptir landsleigubálk er kaupabálkr, því at svá skal með lagasóknum lausa aura sækja, sem eptir landabrigði lönd ok jarðir.

Eptir kaupabálk eru farmannalög, því at þeim hæfir með rèttum kaupskilum at fara, sem sitt vilja með kaupferðum ávaxta.

Eptir farmannalög er þjófabálkur, því at þat hæfir fyri engum at tortýna, sem eigandi hefr með lögum at komizt. En sá öðruvís gjörir mun lagarefsing fyri fá.

Síðast í bókinni eru rèttarbætr, at sá konungr, sem til er skipaðr eptir at sjá lögunum eptir dæmum sinna foreldra, á eigi síður at hugga sína siðsama þegna með línkindum ok rèttarbótum, en at tempra óspaka með hirtingum ok lögligum refsingum.

Erfðir þær, sem til hafa fallit um landabrigði ok vígaferli, ok öll önnur lagamál, undir hverjum lögum sem þau urðu, þá skulu þau eptir því vera, sem þá ganga lög í landi, er þau mál gjörðust, ef eigi hefr áðr löglig skipan á komit.

Biðjum vèr, at þèr vorkynnið oss þat sem á skortir, því at meir hefr valdit fjölskylda ok vankunnindi en viljaleysi, sem ætla má, þó at vèr hefðum minna í veð sett, ok oss tæki sjaldnar þetta efni en oss tekr. Finnst ok nokkut nytsamligt í, þökkum þat allir Jesú Christo, drottni várum. Hans nafn sè blessat um allar aldir veraldar, amen.

---

# Hèr hefr þingfararbálk, ok segir um alþingis skikkun ok nefndarmenn, um vitni, um dómrof ok lagastefnur.

**1. kap.** Friðr ok blessan várs herra Jesú Christi sè með oss öllum lögþingismönnum nú ok jafnan. En vèr skulum lögþingi várt eiga at Öxará, á þingstað rèttum, á tólf mánuðum hverjum, ok koma þar á Petursmessu aptan. Þar skulu allir komnir at forfallalausu, þeir sem til lögþingis eru nefndir. En valdsmenn skulu nefnt hafa til alþingis fyrir páskir, svá marga menn úr þingi hverju sem hèr váttar, eðr þeirra lögligir umboðsmenn; ok nefni þá, er forverksmenn eru, ok þeim þykkja vænstir til skila, ok sè færir at þingmanna dagleiðum, svá at þeir megi þat með eiðum sanna. En þann eið skulu þeir sverja fyri lögmanni fyrstan særan dag, er þeir koma til þings, með þessum eiðstaf. At til þess leggr hann hönd á helga bók, ok því skýtr hann til guðs, at þá menn hefr hann til þings nefnda at því sinni, sem honum þótti vel tilfallnir ok vænstir til skila eptir sinni samvizku, ok eigi tók hann þar aðra muni til, ok svá skal hann jafnan gjöra á meðan hann hefr þetta starf. Þenna eið þarf engi optarr at sverja en um sinn.

## 2. Um nefndarmanna kaup.

Nú skal valdsmaður nefna 6 menn úr Múlaþingi, skal hverr nefndarmaður fyri Norðan Öxarheiði hafa 18 aura í farareyri, en tvær merkr fyri sunnan. Úr Skaptafellsþingi, skal nefna 6 menn; skal hverr nefndarmaður fyri austan Lómagnúpssand hafa 12 aura í farareyri, en 10 aura fyri vestan. Úr Rangárþingi skal nefna 8 menn; skal hverr nefndarmaðr þaðan hafa 6 aura. Úr Árnessþingi skal nefna 12 menn; skal hver nefndarmaðr þaðan hafa hálfa mörk. Úr Kjalarnessþingi skal nefna 9 menn; skal hverr nefndarmaðr þaðan hafa hálfa mörk. Úr Þverárþingi skal nefna 8 menn; skal hverr nefndarmaðr þaðan hafa hálfa mörk fyri sunnan Hvítá, en 5 aura fyri vestan. Úr Þórnessþingi skal nefna 6 menn; skal hverr nefndarmaðr þaðan hafa mörk í farareyri fyri sunnan Hvammsfjörð, en 10 aura fyri vestan. Úr Þorskafjarðarþingi skal nefna 5 menn; skal hverr nefndarmaðr þaðan hafa fyri sunnan Glámu í farareyri 12 aura, en 2 merkr fyri vestan. Úr Húnavatnsþingi skal nefna 6 menn; skal hverr nefndarmaðr þaðan hafa í farareyri 7 aura. Úr Hegranessþingi skal nefna 8 menn; skal hverr nefndarmaðr þaðan hafa mörk. Úr Vaðlaþingi skal nefna 6 menn; skal hverr nefndarmaðr þaðan hafa 10 aura. Úr Þingeyjarþingi skal nefna 4 menn; skal hverr nefndarmaðr þaðan hafa 12 aura. Skal hverr sýslumaðr í sinni sýslu þetta greiða, sem nefndarmönnum er ætlat, með góðum greiðskap af sínum hlut þingfararkaups. En hverr sem þat geldr eigi nefndarmönnum, er þeim er skipat, þá er sá sekr 6

aurum, hálft eiganda, en hálft lögrèttumönnum, ok sæki sem vítafè. Nefndarmenn allir skulu með lögmanni á alþing ríða, þeir sem samleið eigu við hann. R. B. E. K. Eigi skal handgengna menn til Öxarárþings nefna, nema fyri konungs erindi. Nú ef valdsmaðr nefnir eigi svá menn til þings sem hèr váttar, eðr hans lögligr umboðsmaðr, þá er hann sekur 12 aurum fyri hvern þann mann, sem ónefndr er eðr rangnefndr, hálft konungi en hálft lögrèttumönnum. Engan skal til lausnar nefna, en því at eins umskipti á gjöra, at þeim gangi löglig forföll til, er áðr var nefndr. Valdsmenn allir ok sóknarmenn þeirra eru skyldir at koma til lögþingis, eðr skilríkir umboðsmenn þeirra: Skulu þeir vera um fram nefndarmenn ok taka engan farareyri. En ef þeir koma eigi forfallalaust, sekist hverr þeirra 3 mörkum, hálft konungi, en hálft lögrèttumönnum, ok riti lögmaðr til konungs slík tilfelli. Hverr bóndi er skyldr, sá er á 10 hundruð eðr meira fè, at fæða þá menn, er til lögþingisreiðar eru skyldir, hálfu færri hjónum, bæði er þeir ríða til þings ok frá, ella er hann sekr tveim aurum fyri hvern þann mann, sem eigi er alinn eptir lögum forfallalaust. Nú eptir því sem áðr var greint, þá skulu þingmenn allir til þings komnir fyri Petursmessu ok Páls. Á lögmaðr þar fyri at vera forfallalaust. En hverr nefndarmaðr er síðar kemur til lögþingis, en særi eru flutt, sekr 12 aurum, nema nauðsyn banni. Meti lögmaðr ok lögrèttumenn þær nauðsynjar.

### 3. Um sléðu ok skikkjum á alþingi.

Þing skal standa svá lengi sem lögmaðr vill, ok honum þykir fallit fyri mála sakir, ok lögrèttumenn samþykkja. Lögmaðr skal láta gjöra vebönd á þingstað rèttum, svá víð, at þeir menn hafi rúm at sitja fyri innan, sem í lögrèttu eru nefndir. Þat skulu vera þrennar tylftir manna. Skal lögmaðr ok valdsmenn nefna þrjá menn úr þingi hverju, þá sem þeim þykja bezt tilfallnir. Þeir menn, sem í lögrèttu eru nefndir, skulu eið sverja fyri lögmanni áðr þeir gangi í lögrèttu, með þessum eiðstaf: at því skýtr hann til guðs, at hann skal svá til allra manna mála leggja, sem hann veit sannast fyri guði, eptir lögum ok sinni samvizku, svá með sökuðum sem sifjuðum, ok svá skal hann jafnan gjöra, þá hann er í lögrèttu nefndr. Fyrstan tíma skal hann þenna eið sverja, er hann er í lögrèttu nefndr, en eigi optarr, þó at hann sè nefndr. Engi þeirra manna, sem eigi eru í lögrèttu nefndir, skulu setjast innan vebanda utan orðlof. En ef hann sezt, ok gengr eigi út, þá við hann er mælt, þá sekist hann hálfri mörk. Allir menn eigu at ganga til lögrèttu, þegar lögmaðr lætr hringja hinni miklu klukku, ok sitja þar svá lengi sem lögmaðr vill þing hafa. En hverr sá maðr, er eigi kemr til lögrèttu sem nú er mælt, er sekr hálfri mörk. En ef nokkurr maðr slæst í mat eðr munngát, ok rækir þat meir en þingit, hann skal enga uppreisn eiga síns máls á þeim degi, hvat máli sem hann á at drífa á Öxarárþingi. Drykk skal engi maðr til lögrèttu bera, hvárki til sölu nè annars; en ef borinn

verðr, þá er hann uppnæmr, ok eigu þingmenn hann. Allir þeir sem í lögréttu eru nefndir skulu sitja sem nú er mælt, nema þeir gangi út sökum nauðsynja sinna. En ef menn ganga úr lögréttu utan vebanda nauðsynjalaust, þá er hverr þeirra sekr tveim aurum. Þeir menn sem eru utan vebanda ok gjöra þar hark eðr háreysti, svá at lögréttumenn mega eigi náðugliga geyma dóma sinna, ella þeir menn kæra mál sín, sem lögmenn ok lögréttumenn hafa orðlof til gefit, sekr er hverr eyris, er at því verðr sannr, ef honum er til sagt áðr.

## 4. Um vitni, ok þau mál, er á alþingi skulu dæmast.

Eptir gögnum ok vitnum skal hvert mál dæma. Svá er, ef einn ber með manni sem engi beri, en tveir sem tíu, ef maðr uggir eigi andvitni í móti koma. Nú eru þau vitni, er eigi skulu andvitni í móti koma: þat er heimstefnuvitni, þingstefnuvitni, kvöðuvitni, forsagnarvitni ok nauðsynjavitni, er vitnað verðr undir mann, ok þau vitni, er menn bera um deild manna á samkundum. Þeir menn sem í lögréttu eru nefndir, skulu dæma lög um öll þau mál sem í lögréttu verða kærð, ok þar eru lögliga framborin. Þau mál skal fyrst dæma, er til lögþingis eru lögð, eptir því sem lögbók segir ok stærst eru. Eptir þat þau, sem þangað eru stefnd, ok öll þau mál, er menn leggja hendr sínar saman fyrir váttum tveimr eðr fleirum, ef þau mál ok vitni koma þar fram á þinginu; síðan þau, er þar verðr á sætzt ok smærst eru. En allt þat, er lögbók sker eigi

skilríkliga úr, þá skal þat hafa af hverju máli, sem lögrèttumenn verða allir á eitt sáttir. En ef þá skilur á, þa skal lögmaðr ráða ok þeir sem honum samþykkja, nema konungi sýnist annat lögligra með vitrustu manna ráði.

## 5. Um vápnaburð ok þingvitni.

Allir þeir menn, sem í Öxarár þingför eru, þá skulu í griðum vera hverr við annan þar til þeir koma heim til síns heimilis. En ef einhverr gengr á þessi grið, ok vegr mann, eðr veitir lemstrarsár, þá hafi sá fyrigjört fè ok friði, landi ok lausum eyri. En ef menn verða særðir á Öxarárþingi, eður fá einhvern vansa eðr óhlut af manna völdum ok vilja, þá eykst at helmingi rèttur þeirra, en konungi 13 merkr. Ef menn bera vápn á Öxarárþingi, þá gjaldi þeir hálfa mörk, en láti vápnin; eigi konungr hálf vápnin ok hálfa sektina, en þingmenn hálf ok sekt hálfa. Því at í öllum stöðum hæfir mönnum at gæta spektar ok siðsemdar, en þó einkanliga í þeim stöðum mest, er til siðsemdar ok sætta eru skipaðir fyri öndverðu af góðum mönnum, ok flestum verðr mestr skaði at, ef nokkut skerst í. Hvervetna þar sem menn verða vítir á Öxarárþingi, þat fè á hálft konungr, en hálft lögrèttumenn, utan þegngildi ok 13 marka mál eðr meira, þat á konungr. En öll þingvíti þau til falla, ok eigi greiðast á því þingi, þá dæmi lögþingismenn at greiðist á öðru Öxarárþingi, ok taki þá við sýslumaðr, hverr í sinni sýslu, ok færi þat fè til Öxarárþings. En þeir menn, sem þetta fè greiða

eigi fyrir þrjózku sakir, þá sè þeim sjálfstefnt til næsta Öxarárþings, ok svari þar sektum ok dómrofum, ef þá greiðist eigi, ok hafi konungr helming, en þingmenn helming, ok hafi þann helming, er þingmenn eigu, til þess er valdsmönnum með lögmanns ráði þykir mest nauðsyn vera þá 12 mánuði. (R. B. E. K. þingvíti skulu leggjast til þinghússgjörðar svá lengi sem þarf). Nú ef maðr rýfur þann dóm, sem dæmdr er á Öxarárþingi, ok vápnatak var at átt innan lögrèttu ok utan, þá er sá sekr 4 mörkum við konung, en mörk við sakarábera. Því skal sýslumaðr hverr lýsa á Öxarárþingi, hversu margir manndráparar eðr ódáðamenn urðu í hans sýslu á næstu 12 mánuðum, ok segja skil á um vöxt þeirra ok yfirlit, sem hinum urðu at skaða, at þeir megi því heldur at líkindum kenndir verða, hvar sem þeir kunna fram að koma.

## 6. Um rètting mála þeirra, sem rangliga eru upp borin.

Ef annarrtveggi frýr á sinn hlut, þá er hann kemr heim í hèrað, ok kallar rangt hafa verit upp borit fyri lögrèttumönnum, þá skal þó eigi þeim dómi bregða sektalaust. En hann má stefna hinum, er mál á við hann hit næsta ár eptir til Öxarárþings, ok hafi hvárrtveggi sitt mál upp. En ef mál prófast sem fyr, þá hafi hinn af honum kostnað sinn hálfu aukinn, sem ýfði hann til rangs máls, en konungr mörk, ok sæki sem aðrar fjársóknir. Prófast ok svá, at hann hafi rangt upp borit fyri lögmanni ok lögrèttumönnum, er fyr dæmdist málit, ok dæmist

þá hinum, þá hafi sá kostnað sinn hálfu aukinn, ok mörk konungi, ok sæki sem vítafè. Ok svá skal hvervetna þar sem lögmaðr ok skynsamir menn sjá at menn verða rangliga eðr aflaga sóttir, ok til laga stefndir, hvárt sem þat er til lögmanns, eðr aðrar þingstefnur, eðr lagasóknir, ok dæmist þeim á hendr, er sóttr var, hvárki fè nè eiðar nema hann er sótti sverì eineiði, at hann hugðist hinn eptir rèttu máli sækja. (R. B. E. K. þat skal standa um melrakkaveiðar sem lögrèttumenn skipa, ok aldri meiri sekt við en 6 álnir fyri einn).

## 7. Um leiðarþing.

Svá er mælt, at sýslumenn skulu þing eiga á leiðum[1], er þeir koma heim af Öxarárþingi, ok lýsa fyri mönnum því, er talat var á Öxarárþingi, einkanliga hver lykt fèll á þeirra manna mál, sem úr hans sýslu váru. Sýslumaðr á því þar at lýsa, at lögþingi skal uppi vera at Petursmessu hvert sumar. því skal hann ok þar lýsa, at menn skuli eigi taka þá menn í byggðir til sín, er hlaupa norðan eðr sunnan, austan eðr vestan, nema þeir viti áðr skyn á, at þeir sè skilamenn. því at slíkir menn eru því vanir, at vera nokkuru líkt einn vetur eðr tvá eðr þrjá, ok hylla sik svá við menn. Síðan skiljast þeir eigi betr við en svá, at annathvárt stela þeir fè manna, eðr hlaupa burt með frændkonur manna eðr húsfreyjur. En hverr eð þessa menn tekr framar en lög lofa, þá er sá sekr mörk við konung, ef hinn prófast at illum manni.

[1]) Aðrar bæta við: innan þriggja vikna.

## 8. Um dómrof.

Alla þá dóma, sem um vígaferli skal setja, eðr um þeirra kvenna legorð, sem fyri eigu at koma full manngjöld, eðr hálf, þá dóma skal alla með lögum og griðum setja til fyrsta sals. (R. B. E. K. Þar sem maðr segir sik úr lögsögðum dómi forfallalaust, lögliga tilkrafðr af rèttaranum, sá er sekr hálfri mörk, hálft konungi, en hálft þeim er mál á, utan svá mikit vandamál sè at dæma, at þeir fái eigi yfir tekit. Þá leggi þeir þat mál heima til lögmanns, ella til alþingis). En sá maðr, sem rýfr dóm lögsamdan forfallalaust fyri sal, eðr at fyrstum sölum, þá gengr, sá á grið sín, ok er tryggðrofi, ok hefr fyrigjört fè ok friði. En þær eru nauðsynjar ok forföll þess er greiða, ef hann er sjúkr eðr sár, eðr einhverjar stórnauðsynjar beri[1] til með honum, at góðir menn beri vitni um, at hann mátti eigi til komast í eindaga. En sal þat hit fyrsta skal framkoma innan þess mánaðar, er dómrinn var dæmdur, ok flytja heim til þess er taka á, sè honum þar boðit við vátta, tvá eðr fleiri, en hann taki þá við eðr umboðsmaðr hans, utan sá vili inndælla gjöra, er taka á. En um öll önnur lagamál, þau er menn setja sín í milli lögdóma, þá sekist sá mörk við sakarábera, er þann dóm rýfr forfallaust, ok haldi þó dóm sem áðr, en 4 mörkum við konung, ok sæki sýslumaðr hvárumtveggja til handa, ok taki hinn fyrst skuld sína, slíka sem dómur dæmdi honum. En sektafè hvárs-

---

[1]) Aðrir: gangi.

tveggja sè síðan skipt eptir fjármagni þeirra í milli, ef eigi vinnst til hvárstveggja. En ef hann vill enn eigi dóm halda, þá skal sýslumaðr honum þing stefna, ok gjöra hann útlægan, nema hann gjaldi slíkt sektafè upp sem nú var talt.

## 9. Hversu langar lagastefnur skulu vera.

Hvervetna þar sem menn gjöra lagastefnur sín í milli á þingi, eðr heima til lögmanns, þá skal gjöra hálfsmánaðarstefnu, ef hann er utan hrepps en innan hèraðs. Mánaðarstefnu, ef hann er utan hèraðs en innan fjórðungs; tveggja mánaðastefnu utan fjórðungs ok innan lands. (R. B. H. K. Til Noregs skal gjöra tólf mánaða stefnu, svá at þar megi rètt af gjöra þeim málum, er lögmenn ok sýslumenn fá eigi hèr yfir tekit) Erfingi eðr umboðsmaðr lögligr skal svara málum hans, ef hann er utanlands. Nú er erfingi eðr umboðsmaðr hans skyldr at gjöra honum boð, ella þingmenn, ef ekki er erfingi eðr umboðsmaðr á þingi; því at viðrmælis er hverr maðr verðr. Á þessum tímum skal eigi til lögmanns stefna. Frá Maríumessu í föstu, ok þó hana beri allnær páskum, þá skal eigi nær eðr síðar stefna en hálfum mánuði fyri páskir ok fram um fardaga. Frá Seljumannamessu ok framan til krossmessu á haustit, ok eigi nær jólum, en stefndr megi vera fyri lögmanni 3 nætr fyri stundarsakir, ok heim kominn at jólum forfalla-

laust. Eigi skal um jól stefna[1]. En allir aðrir tímar en nú eru undan teknir, eru rèttir til lögstefnu. Hverr maðr sá er rýfr lögmanns úrskurð forfallalaust, er sekr 4 mörkum við konung. En þar sem sá maðr stefnir manni til lögmanns með rèttri lagastefnu, er lögligt mál hefr á hendi honum, eðr hans lögligr umboðsmaðr, þá sekist sá mörk við konung, er stefnt var, ef hann kemr eigi forfallalaust, eðr hans lögligr umboðsmaðr. En ef stefndr kemr, en stefnandi eigi, þá sekist hann þvílíku við konung sem hinn, er stefnt var, nema lögligr umboðsmaðr hans komi, eðr sè þar fyri í rètta lagastefnu. En sá þeirra sem þá fellst at máli, þá haldi hann allt þat sem lögmaðr hefr skilat þeirra í millum, ok gjaldi þeim kostnað, sem mál dæmist, allan hálfu aukinn, þann sem hann hafði fyri því máli, síðan lögmaðr sagði ok skildi fyrra sinn þeirra í milli. Nú skýtr nokkurr sínu máli undan lögmanni til Öxarárþings, þá rannsaki lögrèttumenn innvirðugliga þat mál. Ok þó þeim sýnist öllum sá úrskurðr, er lögmaðr hefr gjört, vera eigi lögligr, þá skulu þeir þó eigi þann úrskurð rjúfa mega. En rita skulu þeir til konungs, hvat þeim sýnist rètt í því máli, ok slíkt rannsak sem þeir hafa framast prófat þar um. Því at þann úrskurð, sem lögmaðr gjörir á, má engi maðr rjúfa, nema konungr sjái, at lögbók vátti í móti, eðr sjálfr konungr sjái, at annat sè rèttara,

[1]) Aðrar bæta við: Eigi skal löghelga daga sækja, nè þing stefna, ok engan til dauða dæma, nè til líkams vanar, nema til friðar og rèttargjörðar.

ok þó með hinna vitrustu manna ráði ok samþykki, því at hann er yfir skipaðr lögin. Nú fær maðr eigi rèttindi sín í byggðum heima, eðr fyri lögmanni, þá má sakaráberi stefna þeim manni til Öxarárþings, er hann fær eigi rètt af. En ef hann hefr til þess löglig vitni, at hann hefr honum þangat stefnt, er mál á við hann, ok þat annat, at mál hafi svá farit þeirra í milli sem þá hefr hann hermt, þá skulu þingmenn dæma þat mál at lögfullu, hvárt sem nær eru báðir, eðr sá einn sem framber, ok lögmanni ok lögrèttumönnum þykir fyri bíta, nema full nauðsyn banni þeim at koma, er stefndr var, ok komi þau gögn ok vitni þar fram. Ok svá skal vera þó at heima sè stefnt til lögmanns. (R. B. H. K. Svá má gjöra lagastefnur til sýslumanns sem til lögmanns, ok hálfu minni sekt við. Sýslumenn mega ok gjöra stundarstefnu til sín, at andsvara mönnum, þeim sem lögligt mál hafa á hendi þeim ok svá vitnum þeirra, og gjöri þeim rètt af er mishaldinn er, þó at stefndr komi eigi í rèttan stefnudag forfallalaust. Svá viljum vèr at rètt sè, at menn gjöri stundarstefnu til lögmanns, þá er hann ríðr um land at skipa málum manna, svá þó, at stefndr megi auðveldliga til koma gögnum sínum ok vitnum. — Eigi viljum vèr, at nokkurr maðr megi skjóta máli sínu undan lögmanni ok sýslumanni at tálma með því rèttindi manna, ef skynsömum mönnum sýnist, at þeir fái yfirtekit).

---

# Hèr hefr kristinndómsbálk, ok segir um kristiliga trú, ok um þá hlýðni, er menn eiga at veita konungi ok byskupi.

**1. kap.** Þat er upphaf laga várra Íslendinga, sem upphaf er allra góðra hluta: at vèr skulum hafa ok halda kristiliga trú. Vèr skulum trúa á einn guð föður allsvaldanda, skapara himins ok jarðar. Vèr skulum trúa á drottinn várn Jesúm Christum, hans einka son, er getinn er af helgum anda, ok fæddr af Maríu meyju, píndr undir Pílatus valdi, krossfestr, deyddr ok grafinn, fór niðr til helvítis, ok leysti þaðan alla sína vini. Þriðja dag eptir hann var deyddr sínum manndómi, ósködd-um sínum guðdómi, reis hann upp af dauða, ok var síðan með sínum lærisveinum 40 daga, frá páskadegi til uppstigningardags, ok steig þaðan [1] til himna [2]. Ok þaðan skal hann koma á efsta degi [3] at dæma lifendr ok dauða, hvern eptir sínum verðugleikum [4]. Vèr skulum trúa á helgan anda, at hann sè sannr guð, sem faðir ok sonr, ok þær þrjár skilningar er einn guð. Vèr skulum trúa því, er trúir öll kristin þjóð, ok heilagra manna samband, ok heilög kirkja hefr samþykkt með óbrigðiligri staðfestu. Vèr skulum trúa, at syndir fyrigefast af náð ok miskunn guðs, fyri verðskuldan Jesú Christi, en eigi fyri nein vár góðverk. Vèr skulum trúa,

1) Aðrar: þá. 2) Aðrar bæta við: upp. 3) Aðrar bæta við: þessarar veraldar. 4) verðleikum.

at hvers manns líkami[1], er í er kominn heiminn, eðr koma kann til dómsdags, skal þá upprísa, ok þaðan af skulu þeir er illa gjörðu, ok eigi iðruðust[2]. þessa heims, hafa endalausan ófagnað með fjandanum ok hans erindsrekum í helvíti. En þeir, sem gott hafa gjört þessa heims, skulu þá hafa eilífan fagnað, með guði og hans helgum mönnum í himnaríki.

## 2. Um konungs vald ok byskups.

Nú með því, at guðs miskunn sèr til þess þörf hvers dagsliga ótalligs lýðs ok ýmislegs fjölmennis, þá hefr hann skipat sínum tveimr undirmönnum ok þjónum at vera auðsýniliga hans umboðsmenn, ok halda þessa heilaga trú, ok hans heilagt lögmál, góðum mönnum til verndar ok rèttinda, en vándum mönnum til refsingar og hreinsunar. Eru þessir tveir, annarr konungr, en annarr byskup. Hefr konungr af guði veraldligt vald til veraldligra hluta, en byskup andligt vald til andligra hluta, ok á hverr at styrkja annan til rèttra mála lögliga, ok kennast við sik, at þeir hafa vald ok yfirboð af guði sjálfum, en eigi af sèr. Ok fyri því at þeir eru guðs umboðsmenn, hins ok annars, at þeirra má engan veg missa, þess hins þriðja, at sjálfr guð virðist at kalla sik þeirra nöfnum, þá er sá sannarliga í miklum háska við guð, er þá styrkir eigi með fullkominni ást ok góðvilja ok rèttvísi, til síns valds, þess sem guð hefr þeim gefit, allra helzt þar sem lögin vátta svá, með stöddum endimörkum, at hvárki mega höfðingjarnir, ef þeir

[1]) líkhamr. [2]) bæta við: með yfirbót.

geyma þeirra[1], at ámauðga eðr þrengja fólkinu með ofmikilli ágirnd, ok at eigi megi fávitrir menn synja höfðingjum rèttrar þegnskyldu fyri þrjózku sakir ok skammsýnnar óvizku

## 3. Um lýðskyldu við konung.

Nú af því at landsfólkit á mikla lýðskyldu at veita konunginum, þá væri þat þarfligt, at menn vöruðust þá miklu villuþoku, er mestur hluti Noregs fólks hefr blindat verit svá hörmuliga, at í engu landi öðru finnast dæmi til, þar sem teknir hafa verit ýmsir menn ok kallaðir konungar, rangliga í móti rèttum konungum ok lögum hins heilaga Ólafs konung, ok öllum þeim rèttindum, sem hverr bóndi vildi unna af öðrum um sínar erfðir, ok þjónuðu opt velbornir menn þeim er varla máttu vera knapar þeirra, sem enn váttar í dag, hvárt þeir misstu fleiri óðala sinna, eðr hinir sem þeir kölluðu konunga sína, ok svá hit sama um mannamissurnar. Nú at menn þurfi eigi griplandi hendi eðr leitandi eptir at fara, hverr at rèttu á konungr at vera at Noregi eptir lögum, þá sè þat kunnugt öllum Norðmönnum: at Magnús konungr son Hákonar konungs, staðfesti svá ok lèt í lögbók setja á Frostuþingi; hverr at rèttum erfðum á at vera Noregs konungr eptir lögum hins heilaga Ólafs konungs. Ok því játuðu ok samþykktu Noregsmenn fyri sik ok sitt afsprengi, við Noregs konungs ok hans afsprengi með rèttu þingtaki, at þessi skipan skal standa æfinliga, sem þá var gjör ok hèr fylgir:

---

[1]) Aðrir: þessa.

### [4. Hverr Noregs konungr vera skal.

Í nafni föður, sonar ok heilags anda, eins guðs í heilagri þrenningu, skal einn þjónn hans[1] konungr vera yfir öllu Noregs veldi innanlands ok svá skattlöndum.

Fyrsta erfð: Nú eptir fráfall konungs várs, þá er sú hin fyrsta erfð, at sá skal konungr vera yfir Noregs konungs veldi, sem konungs son er, skilgetinn, hinn elzti einn.

Sú er önnur erfð, at sá sonarson konungs, sem skilgetinn er, skal konungr vera, hinn elzti einn, sem faðir hans er skilgetinn.

Sú er hin þriðja erfð, er bróðir konungs skilgetinn, hinn elzti einn, skal konungr vera. sá sem samfæddr er við konung, ef engi er hinna til sem áðr eru taldir.

Sú er hin fjórða erfð, er föðurbróðir konungs, samfeðri ok skilgetinn, hinn elzti einn, skal konungr vera, sá sem faðir hans var skilgetinn.

Sú er hin fimmta erfð, er bróðurson konungs, skilgetinn, hinn elzti einn, skal konungr vera, sá er faðir hans var skilgetinn ok samfeðri við konung, ef engi er hinna til.

Sú er hin sjötta erfð, at bræðrungr konungs, hinn elzti einn, skal konungr vera, sá sem faðir hans var föðurbróðir konungs, samfeðri ok skilgetinn, ef engi er hinna til.

Sú er hin sjöunda erfð, at konungs son skal konungr vera, hinn elzti einn, þó at hann sè eigi skilgetinn, sá þó, at hvárki sè getinn í hórdómi

[1]) Aðrar: konungs son.

nè frændsemisspjöllum eðr sifjaspjöllum, ok konungr sjálfr hefr viðgengit faðerni hans, ok sagt sjálfr skilríkum mönnum ávæni til fyri samvistu sinnar sakir ok móðir hans; ok svari sú stund, er barnit var fætt, þeirri tiltölu sem tilhæfir, ok hefr móðirin ekki tvennt til sagt faðernis at því barni, eptir því sem lögbók váttar um slík mál.[1] þetta skulu þeir er vitu eigi leyna yfir mánuð, nema þeir óttist ofríki, þá skulu þeir þó til þessa segja einhverjum skilríkum manni eðr fleirum, svá at þeir mègi þar vitni um bera.

Sú er hin áttunda erfð, at dóttur son konungs skilgetinn, hinn elzti einn, skal konungr vera, sá sem móðir hans var skilgetin, ef engi er hinna til.

Sú er hin níunda erfð, at systur son konungs skilgetinn, hinn elzti einn, skal konungr vera, sá sem móðir hans var skilgetin, samfeðra við konung, ef engi er hinna til.

Sú er hin tíunda erfð, at sá skal konungr vera, hinn elzti einn, er næstr er eptir bræðrasyni við konung, skilgetinn, ok var faðir hans skilgetinn, ok kominn frá samfæddum bræðrum ok skilgetnum, ef engi er hinna til.

Sú er hin ellefta erfð, at sá skal konungr vera, hinn elzti einn skilgetinn, er systkyna son er við konung, ok kominn frá þeim systkynum, er bæði váru samfeðra ok skilgetin, ok af rèttri konunga ættinni komin, ef engi er hinna til sem áðr eru taldir.

Sú er hin tólfta erfð, at sá skal konungr vera, hinn elzti einn, er skilgetinn er systrungr við konung, ok mæðr þeirra váru samfeðra ok skilgetnar, ok af rèttri konunga ættinni komnar, ef engi er hinna til.

Nú ef engi er þessara til, sem áðr eru taldir, þá skal sá konungr vera yfir Noregi, hinn elzti einn, er erfðum er þá næstr, eptir því sem landslagabók váttar í almennilegu erfðatali, karl en eigi kona, ok þó af rèttri konunga ættinni kominn.

## 5. Um konungs kosning.

Nú ef svá þungliga kann at berast, at engi er þessara til, þá sè sjálfstefnt hertoga, ef hann er til, eðr jarli, byskupum öllum ok ábótum, barúnum öllum ok hirðstjórum með hirð allri at sækja norðr til Niðaróss[1] til umráða við erkibyskup. Ok nefni hverr byskup úr sínu byskupsdæmi ok sýslumenn konungs, þar sem þeir eru, 12 hina vitrustu menn með sèr eptir sinni samvizku, ok sè á för innan þess mánaðar, er þeir spyrja fráfall konungs, Svá skal ok hverr byskup ok sýslumaðr skipa til hegningar at gæta lands með bændum fyri þjófum ok illþýði, svá marga af barúnum ok sýslumönnum í hverjum lögum, sem þeir sjá at bezt hæfir. Skulu þeir eð eptir sitja jafnheimilir til gæzlu, svá yfir öðrum sýslum sem sjálfra sinna, ella eru þeir sannir landráðamenn, ef eigi heldr landit friði sínum fyri þeirra vangæzlu. En í þann tíma, sem þeir eru norðr komnir, er til þess eru nefndir, þá gangi ólærðir menn með svörnum eiði til þess umdæmis, at þeir skulu þann til konungs taka, er þeim sýnist fyri guði at bezt sè tilfallinn. En þenna eið skulu jafnvel byskupar ábyrgjast við guð, þó at þeir sveri eigi sem hinir er eið vinna, at þeir leggi

[1]) Aðrar bæta við: til hins helga Ólafs konungs.

sanninda umræðu til þessa máls, svá sem guð gefr þeim vit til rèttiligast fyri at sjá. En ef þá skilr á, þá skulu þeir ráða sem fleiri eru saman ok skilríkari, ok erkibyskup ok aðrir byskupar fylgja, ok sanna þat með eiðum sínum. Nú ef nokkurr lætr sik öðruvis til konungs taka en nú var mælt, þá hafi hann fyrigjört fè ok friði, landi og lausum eyri, ok sè í banni ok forboði allra heilagra manna, ok sè eigi at kirkju græfr, ok svá hverr er honum fylgir til þess. Nú ef hirðstjórar eðr hirðmenn fyrinæmast þessa ferð, þá eru þeir landráðamenn við konung, nema full nauðsyn banni. En hverr bóndi er fyrinæmist þessa ferð, þá er hann sekr 8 örtugum ok þrettán mörkum silfrs við konung, en konungr meti nauðsynjar með beztu manna ráði. En þessa ferð fari hverr á sinn kostnað, en konungr inni þeim fyri kostnað sinn, sem eigi hafa áðr konungs fè.

## 6. Um erfðir konungs frænda.

En ef dóttir eða sonardóttir, systir eða móðir, eðr þær konur aðrar, sem standa í erfðatali í landslagabók, svá þeir karlmenn sem í erfðatali standa, ok eigi eru af konunga ættinni komnir, ok eru þeir eðr þær nær meir at skyldu til annars arfs en konungdómsins, eptir því sem almenniligt erfðatal váttar, þá skal eptir því hverr til ganga, sem honum vátta lög í almenniligu erfðatali. Ok at því ljósara verði, þá mega þeir þetta fyrst erfa: Eignir þær allar, er konungr erfir eptir aðra frændr sína, ok þær sem hann kaupir með lausafè, þær þó, at hann seli

ekki konungdómsins jarðir til, eðr skipti þeim í hinar. Svá skulu þau ok erfa lausafè, ok gripi þá eigi heyra krónunni til, nema konungr hafi aðra skipan á gjört fyri skilríkum mönnum, með vitnum ok jarðteiknum sèr til sáluhjálpar eðr sæmdar, eðr síþum hollustumönnum með góðra manna tillögu. Ok er þat höfuð ráð, at hverr búi vel fyri sèr sjálfr um sína lífdaga, heldr heill en sjúkr, því at váskeytt er annars vinátta ok eptirgjörð þó allskylt sè um [1].

## 7. Um konungs eið.

En at konnngr viti sik því heldr skyldugan við þegna sína lög at halda, ok um at bæta, þá skal hann þessu játa fólkinu með fullri staðfestu eptir þat er hann er til konungs tekinn: „Þat játa ek guði ok hans helgum mönnum, ok því hans fólki, sem ek er óverðugr yfirskipaðr, at ek skal þau kristin lög halda, sem hinn heilagi Ólafr konungr hóf, ok aðrir hans rèttir eptirkomendr hafa nú samþykkt millum konungs ok þeirra, sem landit byggja með hvárratveggju samþykki, ok með góðra manna ráði umbæta, eptir því viti sem guð lèr mèr“. Er konungr eigi at eins skyldr lög at halda við þá þegna sína, sem þá eru á þingi hjá honum, heldr við alla þá, sem í hans þegnskyldu eru, alna ok óborna. En þann tíma sem hann verðr kórónaðr, þá skal hann sverja mönnum lög ok rèttindi, með þeim eiðstaf, sem konungsvígslu fylgir.

[1]) Aðrar bæta við: Finnast ok fleiri dæmi til þess, at erfingjar hafa heldr af dregit en viðraukit skipan þeirra, er áttu ok fengu optliga með hollri þjónustu ok lífsháska, eðr miklu erfiði ok mannraunum.

## 8. Um eið hertoga ok jarls.

En hertogi eðr jarl, ef þeir eru til, skulu þenna eið sverja á því þingi er konungi er konungsnafn gefit: „þess legg ek hönd á helga dóma, ok því skýt ek til guðs, at ek skal vera hollr ok trúr mínum herra N. Noregskonungi, bæði leyniliga ok opinberliga, ok þat lèn, sem konungr veitir mèr, skal ek trúliga halda með þeirri hlýðni ok eptirlæti, sem Magnús konungr, son Hákonar konungs skipaði milli konungs ok hertoga eðr jarls. Veita skal ek honum alla þá hlýðni, sem góðum hertoga eðr jarli ber góðum konungi. Styrkja skal ek hann ok hans ríki bæði með heilum ráðum ok öllum mínum styrk. Halda skal ek ok eiða þá alla, sem konungr hefr játað öllu landsfólki, eptir því viti sem guð lèr mèr. Guð sè mèr svá hollr sem ek satt segi, gramr ef ek lýg“.

## 9. Um lendra manna ok hirðstjóra eið.

Nú skulu lendir menn ok hirðstjórar þenna eið sverja: „þess legg ek hönd á helga dóma, ok því skýt ek til guðs, at ek skal vera hollr ok trúr mínum herra Noregskonungi bæði leyniliga ok opinberliga; styrkja skal ek hann ok hans ríki, bæði með heilum ráðum ok öllum styrk mínum. Halda skal ek eiða þá alla, sem konungr hefr játað öllu landsfólki, eptir því viti ok skynsemd, sem guð gefr mèr. Guð sè mèr hollr, ef ek satt segi, gramr ef eg lýg“.

## 10. Um lögmanna eið.

Nú skulu lögmenn sverja þenna eið þann tíma er konungr vill: „Til þess legg ek hönd á helga bók, ok því skýt ek til guðs, at ek skal vera hollr ok trúr mínum herra N. Noregskonungi; þau lög skal ek segja þeim mönnum, sem minn herra skipar í mína lögsögn, sem hinn heilagi Ólafr konungr hóf, ok aðrir hans rèttir eptirkomendr hafa samþykkt við þá er landit byggja. En hvervetna þar sem lögbók sker eigi skilríkliga úr, þá skal ek eptir því hvers manns mál dæma, sem ek vil andsvara fyri guði á dómadegi, at rèttiligast sè eptir minni samvizku, ok þó með þeirra vitrustu manna ráði ok samþykki sem þá eru hjá mèr, svá um ríkan sem um fátækan, ungan sem um gamlan, sakaðan sem um sifjaðan, skyldan sem um óskyldan. Svá sè mèr guð hollr sem ek satt segi, gramr ef ek lýg“.

## 11. Um bónda eiðstaf.

En at bændr ok alþýða viti sik því skyldari til hollustu ok þegnskyldu ok hlýðni við konung, þá skulu þeir þenna eið sverja konugi, svá margir menn af hverju fylki sem honum líkar: „Til þess legg ek hönd á helga dóma, ok því skýt ek til guðs, at ek skal vera hollr ok trúr mínum herra N. Noregskonungi, bæði opinberliga ok leyniliga, með öllum mínum mátt ok megni, svá sem góðr þegn skal góðum konungi. Veita skal ek honum alla lögliga þjónustu, ok rètta þegnskyldu eptir lögum ok þeim hlunnindum, sem hinn heilagi

Ólafr konungr skipaði milli konungs ok bænda[1], ok þeirra manna er landit byggja með hvárratveggja samþykki. Svá sè mèr guð hollr, sem ek satt segi, gramr ef ek lýg. Ábyrgi ek mèr þenna eið ok öllum þeim, sem í Noregskonungs ríki eru, ölnum ok óbornum, ok konungs eiðs eiga at njóta". Eru eigi at eins þeir skyldir at ábyrgjast þenna eið, er sverja, heldr allir þeir, sem í konungs þegnskyldu eru, alnir ok óbornir. Svá eru ok allir menn í landinu skyldir til trúleika við konung sinn, þó at eigi sveri honum allir trúnaðareið á þingi; því at Noregskonungr er jafnskyldr at fylgja þeim til rèttra mála sem heima eru, sem þeim, er þá eru hjá honum á þingi, er hann trúlofar eðr sver lög ok rèttindi at halda ok dæma þegnum sínum. Þat viti ok allir menn, at þat barn, sem fætt er á síðasta degi eðr ári konungs æfi[2], at konungr er jafnskyldur því rètt at gjöra, sem þeim er hann sór eiða á fyrsta þingi. Svá eru honum allir skyldugir til allrar lögligrar þegnskyldu, þeir sem laga vilja njóta, ok þeirra vilja vérðir vera. En konungr ok byskupar, lærðir menn ok barúnar, ok alþýða með þeim, skal fylgja hinum heilaga krossi ok helgum dómum aptr til kirkju. Síðan skal konungr ganga til altaris ok taka þar blessun, ok gangi síðan til herbergis, ok fylgi honum allir hinir beztu menn].

[1]) Aðrar bæta við: ok aðrir hans rèttir eptirkomendr hafa nú samþykkt. [2]) Aðrar: síðasta vetri konungs æfi.

# Hèr hefr annan hlut lögbókar, ok segir um þegnskyldu við konung, ok skattgjald.

**1. kap.** Í nafni várs herra Jesú Christi, þess sem vár er vernd ok varðveizla, líf ok heilsa, skulum vèr konungi várum, eðr hans lögligum umboðsmanni, eigi synja slíkrar þegnskyldu, sem vèr höfum honum játað: at hverr sá bóndi er skyldr at gjalda skatt ok þingfárarkaup, er hann á fyri sjálfan sik ok hvert skuldahjón sitt, kú eðr kúgildi, skip eðr nót, ok skal hann eiga um fram eik, uxa eðr hross, ok alla búsbúhluti, sem þat bú má eigi þarfnast. En skylduhjú hans eru þeir menn allir, sem hann á at skyldu fram at fæera, ok þeir verkamenn, sem þar þurfa at skyldu fyri at vinna. En þetta eru alls 20 álnir, af hverjum bónda. Skal konungr taka 10 álnir, en aðrar 10 álnir sá sem kongr skipar sýslu, með slíkri afgreiðslu, sem lögbók váttar, af þeim 10 álnum, sem þingfararkaup heitir. (R. B. H. K. Svá skal ok hverr maðr gjalda skatt einhleypr, karl eðr kona, þó at hann sè búlaus, ef hann á 10 hundruð fyri sjálfan sik skuldlaust ok hundrað fyri hvern ómaga sinn, ok eitt hundrað um fram). En eigi skal meira gjaldast en einar 20 álnir, þar sem bóndi eðr húsfreyja andast frá, ok halda feðgin, systkyn eðr mæðgin, eðr aðrir arfar, saman þeim búnaði, hvárt sem er meiri eðr minni. En sá sem í burt fer með sinn hlut, gjaldi sem fyr váttar. En hverr sem þetta geldr

eigi forfallalaust, áðr menn ríða til þings, sekr 6 aurum við konung. Skal þetta fè greiðast í vaðmálum, ok í allri skinna vöru, í ullu ok húðum, ok gjaldi þar sem hann hefr heimili átt fyri næstu fardaga, þó at hann færi heimili sitt á annan stað. (R. B. E. K. Sá skal skatt gjalda, sem búnað reisir, en eigi sá er bregðr búi, ef hann hefr minna fè en 10 hundruð, skuldlaust ok ómagalaust).

## 2. Á hverjum tímum sýslu skal reka.

Svá er tekit, at sýslumaðr skal eigi fjölmennari reka sýslu sína en við hinn tíunda mann. Á þessum tímum skal eigi sýslu reka hèr á landi. Frá alþingi ok til Maríumessu síðari, frá Marteinsmessu ok til Hallvarðsmessu, ok fara mánuð um Austfirðinga fjórðung, frá Hallvarðsmessu til þings framan, ok mánuð milli síðari Maríumessu ok Marteinsmessu, ok svá í öðrum fjórðungum á þessum tímum, þá eð sýslumaðr vill um sinn, á hverjum 12 mánuðum, nema bændr sjálfir beiðist, eðr nauðsynjar beri til at þingat sè optarr; ok skal reka sýslu mánað síðan hann kemur í Norðlendinga fjórðung, ok mánað um Sunnlendinga fjórðung, 6 vikur um Vestfirðinga fjórðung, síðan hann kemr í sýslu sína eptir rèttri tiltölu, þó at fleiri sèu sýslumenn í hverjum fjórðungi en einn. Eigi skulu sóknarmenn sýslumanna fleiri en fjórir í fjórðungi, en tveir þar sem sýslumaðr sitr í fjórðungi. (R. B. H. K. Þat er fyriboðit, at þeir sèu lènsmenn, sem eigi eru fullveðja aptr at bæta þat sem þeir taka órèttiliga, utan bændr samþykki annat).

## 8. Um rètt útlendra manna.

Ef útlendir menn vanvirða menn ok skamma, eðr frændkonur manna, ok með hverju móti er várir landsmenn eiga síns rèttar at krefja af útlendum mönnum, þá er vel, ef þeir sættast sjálfir sín í milli, ella kæri sá sik fyri sýslumanni, sem missaldinn er. (R. B. H. K. En hann gjöri rètt af hinum útlenda manni, er brotlegr varð, fyri Ólafsmessu fyrri. Svá sè hinum útlendu mönnum rètt gjört, ef þeim er rangt gjört. En ef sýslumaðr afrækist rètt at gjöra þeim, sem vanhaldinn er, þá svari hann sektinni), ok dæmi lögmaðr ok skynsamir menn með honum þeirra í milli, ok slíkt sem dæmist, taki sá af þingfararkaupum nær sèr, slíkt sem sýslumaðr á frjálst, þar til er hann hefr sitt fullt. En sýslumaðr heimti sitt af hinum eðr missi ella. En stýrimaðr sá, er þá flytur burt í forboði, sekist fjórum mörkum við konung, hvárt sem veldr einn eðr fleiri, ok takist í Noregi sú sekt konungi til handa, með því at sýslumaðr hèr vildi eigi rètt af gjöra. (R. B. H. K. Þat er ok fullkomliga fyriboðit, at stýrimenn eðr landsmenn taki aðrir hvárir samheldi með sèr með fèsektum, at kaupa eðr selja dýrra varning sinn, en svá sem kaupi eðr sali semja sín í milli. En sá er at slíku verðr vitaisfastr svari slíkri sekt konungdóminum fyri hvern sem hann setti viðrlögu á einhvern. (R. B. E. K. Stefnu skal leggja við skip fyri heyannir ok eptir til kaupa við kaupmenn, ok seli þar hönd hendi. Um skuldir kaupmanna: sekist hálfri mörk fyri hundrað hvert, þar sem eigi er goldit at Ólafs-

messu hinni fyrri forfallalaust, hálft konungi en hálft þeim er skuld á).

# Hèr hefr mannhelgi, hinn þriðja hlut lögbókar.

## 1. Um þegngildi og bætur.

Þat er fyrst í mannhelgi várri, at várr landi hverr í Noregs konungs ríki skal friðheilagr vera við annan utan lands ok innan. En ef maðr vegr mann, hvárt sem karlmaðr drepr konu, eðr kona karlmann, þá fari sá útlægr, en konungr taki þegngildi 13 merkr af fè eðr eignum vegandans, nema hann vegi skemmdarvíg eðr gjöri níðíngsverk. Ef eign er í þegngildi greidd, þá skulu árfar veganda lausn á eiga, ef þeir vilja leyst hafa innan 10 vetra, en erfingi skal taka fè hins útlæga til varðveizlu. Ok af fè veganda dæmi 12 skynsamir menn lögliga tilnefndir af rèttaranum slík gjöld, eptir lagaskilorði, sem þeir sjá rèttiligast fyri guði eptir atvikum, ok málavextir eru til, erfingja hins dauða einum. En allar aðrar frændbætr ok saktal falli niðr, svá at hvárkis frændr aðrir taki nè gjaldi framar en nú var mælt. (R. B. E. K. Bóndi á vígsbætr hálfar eptir húsfreyju sína). Nú ef eigi vinnst fè veganda bæði til þegngildis ok bóta, þá skal svá skerða fyri hverjum sem tala rennr til, eptir fjármagni. En ef nokkurr gengr á þetta, þá hefr hann fyrigjört fè ok friði, landi ok lausum eyri, ok verði aldri bótamaðr síðan, ok svá allir

þeir sem ráð leggja með honum til þess, at sú skipan sè rofin, eðr á hana gengit. Aldri skal erfingi selja þær eignir, er hann tók eptir hinn útlæga, meðan útlæginn lifir, en gjalda skal hann allar lögligar skuldir af eignum, ef eigi er lausafè til. Nú kann sá einhverr atburðr til at gjörast, at konungr gefr mannsbana landsvist, með bænastað höfðingja eðr annara góðra manna, eðr kemst hann á konungsfund ok fær grið af honum, þá skal hann sik svá í frið kaupa við konung sem hans er miskunn til, ok bæti þat sem eptir stendr, sem góðir menn sjá at hann megi orka. Ok með slíkum salastefnum, sem hann fær undir staðit, nema áðr sè bætr allar goldnar. Síðan skal þeirra mál fara til sætta sem eptir lifa eptir góðra manna dómi. En þeir sem fè hans varðveittu, meðan hann var í útlegð, greiði honum slíkt sem þeir tóku í eignum ok lausafè, utan landskuldir.

## 9. Um skemmdarvíg ok níðingsverk.

Engi maðr má jörðu sinni fyrigjöra, nema hann vegi skemmdarvíg eðr gjöri níðingsverk. Þat er níðingsverk hit mesta, ef maðr ræðr lönd eðr þegna undan konungi sínum. Ef konungr kennir manni landráð, þá skal hann nefna mann ór hirð sinni til, jafnborinn þeim er máli á at svara. En ef arfborinn maðr á því máli at svara, þá skal nefna bóndason ór hirð, ef hann er til, ok hafi rit ok innsigli konungs til, ok sæki þat mál at lögum. En sá er arfborinn, er kominn er til alls rèttar. Þat er ok níðingsverk, ef maðr vegr mann í griðum eðr

tryggðamann sinn. Hvervetna þar sem maðr á á sjálfum sèr áverka at heimta eðr þeim ómaga eðr fulltíðamanni, er maðr á umboð á at lögum, eðr stendr til arfs, ok allra þeirra manna, er hann á sjálfr rètt á at lögum, eðr hefr hann til þess lögligt umboð tekit, þá skal sá sjálfr grið selja, ok veita tryggð með sátt ok vátttum. Eru allir frændr undir þeim griðum ok tryggðum sem sjálfr veitti hvárn. Þat er ok níðingsverk, ef maðr vegr lögmann fyri rètta lögsögn, þann er til þess èr skipaðr at segja mönnum lög, því at sá höggr niðr rèttindi manna, þar sem hann á jafnskyldr at vera ríkum sem fátækum til lagaúrskurðar, þar sem hann er yfir skipaðr. Þat er ok níðingsverk, ef maðr myrðir mann. Þat er ok níðingverk, ef maðr brennir mann inni. Þat er ok níðingsverk, ef maðr hefnir þjófa. Þat er ok níðingsverk, ef maðr höggr hönd eðr fót af manni, eðr stingr út augu manns, eðr sker tungu úr höfði manni, eðr geldir mann, eðr meiðir mann at vilja sínum sjálfs. Svá eru þeir ok óbótamenn, er halda mönnum fyri þessu einhverju, sem sá er gjörir, nema konungr láti refsa til landhreinsunar. En ef þat verðr í vápnaviðskiptum, þá fari eptir því sem konungs umboðsmaðr skipar með beztu manna ráði. En ef maðr drepr föðr sinn eðr son, bróður eðr móður, dóttur eðr systur, þá er hann óbótamaðr, nema ótts manns víg vegi. Svá ok ef maðr drepr konu sína, eðr kona bónda sinn, þat er óbótamál. Þat er ok óbótamál, ef maðr vegr mann innan stokks, eðr á töðuvelli úti, eðr innan garðs, þess er hverfr um akr eðr eng, at

heimili sjálfs hans, ok á veg til ok frá, nema hann veri hendr sínar. Svá ok þeir menn, er at slíkum óknyttum verða kenndir, at þeir hlaupa burt með eiginkonur [1] manna, þá eru þeir óbótamenn, bæði fyri konungi ok karli dræpir ok deyðandi. Menn þeir, sem láta líf sitt fyri útilegu, þýfsku eðr rán, hvárt sem heldr ræna þeir á skipum eðr landi, svá ok fyri morð ok fordæðu ok forneskjuskap ok spáfarir allar ok útisetur at vekja tröll upp eðr fremja heiðni. Svá ok þeir menn, sem gjörast flugumenn, til at drepa þá menn, er þeir eiga engar sakir við, ok taka fè til, nema konungr láti refsa til landhreinsunar ok friðar. Svá ok þeir menn, er konur taka nauðugar með ráni eðr herfangi, í móti guðs rètti ok manna, hvárt er þeir taka eiginkonur manna eðr frændkonur eðr dætr, ok fyri utan vilja þeirra manna, er forræði eigu á þeim at lögum, ok svá sjálfra þeirra, hversu sem síðan gjörist vili þeirra, er samvista þeirra verðr. Ok svá þeir, sem hefna þessara óbótamanna, eðr heimta gjöld fyri, svá at vitni vita þat, þá hafa þeir fyrigjört fè ok friði, landi ok lausum eyri. Ok eru þeir allir friðhelgir, er fè sitt verja eðr eiginkonur fyri þeim, en hinir allir ógildir er til sækja, hvárt heldr þeir fá sár eðr bana, bæði fyri konungi ok karli. Þat er ok óbótamál, ef maðr falsar brèf eðr innsigli konungs, eðr steðja konungs í Noregi. Þat er ok óbótamál, ef maðr drepr þann mann, er hann hefr fyri sèr brèf ok innsigli konungs til landsvistar, eðr til rannsaks, ef sá vissi þat er

[1]) Aðrar bæta við: eðr frændkonur.

hann tók af. Þat er ok óbótamál, ef maðr tekr konu nauðuga. ef þar eru tvö lögligvitni til, at þat er satt. Nú eru eigi vitni til, en hún segist nauðug verit hafa, ok segir hún þat samdægris, þá dæmi 12 hinir skynsömustu menn eptir því sem þeim þykir líkindi til bera, ok hvárt þeirra þeim þykir líkligra til sanninda. En þó at kona geti varit sik fyri góðkvennsku sakir, svá at hann komi eigi vilja sínum fram, þá ber með engu móti, at hann hafi eigi refsing fyri eptir dómi, ef sannprófast, at hann hefr fullan vilja til þess borit, ok haldi þó lífinu. Ef maðr stendr mann á konu sinni með lögligum vitnum, gjaldi sá full manngjöld bóndanum, slík sem hann er maðr til, er konu lá, ef hann væri þá saklaus drepinn. En hálf manngjöld, ef maðr stendr mann á móður sinni, dóttur eðr systur, ef þær eigu sèr eigi bændr. Skulu þessi gjöld dæma 12 skynsamir menn lögliga til nefndir af rèttaranum.

## 3. Um ránsmenn.

Nú ræna menn eðr herja, þá eru allir menn skyldir til eptir þeim at fara, þeir sem megu, nema fjórmenningr at frændsemi eðr mægðum, þeir sem sýslumaðr krefr til, eðr sá er fyri ráni eðr hernaði verðr, hvárt sem þeir hlaupa í hella eðr hólma, eðr virki, eðr eru á skipi, ok hvar sem þeir hafa hæli, er hernað gjörðu. Sekr er hverr 6 aurum við konung sá er eigi fer lögliga til krafðr. Þat er hernaðr, er þeir taka menn, eðr fè manna af þeim nauðgum, berja menn, eðr binda, eðr særa. Nú róa menn skipi skipuðu at bónda, eðr gengr flokkr

manna at garði hans, ok bera hann ofríki, eðr brjóta hús bónda, ok bera út fè hans, þá er þat útlegðarverk. En hverr sá í landi vill vera af þeim, færi aptr fè bónda allt þat, er þeir tóku, ok gjaldi konungi 10 merkr, en þeim fullrètti, er fyri ráni eðr hernaði varð, eptir 12 manna dómi, eðr fari útlægr.

## 4. Um vægð á óbótamálum.

Nú hvervetna eptir norrænum lögum þeim sem skipaði hinn heilagi Ólafr konungr, ok hans rèttir eptirkomendr hafa síðan samþykkt, at þar sem maðr vegr skemmdarvíg eðr gjörir níðingsverk, þá fari hann útlægr ok óheilagr, ok hafi fyrigjört fè ok friði, landi ok lausum eyri, ok jafnvel óðalsjörðum, ok komi aldri í land aptr, nema hann beri hersögu sanna, þá sem landsmenn vitu eigi áðr, þá nái hann landsvist með slíku friðkaupi ok miskunn, sem konungr leggr á. En fyri sakir fátæktar landsins, ok hins annars, at mjög váttar svá forn lögbók hèr, at fátækir frændr útlagans eignist allt þat hálft, er hann átti, þá gjörum vèr þá vægð ok skipun á um aldr ok æfi um öll óbótamál, utan landráð ok drottinssvik við konung fari eptir því sem lögbók váttar, at lögligr erfingi taki hálft við konung bæði í föstu ok lausu, at þeir hjálpi því framar ok betr af því fè lögligum ómögum ok fátækum frændum útlagans, þótt hèr til hafi þess eigi með lögum geymt verit. Ok þó með því móti, at ef nokkurr fellr í slík óbótaverk, sem guð láti engan henda, þá skal fyrst bætr af lúka. En ef minna hleypr af en þegngildi, þá skerði svá fyri hvárum

sem tala rennr til eptir fjármagni. En hvárki skal konungr eðr erfingi fyr taka fè mannsbana, ok engan annan útlægan eyri, áðr sè guldnar allar lögligar skuldir, þær sem fyr váru gjörvar en fè eiganda fèll í þá sök. Ef maðr týnir sèr sjálfr, þá taki erfingi hálft fè hans með því skilyrði sem váttar um önnur óbótamál, en hálft standi í umsjá konungs umboðsmanns til slíkrar miskunnar sem konungr vill á gjöra eptir atvikum. Engi maðr má meira fè fyrigjöra at einu sinni, en því, sem þá er hann eigandi at orðinn. En ef manni tæmist arfr á meðan hann er í útlegð, þá skulu frændr hans þann arf taka. En ef konungr gefr honum landsvist, þá skulu frændr hans hónum þat allt aptr gjalda með fyrra skilorði, sem þeir tóku, ok hann átti þá er hann fèll í útlegð. En eigi eru frændr skyldir aptr at gjalda þat, er hann átti eðr erfði, ok hann gjörði undan sèr með skemmdarvígum eðr níðingsverkum, nema síðan hafi með erfðum undir hann borit.

## 5. Ef nokkurr selr mann af landi burt.

Ef maðr selr frjálsan mann af landi burt, þá er hann sekr 13 mörkum við konung, ok komi manninum í land aptr, ok bæti honum eptir lögligum 12 manna dómi, rètti slíkum sem hann er maðr til. En ef hann má hónum eigi aptr koma, gjaldi þann mann fullum gjöldum, slíkum sem hann er maðr til, en ef hann synjar, haldi fyri sèttareiði.

## 6. Um hýsing útlægs manns.

Ef maðr heimir eðr hýsir útlægan mann, etr með honum eðr drekkr, bóndi eðr einhverr annara manna, þá er sá sekr mörk við konung fyrir eina nótt, en tveimr fyri tvær nætr. En ef hann er þrjár nætr meðr honum, ok er hann gjör innan þess héraðs útlægr, þá er hann sekr 13 mörkum við konung, nema honum sè óvísa vargr, er hýsir. Aldri skal þess sök meiri er hýsir, en hins sök var, þá hann var útlægr gjör. En sýslumaðr er skyldr at lýsa útlegð hans samdægris á þingi, er hann veit, at hann hefr útlegðarverk unnit.

## 7. Ef maðr verðr særðr á þingi.

Ef maðr er höggvinn, eðr lostinn, eðr særðr á þingi eðr samkundu, þá skulu allir menn eptir renna þeim er víg vakti til skógs eðr skips, fjalls eðr fjöru. En sá er eigi rennr eptir, sekist hálfri mörk við konung, ok sá er eptir rennr, ok eigi vill taka hann, ok má hann, ok eru til þess löglig vitni. En ef eigi eru vitni til syni með eins eiði. Fjórmenningar, eður nánari at frændsemi eðr mægðum, eru eigi skyldir eptir at rènna, nema vili. En hverr sem björg veitir vegandа, þá er hann útlægur, nema honum sè óvísa vargur, ok sveri fyri eins eiði. En ef maðr er særðr á þingi eðr samkundu, ok renna allir eptir til fjalls eðr fjöru, skógs eðr skips, þeim er víg vakti, ok verðr hann fundinn, ok ef hann vill at lögum verjast, þá leggi hann niðr vopn sín, ok er hann þá friðheilagr meðan hinn sári lifir. Binda skal þann mann ok færa sýslumanni, en hann

á at varðveita hann, ok svá umboðsmaðr hans, ef honum er færðr. En ef sýslumaðr þarf liðs við at gæta hans, þá skal hann nefna svá marga bændr til með sèr, sem hann þarf, þá sem næstir eru. En ef hann kemst í burt frá sýslumanni, ok verðr hinn sári dauðr, þá er sýslumaðr sjálfr í veði til konungs úrskurðar, ok skipi hann eptir málavöxtum með hinna beztu manna ráði, þeirra sem hann kallar til með sèr. En ef sýslumaður synjar honum viðtöku, þá skulu þeir hafa vitni við, ok setja hann bundinn á flet hans, þá varðar honum slíkt hit sama, nema ofríki taki af honum. En hvervetna þar sem sýslumaðr tekr útlegðarfè, þá skal hann fá mann til at refsa þeim manni eptir dómi þingmanna. Eru bændr hvervetna skyldir at fylgja til refsingar; sekr er hverr hálfri mörk við konung, er eigi vill fylgja

## 8. Um óðs manns verk.

Ef óðr maðr brýzt úr böndum ok verðr mannsbani, þá skal bæta af fè hans fullum bótum, ef til er. En ef fè er eigi til, ok verðr hinn óði heill, þá fari hann úrlendis, þar til hann hefr fullum bótum bætt fyri sik. En ef menn sjá æði á manni, þá bindi hann at ósekju hverr eð vill, ok hafi til þings, ok bjóði frændum síðan, leysi hann þar, ok segi af sína ábyrgð, ok taki kostnað sinn óaukinn af fè hins óða, ef til er. En öllum mönnum óðum eigu menn vörð at veita at ósekju. En óður maður er ómagi arfa síns, ok þó eigi fyr en hann veit, at hann er óðr, ok hann má koma höptum á hann, ef hann vill. En ef sakaráberi

kennir arfa hins óða, at hann vill eigi varðveita hann, haldi fyri eins eiði. En ef óðr maðr særir mann, þá láti arfi uppi læknisfè ok sárabætr af fè hins óða, en ekki á konungr á því. Nú er þat því at eins óðs manns verk, ef hann brýzt úr böndum, eðr skynsamir menn meta eðr vita sanna æði á honum.

## 9. Hverr vera skal mannsbani.

Sá skal vera mannsbani, er návistarmenn bera vitni um, ok þeir segja á hendr, ok eigi eiðum fyri koma, nema því at eins, at hann hafi svá fjærri staddr verit á því dægri, er víg var vegit, at hann mátti eigi samdægris tvívegis til vígs fara ok frá, ok væri hann staddr at kirkju eðr á þingi, skipi eðr samkundu, þá beri þeir 12 þegnar hann undan, er þá váru í hjá honum, frjálsir menn ok fulltíða. En ef hann er í engum þessum stað staddr, ok þó svá fjærri, sem nú var mælt, þá færist hann undan með tylftareiði. En ef návistarmenn mega eigi til þings fara at bera vitni hèr um fyri einhverra nauðsynja sakir, þá skulu tveir menn bóka sögu þeirra á þingi. En ef maðr er særðr, ok má hann mæla, þá er menn koma at honum, þá skal sá vera bani hans, er hann segir þat verk fyrst á hendr, ef hann mælir af viti, ok má hann kenna hann, ok kemr saga hans bókuð fram á fyrsta þingi, nema hinn færi sik undan með lögligum tylftareiði.

## 10. Um víglýsing.

Ef maðr er af tekinn, þá skal sá vera mannsbani, er vígi lýsir á hendr sèr. En lýst skal vígi sam-

dægris innan hèraðs, ok nefna sik á nafn ok náttstað sinn, ok hèrað þat er hann er úr, ok lýsi fyri frjálsum manni ok fulltíða, ok skal á örvarþingi fram koma um náttstað hans. Ok svá skal húsbóndi sverja, at hann nefndi sik svá á nafn, ok at hann var at hans um náttina. Víglýsing skal ok þar fram koma á þingi. En ef maðr vill eigi bera víglýsingarvitni, eðr sverja náttstað, þá fari til erfingi hins vegna, ok gjöri þeim fimmtarstefnu til þings, at bera þat vitni sem framast veit hann í því máli eptir lögum ok sinni samvizku, ok engu leynir hann af. En ef hann vill þá eigi vitni bera, gjaldi mörk hálfa honungi, en hálfa þeim er sækir. Ok svá skal um öll vitni vera. Upplykt fjár þessa skal greidd vera á fimmtarþingi, eðr atför at taka hálfu meira. Eigi skal vegandi ganga um 3 bæi, svá at eigi sè vígi lyst, frá þeim er víg var vegit, nema þar sè fyri fjórmenningr eðr nánari at frændsemi eðr mægðum hins vegna, eðr fjandmenn veganda búi þar fyri, þeir er honum liggi lífsháski við. En ef hann lýsir eigi svá vígi, þá er hann sannr morðingi, ok hefr fyrigjört fè og friði. En ef bæði kemr fram á fyrsta þingi víglýsing ok saga hins sára, svá borin sem nú var skilt, þá skal saga hins sára standa, en eigi víglýsing, ok ber þá morð af veganda, þó at hann sè útlægr. En ef eigi kemr fram saga hins sára á fyrsta þingi, ok kemr fram sjónarvitni ok víglýsingarvitni, þá skal sjónarvitni standa, ef þat bera tveir menn frjálsir ok fulltíða þar á þinginu, en eigi víglýsing. En erfingi hins dauða skal fara í þat hèrað, er sá maðr lèzt úr

vera, ok ef hann hittir þann mann, er svá heitir, ok honum þykir líkastr til vera þessa verks, ok ef hann gengr í gegn[1], þá skal hann honum til þings stefna, ok á því þingi skulu 12 menn frjálsir ok fulltíða af honum bera þat verk, ok eigi nefndarvitni, ok færi þar fram á þinginu. En ef hann vill eigi undan færast, þá er hann sannr at máli. En ef hann hefr undan færst, þá fari erfingi hins dauða, ok sæki svá marga menn sem hann vill, þá er hjá váru, til tylftareiða, með hinu fyrra skilorði. En ef maðr er lostinn eðr særðr, svá at hann má eigi mæla, þá skeri hann örfar upp, þegar hann má mæla, ok skal þat örvarþing þá jafnfullt sem þat er samdægris eru örvar upp skornar. En ef hann verðr dauðr, þá skeri erfingjar örvar upp, ok láti þing stefna, en sýslmaðr, ef erfingi er eigi nær.

## 11. Um banaráð.

Ef maðr færir frjálsan mann í sker eðr útoyjar, ok hvar sem hann kemr honum svá, at hann vill hann fái bana af, eðr ræðr manni banaráð eðr sára, ok allt þat hinn fær skömm af eðr vanvirðing af hans ráðum; en þat eru ráð, ef maðr mælir þeim orðum, eðr gjörir þat nokkut, at hinn sè lífi sínu at firr, eðr nokkri skömm at nær, ef þat væri gjört, er hann mælir, svá at hann vildi at þat kæmi fram, bæti eptir lagadómi fullum bótum, þeim er þat mál á at lögum, ok svá konungdóminum, nema hinn færist undan at lögum. Þat eru ok ráð, ef maðr gildrar til þess, at vápn skuli falla á mann sjálf, eðr fljúga at

[1]) Aðrar: gengr eigi í gegn.

honum, eðr váði nokkurr, eðr vísar manni á forað eðr þar sem ólm kvikindi eru fyri. Svá ok ef maðr vísar at manni alibirni, eðr ólmum hundi eðr fælir hross at manni, eðr naut, eðr önnur kvikindi, svá at hann vildi at hinn fengi af skömm eðr skaða, bæti sem fyr segir.

## 12. Um rètt þess, sem eigi er í föðurætt kominn.

Ef sá maðr verðr veginn, sem eigi er í föðurætt kominn at lögum, þó at hann sè nokkrum manni kenndr at syni, þá eigu móðurfrændr hans bætr, ok svá arf eptir hann. En ef hann er barðr, eðr skammaðr, þá tekr hann rètt eptir móðurföður sínum.

## 13. Um váðaverk.

Váðaverk eru með mikilli skynsemd ok miskunn greinandi, með hverjum atburð er þau kunnu til at falla, því at þar sem maðr tekr manni blóð, eðr leggr eld á mann, eðr þat annat með lækningu, er hvárrtveggi hyggr heilsubót skuli af verða, þá er þat bótalaust, hvárt er þeir fá þar af mein eðr bana. En í öllum stöðum öðrum þeim er menn skulu sèr til þarfinda vinna, ok mönnum til hagligra hluta lið veita, þá eru þessi váðaverk meir virðandi en hin, sem ekki dregr nauðsyn til, nema gáleysi ok mikit skammsýni. Nú þó at tveir menn fari á skóg saman, ok skýzt öxi annars á annan at óvilja þess er á skapti hjelt, ok deyr hinn af því, þá skal sá er þat gjörði, bæta þann mann fjórðungi bóta, erfingjum hins dauða, ok syni vilja

síns með sèttareiði, at hann vildi þat verk eigi gjört hafa. Ok svá skal hvervetna þessi váðaverk bæta, ef þeir hafast þat at, er til nytsemdar heyrir, hvárt sem menn fá af mein eðr bana, at óvilja þess er gjörði, ok er þetta sektalaust við konung. En öll önnur váðaverk, svá sem er at skjóta eðr kasta yfir skip, hús eðr hæðir, eðr aðra þarfleysu at gjöra, hvárt sem menn fá mein af, sár eðr bana, at óvilja þess er gjörði, þá skal þat bæta hálfum bótum, ok synì þó vilja síns með sèttareiði, ok er þetta sektalaust við konung. Ekki á konungr á váðaverkum. Þat má ekki váðaverk kalla, ef maðr höggr eða lýstr til manns, þó at á annan komi en hann vildi, með því at hann vildi einhverjum illt gjöra. Nú heldr maðr á vápni, en annarr rasar at ok skemmist [1] eðr meiðist þar á, bæti eptir dómi ok atvikum, ok þó aldri meira en fjórðung bóta, en minna ef svá dæmist En ef annarr hrindir manni á vápn, bæti sá hálfum bótum, ok synì þó vilja síns með sèttareiði. En hvar sem maðr hefr komit vápni sínu, ok hefr hann eigi sjálfr á háldit, ok sver hann þess, at hann huggði þar skyldi engum manni mein at verða, þá bæti engu, þó at menn skemmist á, nema sjálft falli ofan, ef maðr hefr uppfest, þá bæti sá er uppfesti fjórðungi bóta, ok synì vilja síns [2]. En ef annarr maðr kemr við, þá bæti sá fjórðungi bóta, ok synì þó vilja síns með sèttareiði, en hinn sè við skildr, er upp festi. Nú gengr maðr til leika, fangs eðr skinndráttar at vilja sínum, þá ábyrgist hann sik

[1]) skeinist. [2]) með sèttareiði.

sjálfr at öllu, þó at hann fái mein af eðr skaða. En sá sem lèk við hann, skal synja vilja síns með sèttareiði, eðr bæti eptir dómi.

## 14. Um skot, knífalög ok rýtingaburð.

Þat er öllum mönnum kunnigt, at rýtingar eru fyriboðnir at bera, en sá er ber, er sekr 3 aurum við konung. En sá er kníf bregðr at öðrum manni, ok kemr eigi fram, þá skal hann bæta fullrètti þeim er hann brá at eptir 6 manna dómi, en konungi 3 aurum. En ef maðr leggr mann með knífi, þá er sá útlægr, ok bæti þeim, er hann lagði, eptir 12 manna dómi [1], sem þeir sjá, at hinn sè sæmdr af, er lagðr var. En konungs sóknari skal taka þann mann er lagði, ok færa á þing, ok umboðsmaðr konungs taki kníf þann, er hann lagði með, ok keyri þar á þinginu gegnum hönd þess er lagði, ok skal hann sik svá í frið kaupa við konung með þessari refsing, ef hinn lifnar, ok ábyrgist sjálfr sár sitt, hvernig honum tekst til. En ef sá deyr af laginu, er saklaus var lagðr, þá er sá dræpr ok deyðandi er lagði. En ef hann kemst undan, þá fari hann útlægr, ok komi aldri í land aptr, nema konungi sýnist nokkrar nauðsynjar til þess gengit hafa. En fè veganda fari eptir fyrra skilorði bæði þegn ok bætr. Meðr sama skilorði skal vera, ef maðr skýtr at manni, þó at ekki taki, þá bæti konungi 3 aurum sá er gjörði, en þeim fullrètti, er hann skaut at, eptir 6 manna dómi [2]. En

[1]) Bæta við: fullrètti. [2]) Aðrar einungis: eptir dómi.

ef maðr særir mann með skoti, þá skal sá er skaut slíka refsing fyri taka, sem hinn er lagði með knífi, ok undir sama skilorði, ok svá þó at sá deyi, er skotinn var, þá skal sá er skaut undir sömu refsing sem hinn er lagði, bæði þegn at greiða ok svá bætr.

## 15. Um sekt á mannsbiti.

Þat er óvirðkvæmiligt at menn bítist sem hundar eðr hestar. Nú sá maðr, er bítr mann, þá skal sýslumaðr taka þann mann, er mann beit, ok færa á þing ok brjóta [1] framantenn úr höfði honum, ok sè síðan sektalaust við konung fyri þessa refsing um þetta mál nema skynsömum mönnum virðist nokkur sú nauðsyn til hafa gengit at hann megi bótum fyri sik koma, þá bæti hann, ok svá þeim sem hann beit, eptir því sem 12 menn dæma, ok þeir vilja svara fyri guði, at hann er vel sæmdr af, er bitinn var.

## 6. Um eptirför veganda.

Svá er mælt ok staðfastliga tekit um allt landit, at ef maðr vegr mann, eðr veitir þær ákomur, eðr gjörir nokkur þau verk, er hann á at láta fyri líf eðr limar at lögum, þá skulu þeir, er næstir verða staddir, eðr þeir menn fyrst megu ná, taka þann mann ok færa sýslumanni bundinn eðr fjötraðan. En ef þeir gjöra eigi svá, ok megu þeir því við koma, svá at þeir megi enga skömm eðr skaða af honum fá, þá er hverr þeirra sekr hálfri mörk við konung, nema fjórmenningr at frændsemi eðr mægð-

[1]) láta brjóta.

um ok nánari, þeir eru eigi skyldir at taka þann mann eðr færa á þing, nema þeir vili. Sýslumaðr er skyldr at taka þann mann ok færa á þing, en bændr eru skyldir at dæma þann mann eptir lögum á þingi; en sýslumaðr er skyldr at láta refsa honum eptir dómi at lögum. Nú er þessu fyri því svá skipat, at þetta mega engir syndlaust gjöra, nema sá sem dómari er, ok konungr hefr til þess skipat, því at lögin refsa en eigi hann, þó at hann gjöri skyldu sína eptir því sem lögin bjóða honum. En aðrir gjöra með heipt ok öfund, ok því veitir þat opt, at þeir fá fyrst mannskaðann, en svara síðan stórum skriptum með frekum fégjöldum. En hverr sem öðruvís gjörir, ok prófast, at hann mátti þessu við koma, þá er hann útlægr, þar til konungr gjörir aðra skipan á, eptir málavöxtum, hver nauðsyn eðr várkunn til rak þann er gjörði. Nú hefr sá eigi liðskost til at taka hann sem at teir, þá skal hann segja sýslumanni, ok ef sýslumaðr krefr liðs með sér, þá er hverr sá sekr mörk við konung er eigi fer, nema fjörmenningar útlagans at frændsemi eðr mægðum eðr skyldari. Nú eru þeir allir friðhelgir er til sækja, en hinir allir útlægir, er verja, hvárt þeir fá af ben eðr bana, ok óheilög hús þeirra, ef brjóta þarf. Nú hlaupa útlagamenn í auðna hús, eðr þau hús, er þeir menn eru fyri, er eigi vilja verja þá, þá eiga þeir, er at sækja, at brjóta hús at ósekju til þeirra ef þarf, en bæta þeim fyri skaða, er hús átti, eptir því sem 6 skynsamir menn meta. Nú verðr sýslumaðr, eðr hans umboðsmaðr þar við staddr

sem maðr er höggvinn, lostinn eðr særðr, ok vill hann eigi eptir renna þeim er víg vakti, þá fellir hann með því þá konungs sekt, sem við liggr, hverr sem þá vill eigi eptir renna.

## 17. Um dóma.

Nú af því at lögbók váttar svá víða, at þá menn sem til refsingar hafa gjört, skal á þing færa ok dæma eptir lögum, ok eptir þeim dómi refsing á leggja, þá ber þeim innvirðuliga at rannsaka, ok með mikilli skynsemd ok hófi at meta, er til dómanna eru nefndir, hvárt misgjört er við saklausan mann, eðr fyri litlar sakir, en þó nokkrar, eðr fyri miklar sakir, en þó eigi nógar, eðr fyri svá nógar, at full nauðsyn ok várkunn þykir til hafa rekit þess verks þann er gjörði, svá ok, hvárt nokkur hafa lagaboð í milli komit eðr engi, eðr þat sem harðast er, at sá hafi bóta beiðst, er misþyrmt var, ok engar fengit. Svá ok hvárt nokkut var kært fyrir rèttaranum, er lagaúrskurðrinn sjálfr er skipaðr yfir þeim mönnum, er á saklausum mönnum vinna. En því er dómrinn til nefndr, at þá skal rannsaka sakir ok misgjörninga, ok tempra svá dóminn eptir málavöxtum, sem þingmenn ok rèttarinn sjá rèttast fyri guði, ok þeir vilja svara fyri guði á dómsdegi eptir sinni samvizku. En eigi sem margr snápr svarar, at þeir dæmi ekki utan lög, því at sannliga skulu þeir því fyri svara, sem lögin vátta þeim á hendr, er vánda menn láta ódæmda, eðr vanrefsta undan ganga, svá ok ef vanrefst er af hendi dómarans, ok svá ef ofrefst er

þeim sem miskunnar eru verðir, af þarfnan þeirra tillögu. Finnast ok nóg dæmi til þess, at þeir menn hafa hlotið harðar hefndir af guði, sem vandæmt hafa, en þó hinir harðari sem ofdæmt hafa. Ok því eiga dómendr dóminn hvervetna til betra vegar at færa, ef þeir vita jafnvíst hvárttveggja, ok er allmjótt mundangshófið; en því mjórra sem þat er, þá eru þeir því sælli, sem svá fá hæft þeirra fjögra systra hófi, sem í öllum rèttum dómum eigu at vera, at guði líki, en mönnum hæfi, en þat er miskunn ok sannindi, rèttvísi ok friðsemi. Miskunn á at varast, at eigi komi grimmd eðr heipt í dóma. Sannindi ber at geyma, at eigi verði logit fram borit. Rèttvísi á at varast, at eigi verði með rangindum hallat rèttum dómi. Friðsemi á at varðveita, þar til er rèttr dómr fellr á, at eigi verði með bræði ákafr áfellisdómr á lagðr. Ok því geymi dómarar þess, at þetta er æ því þurftugligra í öllum dómum, sem gjörr verðr at reynt. En at menn varist því meir ranga dóma, þá má varla illt varast nema viti. Ok því minnist menn jafnan á, at með fjórum háttum mega verða rangir dómar: Annathvárt með hræðslugeði, þar sem maðrinn óttast þann, sem hann skal um dæma, elligar með fègirnd, þar sem maðr snýkir til nokkurrar fèmúta, eðr með vináttu, þar sem maðr vill lið veita fèlaga sínum, eðr með heipt, þar sem maðr hatar þann mann sem hann skal um dæma. Ok er þá illa skipat, ef þessum hórbörnum er innvísat, en hinar skilgetnu systur eru á burt reknar, þær sem áðr eru taldar; því at illa mun sá dómur virðast fyri góðum mönnum, en allra verst fyri guði. Er

se ok því betr sem þessi kapítuli er optarr lesinn, þar sem um stór mál er at dæma. Minnist menn ok einkanliga, at fá þeim mönnum prest, er til bana eðr limaláts eru dæmdir, áðr en þeim er refst, ok gefi til þess góða tómstund; því at illt verk skal hata, en elska manninn af náttúrligu eðli, en sálina allra helzt, sem sinn jafnkristinn.

## 18. Um þá vægð, sem á er gjör við manndrápara.

Nú ef maðr verðr manni at skaða, eðr gjörir önnur útlegðarverk, þau er svá virðist lögmanni ok sýslumanni ok öðrum skynsömum mönnum, at sú nauðsyn eðr várkunn hafi til gengit þeim er gjörði, at hann megi fyri þat halda lífi ok limum, ok hafi hann boðum í milli komit bæði við erfingja ok svá konungdóminn, þá skal þann mann at ósekju flytja utan [1] til slíkrar miskunnar, sem konungr vill á gjöra við hann. En hverr sá maðr, er manni verðr at skaða, þá skal hann utan fara sem fyrst má hann, þó at hann hafi nokkur nauðsyn til dregit þess verks hverja miskunn sem konungr vill á gjöra um landsvist hans, þá er hann kemr á konungs vald [2]. (R. B. H. K. Svá er ok staðfest, at alla þá vandræðamenn, sem komast á kirkjunáðir, skal sektalaust flytja til Noregs, ok koma þeim þar í kirkju eptir lögmanns ráði, utan þá, sem kirkja á eigi at halda eptir lögum).

## 19. Um bardagasektir á þingi.

Ef menn berjast á Öxarárþingi, fari sem fyr vátt-

---

[1]) til Noregs. [2]) fund.

ar lögbók, ok svá fèskipti, ok svá ef menn verða vegnir eðr særðir lemstrarsárum, sem váttar um önnur óbótamál. En ef menn berjast á öðrum þingum eðr fimmtarstefnum, fyri lögmanni, eðr í brullaupum, um jól eðr skírdag ok fram um páskaviku, þá eykst rèttr þeirra at helmingi, er fyri skemmdum eðr sársaukum verða. Svá eykst ok at helmingi sekt við konungdóminn, því at sjálfsett eru grið í þessum stöðum öllum, ok á þessum tímum. En ef maðr særir mann eðr ber, eðr skemmir fullrèttisverkum í heimili sjálfs hans, þá eykst at helmingi rèttr þeirra, er fyri skemmdum eðr sársaukum verða. Svá eru þeir ok hálfu meir sekir við konung, er heimsókn veita, eða heima friðinn brjóta, ef hinir lifna, en með öllu útlægir, ef þeir deyja.

## 20. Ef maðr bindr mann.

Ef maðr bindr frjálsan mann at ósynju, gjaldi konungi 5 merkr, en hinum fullrètti, er bundinn var, eptir 12 manna dómi, þeirra sem rèttarinn nefnir til lögliga. Binda má maðr þjóf at ósekju, ok alla þá menn, er hann kennir, at ódáðaverk hafa gjört, ok hefr hann vitni til, at hann gat eigi öðruvís fært þann mann til rèttarans, en ef hann hefr eigi vitni til, syni eins eiði.

## 21. Um högg ok lemstrarsár.

Ef maðr lýstr mann með heiptugri hendi, þar sem eigi eru griðastaðir, með öxi, lurki eðr steini; þó er högg at maðr reiðir frá manni, er hann veit at sjálft mun hlaupa at honum, ef hann lætr laust, svá ok ef maðr fellir á mann þat, er hinn fær

högg af. Nú skal hann bæta konungi mörk fyri hið fyrsta högg; en ef hann slær annat samfleytt, bæti konungi 2 mörkum; en ef hann slær hit þriðja samfleytt, bæti konungi 3 mörkum; en ef hann slær hit fjórða samfleytt, bæti konungi 5 mörkum; en ef hann slær hit fimmta samfleytt, bæti konungi 13 mörkum. En þeim sem fyri varð, bæti fullrètti eptir 12 manna dómi, lögliga til nefndum af rèttaranum, hvárt sem er eitt högg eðr fleiri. En ef maðr lýstr í höfuð manni, eðr höggr, eðr hrindir á kaf, eðr hvelfr skipi undir manni, eðr brýtr farkost manns, svá at honum er hætt á djúpi, eðr særir mann lemstrarsárum, hvárt þat er högg eðr sár, bæti konungi 2 mörkum fyri hverja grein þessa. En hinum sem fyri varð, bæti eptir 12 manna dómi, lögliga til nefndum af rèttaranum. En þat eru lemstrarsár, er maðr er síðan ver færr en áðr, eðr eigi hylr hár eðr klæði ok jafnan má á sjá. En ef sá vill eigi bæta, er misgjörði, lögliga til sóttr, fari útlægr svá langt sem þingmenn dæma. Nú vill sá eigi bætr taka, er fyri vanvirðingu varð, eðr sýslumaðr, þá friðhelgar hinn sik til dóms, hvárt sem þeir taka við eðr eigi. Nú ef einn maðr lýstr, höggr eðr særir tvá menn, eðr fleiri í einu atvígi, gjaldi sinn rètt hverjum þeirra, ok svá konungi slíka sekt, sem fyr var skild. En ef tveir menn eðr fleiri særa einn mann eðr ljósta, þá er hverr þeirra sekr fullri sekt fyri sik við þann, sem fyri varð, en við konung slíkum rètti sem áðr var skilt. Nú ef annars sár gróa en annars eigi, ok fær sá af því bana, þá er sá útlægr, er þau sár veitti,

er eigi vilja gróa, ok hann einn haldi upp fullum bótum ok manngjöldum slíkum, sem 12 menn dæma eptir lögum fyri þann mann, ok svá konungi þegngildi. En þeir menn, sem mönnum veita lið til eðr föruneyti, hylla eðr samþykkja með þeim þann hug at taka menn af, svari slíku fyri konungdóminum ok erfingjum hins dauða, sem rèttarinn konungdómsins ok skynsamir menn 12 dæma með honum eptir atvikum [1], en landsvist þeirra sè undir konungs miskunn.

## 22. Um sætt ok sekt á misgjörðum.

Nú vill sá eigi bæta, er misgjörði, þá skal sá, er misgjört er við, kæra fyri konungs umboðsmanni þeim, sem hann hefr sitt rèttinda vald í hendr fengit; skal rèttarinn stefna báðum fyri sik til þings, ok nefna þar 12 skynsama menn at dæma þeirra í milli, at áðr teknu prófi, ok setì á salastefnu. Ok ef sá vill eigi gjalda, er misgjörði, þat sem dæmt var, þá sæki út með dómrofum ok atferðum. Nú vill sá eigi bæta er misgjörði, en konungs umboðsmaðr afrækist rètt at gjöra þeirra í milli, ok hefnir sá síðan, er misgjört var við, sinna svívirðinga, ok verðr hefndin meiri en hinn gjörði til; en þat sem milli, ber eptir skynsamra manna dómi, þá er þeir sættast, þá skal þat gjalda hálft sá, er hefndi sín, en hálft konungs umboðsmaðr, bæði konungi ok svá þeim, er fyri vanvirðu varð, því at hann afræktist rètt að gjöra. En ef sá hefn-

[1]) Aðrar hafa: lögum ok atvikum, ok aðrar: með lögum eptir atvikum.

ir sín svá, at hefndin verðr eigi meiri en áðr var til gjört, þá er hann saklaus við konung um þat mál, því at hann beiddi réttar síns áðr, en fékk eigi. En umboðsmaðr konungs gjaldi einn saman slíkan sakareyri, sem á þeim verkum, eðr áskilnaði stóð, því at hann afræktist rétt at gjöra. Hvervetna þar sem sá kærir sik fyri réttara, er misgjört er við, þá á réttarinn fyrri at gjöra þeim rétt, sem mishaldinn er, en taka konungi sekt til handa. Ok hvervetna þar sem dómrinn vægir eptir málavöxtum þeim, er misgjört hefr, ok fellir rétt þess, er fyrir vanvirðu varð, þá ber betr réttarum konungdómsins at fella eptir því konungs sakeyri, ef þeir vilja rétt með fara, því at svá gjörir konungr sjálfr um þegngildi.

## 23. Um blak ok smærri misgjörninga.

Ef maðr hrífr mann, svá at blæðir, eðr klípr, svá at blátt verðr, eðr lýstr mann pústr eðr knefahögg, eðr ryskjast menn, eðr berjast með knefum, ok með hverjum hætti maðr fellir mann af baki, eðr hann ríðr á mann, eðr eys eldi á mann, svá at hann brennr, eðr hár eðr klæði af honum, ok svá ef maðr stingr öxarskapti eðr spjótskapti at manni með heiptugri hendi, bæti þeim er misgjört var við eptir 6 manna dómi, en konungi hálfa mörk fyri hverja grein þessa. En um blak allt, svá ef maðr hrindir manni, eðr drepr hross undir manni, eðr hnykkir til sín eðr frá, eðr á hverja lund maðr fellir mann, eðr hnykkir hettu at hálsi manni, eðr

ríſr klæði af manni, eðr byrgir mann í húsi, svá at hann kemst eigi í burt, nema hann brjóti húsit, eðr tálmar ferð manns, eðr eys á mann saur eðr vætu, eðr sker hár af manni með heiptupri hendi, ok allt annat þat manni verðr með öfund misþyrmt, með þeim hætti, at sá gefr sök á, er fyri verðr, ok hafa skynsamir menn sèt á, þá skal sá er misgjörði bæta eptir lögligum 6 manna dómi þeim er fyri varð, en konungi 2 aura fyri hverja grein þessa. En þó at engi sè vitni til, þá eigi hann kost at beiða út rèttar síns, þegar hann vill. En ef sá maðr synjar, er fyri sök verðr, syni með lýrittareiði, eðr bæti sem áðr var skilt. En ef maðr hleypr at manni með heipt, ok verðr haldinn, bæti eptir dómi, þeim sem hann hljóp at, en konungi 2 aura. En ef maðr hleypr at manni, ok heldr sèr sjálfr, þat heitir argafas, engan á konungr rètt á því. Sakaráberi skal vera fyri sök hverri, en engi sóknari skal gefa sök á annars sæmdum eðr fjárhlutum, neman heimiliskviðar vitni fylgi, ok þó því at eins, ef verða lemstrarsár eðr þaðan af stærri. En ef minni eru, þegar sá gefr sök, er málefni á, þó at hann sættist ok gefi upp síðan, þá á konungr rètt sinn, ok mega hans sóknarar sækja, þegar þeir vilja, honum til handa. Engan á konungr rètt á þeim manni, sem engan á sjálfr á sèr. (R. R. E. K. Ef maðr særir mann, bindr eðr ber eðr skemmir fullrèttisorðum eðr verkum, ok vitu þat vitni, ok krefr sá lagastefnu ok rèttar, er fyri vanvirðu varð, en hinn neitar, þá sekist hann hálfri mörk, hálft konungi, hálft þeim er mál á).

## 24. Ef fènaðr verðr manni at skaða.

Nú er graðungr í yxnatali þar til sem hann er þrèvetr, ok ábyrgist sem fyri annan fènað. En ef graðungr eðr uxi verðr manni at skaða þá skal erfingi beiða út uxa eðr graðungs, en eigandi leggi band við, ok fái honum í hendr, eðr hans umboðsmaðr. En ef eigandi vill þat eigi, ok fæðir hann síðan graðung eðr uxa, bæti þeim, er fyri varð, eðr hans erfingjum 10 mörkum, ok uxann eðr graðung á ofan, ok fellr niðr konungs rèttr. Ef hestr eðr hross bítr mann eðr lýstr, eðr stangar naut, eðr svín höggr, bæti sá er þann fènað átti hálfum sárabótum, þar til bót er slíks verð sem þat kvikindi er vert, er hinn fjekk mein af, eptir 6 manna dómi. Nema þeim sýnist af þess völdum vorðit hafa, er mein fjekk, hafi fyri eptir dómi. En ef hundr bítr mann, þá krefi sá hunds er bítinn var, en hinn leggi band á, ok fái honum í hönd er bitinn var, þá bæti fyri eptir dómi. En ef hann fæðir hund síðan, ok bítr hann mann optarr, bæti sem sjálfr hann hafi gjört.

## 25. Um fullrèttisorð.

Engi maðr skal þat við annan mæla, at hann hafi þegit skömm á sjálfum sèr, hvárki sýslumaðr nè annarr maðr, nema honum fylgi 10 manns til þings. ok sanni mál hans sem mælt er í lögum, at 2 skulu sverja, en 8 sanna mál hans, ok þeir 2 skulu hafa bók í hendi, ok sverja svá: Til þess leggr hann hönd á helga bók, ok segir þat guði, at þat höfum vit heyrt, en eigi vitum vit hvat satt er. En ef

hann missir þeirra vátta, þá er hann sekr 4 mörkum við konung, en bæti þeim, er hann mælti við eptir 6 manna dómi lögliga til nefndum. En hinn er til var mælt skal þó hafa fyri sèr lýrittareið, þó at hann hafi þessa vátta alla. En ef maðr mælir þat við mann, at hann ráði lönd eðr þegna undan konungi sínum, þat skal hvárki mæla sýslumaðr eðr annar maðr, nema heimiliskviðar vitni fylgi. En sá er þat mælir, er sekr 4 mörkum við konung, ok hinum, sem 6 skynsamir menn dæma. En ef maðr mælir þá skömm við konu manns, at hún liggi með öðrum manni en bónda sínum, eðr kennir þat dóttur manns eðr systur, at þær liggi með manni, þat skal engi mæla nema heimiliskviðar vitni fylgi, nema hann gjöri sik sekan 4 mörkum við konung, en hinum fullrètti eptir lagadómi. R. B. H. K. En ef maðr kallar mann drottinssvikara, fordæðu, morðingja, þjóf, hvinn, pútuson, hórkonuson, eðr önnur jafnskemmilig orð, þá er sá sekr 4 mörkum við konung, en hinum eptir dómi, er við var mælt. En öll önnur fjölmæli þau er smærri dæmast, ok til minni hneixli horfa, skulu eptir dómi ganga, bæði sekt við konungdóminn, ok rèttr þeirra sem talat er til. En ef maðr talar ókvæðisorð við karlmann eðr konu, þat er þessi sekt liggr við, þá skal þó fullrètti uppi eptir 6 manna dómi við þann er við var mælt, þó at hann helgi sik með heimiliskviðar vitni, nema hann eigi at lögum sókn á því máli, þá er þar eigi rèttarfar á, ok svá skal um öll fjölmæli ok fullrèttisorð [1].

[1]) Sbr. Rèttarbót Hákonar kon. Magnússonar 14. júní 1314.

## 26. Um rógsmenn.

Svá er mælt um rógsmenn, at sá maðr, sem hann rægir mann við konung eðr byskup, jarl eðr sýslumann, svari slíku fyri sem sá ætti, er rægðr var, ef hann væri þess sannr, nema sá er rægði, syni, ok hafi fyri sèr sèttareið. En ef maðr kennir manni þann róg, at hann hafi fengit óþokka konungs af hans orðum, haldi fyri eins eiði, eðr bæti eptir 6 manna dómi sakarábera, En engi á sök á sönnum rógi.

## 27. Um kveðskap.

Ef maðr yrkir um mann þat sem mönnum virðist til háðungar eðr níðs, fjórðungi lengra, þá skal sakaráberi kveðja þings, ok kveða á þingi, en hinn færist undan með lýrittareiði, ef hann er fær til þess, ella gjaldi konungi 4 merkr, en hinum rètt sinn eptir 6 manna dómi. Nú kveða fleiri en einn fjórðungi lengra, þá sekist hverr fyri sik fullri sekt bæði við konungdóminn ok þann sem um var kveðit. Nú kveðr maðr skáldskap til háðungar manni, þó um annan sè ort, eðr snýr á hönd honum nokkru orði, bæti þeim eptir 6 manna dómi, en konungi 2 merkr. Nú mál hvert, er mælir maðr við annan, svá at honum horfi til hneixla, eðr kennir manni hvinnsku eðr fordæðuskap, ok á hann eigi sjálfur sök á því máli, þá er hann fjölmælismaðr, nema hann hafi heimiliskviðar vitni á hendr honum, þá skal hann sverja fyri lýrittareið. En ef hann missir heimiliskviðar vitnis á þingi, þá er hann sekr 4 mörkum við konung, en bæti hinum rètti sínum eptir 6

manna dómi. Svá skal orð hvert vera sem mælt er. (R. B. E, K. Þau orð eru úr tekin bókinni, at eigi skal at skáldskaparmálum ráða). Engi maðr sekist á því orði, sem færast má til góðs ok ills. Jafnt sekist maðr hvárt sem mælt er við mann[1] áheyrandi eðr afheyrandi, ef þat er vitnisfast.

## 28. Um hórdóm.

Ef maðr gjörir svá mikit óhæfuverk, at hann leggst með eiginkonu manns[1], þá skal hann bæta bónda hennar slíku sem 12 menn dæma lögliga til nefndir. En ef hann er fær til undanfærslu syni með týlftareiði. Nú ef maðr sættist við þann mann, sem legit hefr konu hans, þá skal sá veita tryggðir, er konu á. En ef maðr tekr konu sína í hjúskap aptr, ok liggr hinn hana annat sinn, meðan þau eru saman, þá er hann tryggrofi, sem hinn, er vegr á tryggðir óspilltar.

## 29. Um boðslettu.

En þeir menn, sem til þess vilja hafa sik at ganga í samkundur manna óboðnir af þess hendi sem veizluna á, ok sitr þar slímusetu, ok þó at hann verði harðliga burtrekinn eða misþyrmt þar nokkut, þá skulu þeir vera hálfréttismenn, ok sekr eyri við konung. Er þetta fyri því svá gjört, at margir góðir menn hafa fengit skemmdir ok vandræði af þeirra óhlutvendni.

---

[1]) Sumar bæta við: réttarorðum.

## 30. Um heilbrigða húsgangsmenn.

Maðr hverr fulltíða, er gengr húsa á meðal, ok þiggr ölmusu, hann á engan rètt á sèr, þó at hann sè nauðugr burtu rekinn meðan hann gengr á vánarvöl, ef hann er heill maðr ok verkfærr, nema hann beiði sèr vistar ok fái eigi. En þegar hann fær sèr sjálfr matar ok klæða eðr vápna, eðr frændr hans, þá er hann þegar rèttnæmr. (R. B. E. K. Þeim mönnum skal eigi gefast ölmusa, sem ganga húsa á meðal ok bera vápn. En ef þeir menn sem á vánarvöl ganga ok þiggja ölmusu, vanvirða bændr eðr aðra dugandi menn, þá sem heimilisfastir eru, með orðum eðr verkum, svá at þat verði vitnisfast, þá svari líkamligri refsing eptir lögligum dómi, utan þeir fái fullan borgunarmann at lúka fyri þá slíkt fè, sem dæmt verðr í rètta salastefnu[1]. Nú ef þeir sem misgjörðu, vilja hlaupast undan dómi, krefi sá granna sína til, er fyri vanvirðu varð, ef konungs umboðsmaðr er ekki nær, at taka þann mann ok fjötra, ok flytja hann undir lögligan dóm, utan sá fái borgunarmann, sem brotligr varð, at hann skal hvergi undan hlaupa.)

## 31. Um kvenna legorð ok rètt.

Konur þær allar, er mönnum eru skyldar, ok menn vilja enga rækt á leggja, þá taki engi meira rètt á þeim, en lagarètt, 12 aura. En ef frændr konunnar vilja leggja til hennar heimanfylgju slíka, sem 6 skynssmir menn sjá, at hinn megi við henni

[1]) Hèr er í útgáfunni 1709 skotið inn í sömu greininni úr rèttarbót Eiríks kon., sem áðr er til færð seinast í 23. kapítula.

taka, er konu hefr legit, ok vill hann þá eigi festa hana, þá skal hann gjalda slíkan rètt fyri þá konu sem 12 menn lögliga til nefndir vilja dæmt hafa. En ef frændr konunnar vilja ekki til leggja, þá skal sá, er konu hefr legit, bæði bjóða, ok bæta lagarètt. En ef hann vill eigi viðrtaka, sem þann rètt á með lögum at taka, og vinnr hann á þeim, sem konu hefr legit, þá vinnr hann á saklausum manni, ok svari slíku sem lög vátta. En allar meyjar ok konur, er menn leggja rækt á, ok verða þær legnar, þá skulu þat dæma 12 menn, bæði rètt ok ráðspjöll, eptir því sem þeir sjá, at hann sè vel sæmdr af, er rèttinn á at heimta. Nú vænist maðr því, at hann hafi legit með konu, ok ef hún færist undan at lögum, þá gjaldi hann slíkan rètt fyri þá konu sem hann sè þess sannr, heiti snápr æ síðan, ok því heitir þessi rèttr snápsgjöld. Erfingi skal rètt taka á konu hverri, ef hún er legin, karlmaðr en eigi kona, þó at hún sè erfingi, svá sá sem í ómegð er sem fulltíða, ok taki umboðsmaðr hans honum til handa nema hún eigi sèr bónda, þá tekr hann rètt á konu sinni. Kona sjálf á rètt á sèr, ef hún er börð, ok á hún sèr eigi bónda. Hvervetna þar sem kona verðr barnshafandi, þá skal sá, er þat barn á, inna þeim fyri kost, er konu annaðist meðan hún var í þeim sjúkleika, og svá fyrir barnfóstr. Nú ef sá maðr er andaðr, er konu hefr legit, þá skal erfingi svara þeim rètti ok kostnaði svá miklu sem hann hefr fè tekit eptir hann, en eigi meira. En engu á hann að svara, þar sem hann erfir ekki.

---

# Hèr hefr hinn fjórða hlut lögbókar, sem er um kvennagiptingar, með almenniligu erfðatali ok arftöku.

---

## 1. Um giptingarmann.

Faðir ok móðir skulu ráða giptingum dætra sinna, ef þau eru til, en ef þeirra missir, þá skulu föðurfrændr ok móðurfrændr hinir nánustu giptingum ráða. Nú eru bræðr til nánastir, ok skilr þá á; þá skal sá ráða, sem hennar ráði fylgir, ef þat þykir jafnræði, ok svá skal hvervetna þar sem fleiri eru jafnkomnir til. Giptingarmaðr skal skilja heimanfylgju ok tilgjöf fyri frændkonu sína, sem þeim kemr ásamt, þeir skulu eindaga ok þá nær brullaup skal vera. R. B. H. K. Eigi skal hèr á landi gefast meiri tilgjöf mey eðr konu, en til sextíu hundraða, þó at menn sè ríkir, ok hvergi meir en fjórðungr úr fè hans. En ef maðr gefr í beztu eign sinni, þá skulu erfingjar hans leysa til sín, ef þeir vilja. Nú ef þá skilr á um máldaga, þá láti festarmaðr bera tveggja manna vitni um heimanfylgju, þeirra er hjá váru, hvat mælt var. En ef þá skilr á um tilgjöf, þá njóti giptingarmaðr tveggja vátta með fyrra skilorði. Eigi skal í klæðum meira gefast með konu en þriðjungr, en þat sem meira gefr giptingarmaðr, skal vera í þarfligum peningum, at þat megi vera þeim til þarfa eðr afla, er konu fær. En enga heimanfylgju má arfi giptingarmanns rjúfa, þá er svá er gjör sem nú var skilt.

En ef kona eðr mær, utan ekkja, giptist fyri utan ráð föður eðr móður, eðr bróður síns, eðr þess sem giptingarmaðr er fyri ráði hennar, hafi fyrigjört arfi eptir giptingarmann þann sem hún stóð til, nema hann vili meiri miskunn á gjöra, utan giptingarmaðr vili firra hana jafnræði, þá má hún giptast með annara skynsamra frænda sinna ráði, ef þeim lízt jafnræði, eðr betr, ok megu þeir þat með eiðum sínum sanna, ok á þó at leita þess áðr við giptingarmann. En giptingarmaðr er faðir, annarr bróðir samfæddr, þar næst móðir skilfengin, ef hún er til, þá er karlmaðr tvítugr eðr eldri, sá sem næstr er erfðum eptir þá konu, er giptist. En sá sem slíks dirfist gjaldi fullrètti giptingarmanni eptir 12 manna dómi, eðr fari útlægr af þeim fjórðungi, nema öðrum frændum virðist jafnræði vera. Ekkja má gipta sik sjálf hverjum sem hún vill með nokkurs frænda síns ráði. En konur þær sem ljást til þess at lokka til slíks eðr annars saurlífis börn manna eðr frændkonur, ok verðr þat vitnisfast, þá bæti eptir 6 manna dómi peningum sú sem fè hefr til, en hin hafi refsing eptir dómi.

## 2. Um heimanfylgju kvenna.

Ef dætr verða föður síns arfar, móður eðr bróður, eðr hvers kyns arfar þær kunna at verða, sumar giptar en sumar ógiptar, þá skulu þær sem ógiptar eru, taka svá mikit fè af óskiptum arfi, sem þær höfðu, er heiman váru giptar. En þó allar sèu heiman giptar, ok er eigi skipt heimanfylgju til jafnaðar þeirra í milli, þá taki þær af óskiptum arfi jafnmikit sem sú er mest hafði

heiman æ meðan fè vinnst til. En ef fè eðr arfr vinnst eigi, leggi aptr til jafnaðar, nema eigi væri meira heiman gefit en slíkt kæmi þá á hverrar hlut[1]. Gripir allir sem lènir eru til heimanfylgju, ok eru þeir metnir ok myndir í hendr þeim, sem konu fær, ok á hann þá jafnheimila, sem faðir eðr móðir lèti heimanfylgja. En ef maðr segir, at hann lèði eigi til þess þeirra gripa, þá sveri hann eins eiði, svá karlmaðr sem kona, ok sæki til jafnmikils giptingarmann konunnar, ok skerði þat tilgjöf hennar eptir rèttri tiltölu. Engi mær skal hafa forræði fjár síns fyr en hún er 20 vetra gömul, þó at undir hana hafi borit, nema hún sè gipt at frænda ráði, ok á sá, er hennar þá fær, bæði forræði fyri henni ok svá peningum hennar. Hverr sem giptingarmaðr er rèttr at konu, láti allt heimilt vera í heimanfylgju hennar. En allt þat, er sækja þarf með lögsóknum, þá skal engi koma tilgjöf á móti, ok gjaldi þat sem skerðir tilgjöf hennar af fè þess, er heimanfylgju hjelt. En ef ekkja giptir sik sjálf heiman, ok lætr hún meta annara manna fè í heimanfylgju sína, ok lèt hinn til, er átti, þá á sá, er hennar fær, þat jafnheimilt sem þat er ekkjan átti. En ef maðr segist eigi til þess lèð hafa, þá syni með eins eiði, en heimanfylgja hennar því minni. (R. B. H. K. Hvar sem maðr fær mey eðr konu at guðs lögum ok lands, ok eru honum lèðir peningar, eðr í borgun gengit fyri hann, at hann á svá mikla peninga, sem þá eru taldir ok ánefndir, þá skal á þá leið fara sem bók váttar um þat

---

[1]) Aðrar bæta við: er heima váru, ef þá væri erfðinni skipt.

fè sem konu var lèð. En ef hann vanrækir, sæki giptingarmaðr eðr umboðsmaðr konunnar út henni til handa, ok taki þar af fyri sitt starf, svá at hann sè vel haldinn af.

## 3. Um fèlag hjóna á milli.

Fè konu sinnar skal engi maðr færa af landi burt, nema hún vili. Ráða skal hann fè þeirra öllu til þarfa þeim; hvárki þeirra skal fyrimæla, nè fyrigjöra annars. (R. B. E. K. Engi maðr skal selja eignir konu sinnar, eðr þær sem þau eiga bæði saman, utan með samþykki hennar, nema full nauðsyn gangi til, ok þó með skynsamra manna ráði). Slíkan rètt á hverr maðr á konu sinni sem á sjálfum sèr, ef henni verðr með öfund misþyrmt. Eigi á kona at synja bónda sínum fèlags, en með því méga þau leggja fèlag sín í milli, at hvárt þeirra leggi til fèlags allt þat sem þá á eðr eigandi verðr, með erfðum eðr öðrum hlutum. En ef síðar falla ómagar til annars hvárs þá skal þat jafnt beggja þeirra kostnaðr, þó engir komi á annars fè. En ef misdauði þeirra verðr, þá skulu ómagar þeirra hverfa þeim á hendr, sem þá á fyri laga sakir fram at færa. En þat hjóna, sem meira lagði til fèlags, skal meira upp taka, eðr þess erfingjar. Síðan sè skipt í helminga, þó at eyðst hafi. En ef aflast hefr, þa skal karlmaðr eðr hans erfingi taka tvo hluti afla en kona þriðjung [1]; þurfa þau engan mann at þessu fèlagi at spyrja. En ef þau leggja á annan veg, þá skal þat eigi haldast, þó at erf-

[1]) Aðrar bæta við: eðr arfar hennar.

ingi kunni eðr vilì eigi þat fèlag rjúfa, því at lögin rjúfa þat fèlag. (R. B. E. K. Rètt er at frændr gjöri kaupmála sín í millum ok helmings fèlag eptir því sem þeim semr). Nú er eigi fèlag hjóna í millum, þá skal sú tilgjöf konu heimil vera, sem til hennar var gefin, ok váttar vita, ok lýst var á giptingardegi, ef hún lifir lengr. Lýsa skal giptingum kvenna ok tilgjöfum sinn á hverjum 10 vetrum, ok lýsa í fjölda á þingi eðr við kirkju. En ef hann missir hennar við, þá taki arfar hennar heimanfylgju hennar, en tilgjöf fellr niðr. Nú þó at mær hafi fjárhald bróður síns, þá skal hún eigi taka af fè hans sèr til heimanfylgju. En ef arfi gefr þá sök, þá er hann er fulltíða, at giptingarmaðr hafi gefit fè hans með systur hans, þá standi sá fyri eins eiði, er sök kom á hendr.

## 4. Um fjárskipti eptir annathvárt hjóna.

Nú ef annat tveggja hjóna missir annars við. ok þrýtr brullaupsvitni, þá skal þat hjóna, sem lengr lifir, leggja fram fè, ok skipti svá í sundr sem þat vill andsvara fyri guði at rètt er, eptir því sem í gipting þeirra kom, ok hvárki er þá vanhaldit af öðru, ok sverì at fullan eið, ok tveir skilríkir menn með því. Ef maðr kaupir jörð með gripum eðr lausafè eðr búfè konu sinnar, ok lifir hún honum lengr, þá skal hún þat eitt hafa úr jörðu af arfi hans, sem hún hafði heiman, ok þat eina meira, er erfingi vill. En ef hún tekr fè í erfð síðan er þau komu saman, ok verðr þat fè fyri jörð greitt,

þá skal sú jörð hennar. Nú ef öreigar tveir koma saman at landslögum rèttum, ok aukist þeim fè, þá hafi þat tvá hluti, sem lengr lifir, í landi ok lausum eyri, ef við útarfa er at skipta, en helming ef við börn þeirra er at skipta.

## 5. Ef kona hórast.

Ef kona leggst með manni öðrum en bónda sínum, eðr skilr hún við hann saklaust móti guðs lögum ok rètti, þá hefr hún fyrigjört tilgjöf sinni. En ef bóndi býðr henni samvistu, en hún vill eigi, þá skal bóndinn varðveita öllum fjárhlutum þeirra, meðan hún lifir; en síðan hún er dauð, taki sá heimanfylgju hennar, sem arfi er næstr, ok enga tilgjöf. En ef þau sættast á mál sín, ok tekr hann við henni, þá fari þat mál sem mál hennar væri óspjallat. En ef henni verðr sá glæpr optarr fyri, þá skal hann varðveita fjárhlutum hennar meðan hún lifir, þó at hann vili ekki optarr við henni taka, en síðan fari eptir því sem fyr segir. En ef hún hefr eigi fyr við þann glæp kennd verit, ok heitir hún yfirbót við guð ok bónda sinn, ok býðr hún bónda sínum samvistu; en ef hann vill eigi eiga hana, þá hafi hún heimanfylgju sína, en enga tilgjöf. En ef bóndi hennar vill firra hana heimanfylgju sinni, ok segir at hana hafi fyr meir sá glæpr hent, ok var sú sakargipt eigi fyrri af hans hendi við hana svá at mönnum væri þat kunnugt, þá standi hún fyri eins eiði, ok hafi hún heimanfylgju sína, ef hann vill eigi viðr henni taka, en eigi tilgjöf sína. Nú ef gjöld koma á hendr öðru

hváru hjóna, þá á þat með sínu fè at bæta sinn misverka sem gjört hefr. En ef þau hafa lagt fèlag sín í milli, þá á þat þeirra, sem eigi hafa gjöldin á hendr borizt, hafa jafnmarga aura af óskiptu ávaxtarlaust eðr þess erfingjar, þann tíma, er misdauði þeirra verðr, eðr þau skiljast lögliga. Nú kemr legorðssök á þá konu, sem maðr hefr sjer festa eðr handselda, þat legorð sem fyr gjörðist, ok ef hann fær þeirrar konu, þá á hann ráðspjöll, en giptingarmaðr rèttinn. En ef síðan er lagst með henni, en hann handselr sèr eðr festir, ok ef hann fær hennar, þá á hann bæði rjett ok ráðspjöll; en ef hann fær hennar eigi, þá á sá karlmaðr bæði, sem fyr skilr. Ef maðr gengr í sæng til konu ok vill koma legorði á hana, ok þó at hann komi eigi vilja sínum fram, þá bæti hann eptir 12 manna dómi.

## 6. Um meinbugi.

Ef meinleiki sundrar samvist hjóna, með þess ráði sem ráða á at guðs lögum, þá hafi hvárt þeirra sitt fè. En ef þau skiljast fyri þann sifskap at karlmanns völd hafa til komit, ok vissi hann þat, þá er hann festi konu, ok leynir hann því, þá bæti hann fyri svik sín eptir 12 manna dómi; hafi kona hálft, en giptingarmaðr hálft. En fyri hvern annan meinleika sem þau skiljast, þá fari sem fyr segir. En ef maðr fær konu með landslögum rjettum, ok gefr í móti henni tilgjöf, ok fellr frá síðan, þá skulu henni lúkast síðan þing sín ok heimanfylgja af sjálfs hans fè meðan þat vinnst til.

En ef þat fè vinnst eigi til, þá skulu erfingar ekki lúka af sínu fè, því at engi skal sèr konu kaupa með annars fè.

## Hèr hefr almennilegt erfðatal.

### 1. erfð.

Sú er hin fyrsta erfð, er börn skilgetin taka arf eptir föður sinn ok móður skilfengna at guðs lögum ok manna, ok sá sonarson, er hann er skilgetinn, ok svá faðir hans, nema faðir hans hafi áðr haft allan sinn hlut af arfi, ok tekr þá sá sonarson arf fyr en í aðra erfð gangi. En svá skal fè skipta eptir föður ok móður, at 2 dætr skulu taka jafnt við einn son, ok slíkan hlut skal taka sonarson at arfi, sem dóttir, ef hann er til. Nú er einn son ok ein dóttir, þá tekr hún þriðjung en hann tvá hluti. En ef faðir á jarðir eptir, þá skulu synir snúast til höfuðbóla, en dætr til útjarða eðr lausafjár, ef eigi eru jarðir til, ok skal hinn elzti einn eignast höfuðból, ef hinum hlotnast aðrar jarðir jafngóðar í sinn hlut at lögligri virðingu, en sonarson í sinn hlut þær jarðir, sem faðir hans stóð til, þar til er hann hefr jafnt móti dóttur. En þau óðul sem meiri eru ok faðir hans stóð til, þá leysi hann ef hann vill af föðurbræðrum sínum fimmta hlut minna en verð eru. En eigi skal hann fyr leysa af föðurbræðrum, en föðurfaðir hans er andaðr, nema föðurfaðir hans verði ómagi barna[1] sinna. En ef faðir missir sonar síns eðr dóttur eðr

[1]) Aðrar: sona.

sonarsonar, þá tekr hann arf eptir þau, ef þau eiga eigi skilgetin börn eptir sik; ok þó tekr barn arf eptir föður sinn ok aðra menn, at þat sè getið en eigi fætt, ef það kemr með lífi í ljós ok verðr skírt. Slíkt fè, sem móðir leggr til barna sinna, ok andast þau barnlaus, þá erfir hún þat allt eptir þau. En ef móðir er önduð, þá eiga börn hennar skilgetin at taka þat fè fyr en faðir. Nú er dóttir legin í föðurgarði eðr bróður, þá á hún hvárki arf at taka eptir föður sinn nè móður, utan hafi slíka miskunn, sem faðir vill gjört hafa, eðr bróðir, ef eigi er faðir til. Nú er eigi sonr til arfs, en til sè sonarson, sva kominn til sem fyr segir, ok sú dóttir, sem eigi er legin, þá taki sú, er í föðurgarði eðr bróður var legin, hálfu minna en hvárt hinna. En ef engi þeirra er til sem áðr eru taldir, þá taki hún svá allan arf sem mál hennar væri óspjallað. Hvervetna þar sem fèlag er hjóna í millum, þá skal gipting dætra ok heimanfylgja greiðast af beggja þeirra fè, eptir því sem fèlag þeirra var gjört. En ef eigi er fèlag hjóna í millum, þá skal eptir fjármagni hvárt þeirra leggja til barna sinna. Eigi á faðir eðr móðir at kvánga son sinn eðr gipta dóttur sína með meira fè, en slíkt kæmi á hvers hluta þeirra sem eptir eru, ef þá væri erfðinni skipt, utan þeir lofi sem næstir standa arfi. En ef meira er heiman gefit, þá jafnist þat, þá er arfr tæmist. En ef arfr vinnst eigi til leggi aptr til jafnaðar hver sem mera ihafði heiman en lög vátta. (R. B. H. K. Svá er staðfest, at þar sem maðr festir sèr mey eðr konu at guðs,

lögum ok beggja þeirra samþykki, þá eru þau börn öll, sem hann á með þeirri konu lögliga til arfs komin, hvárt sem þau eru getin fyri festing eðr eptir, utan þau sem í hórdómi hafa getin verit. En sú er ein löglig festing eptir því sem forn lög vátta, en engi önnur, er maðr tekr í hönd mey eðr konu, at nærverendum skilríkum vitnum, ok festir hann hana með þeim orðum sem þar til heyra. En hverir sem annan veg binda sinn hjúskap, þá skulu þeirra börn eigi löglig til arfs vera.

## 2. erfð.

Sú er önnur erfð, er tekr ættleiðingr sá, er með lögum er til arfs leiddr, ok sonarson skilgetinn, þó at faðir hans sè eigi skilgetinn, ok sonardóttir skilgetin, ef faðir hennar er skilgetinn, ok dóttursson skilgetinn, ef móðir hans er skilgetin, sinn fjórðung hvert þeirra, bæði í landi ok lausum eyri. En þó at sonardóttir sè ein, en þeir allmargir, þá tekr hún þó fullan hlut viðr þá. Nú þó at einn sè þeirra til, en þau allmörg, þá tekr hann þó fullan hlut við þau, þó at fleiri sè í ættkvíslinni annari. En ef eitt er þessara til, þá tekr þat þann arf allan. (R. B. H. K. Svá ok er nú staðfest, at ættleiðings son skilgetinn tekr næst eptir ættleiðing ok þá sem honum standa jafnframt til, þann arf, sem ættleiðingr var til leiddr at lögum, ef hann er andaðr. Svá er ok skipat, þó at sonarsynir sèu tveir eðr fleiri, þeir sem faðir þeirra var skilgetinn, þá taki þeir eigi meiri arf en faðir stóð til, ef þeir eiga við þá at skipta, sem jafn-

framt þeim standa til). Nú ef þessir eru engir til, sem fyr voru taldir, þá tekr dótturdóttir skilgetin, ef móðir hennar er skilgetin.

## 3. erfð.

Sú er hin þriðja erfð, er bróðir verðr bróður arfi, ok eru þeir samfeðra ok skilgetnir. En ef bróður missir, þá tekr systir samfeðra skilgetin. Nú er systir eigi til, þá tekr móðir skilfengin arf eptir barn sitt. En ef hún er eigi til, þá tekr frillu sonardóttir skilgetin ok frillu dótturson skilgetinn. Nú eru þau eigi til, þá tekr frillu dótturdóttir skilgetin. En ef hún er eigi til, þá tekr móðurfaðir ok föðurmóðir skilfengin. En ef hvárki er þeirra til, þá tekr moðurmóðir skilfengin.

## 4. erfð.

Sú er hin fjórða erfð, er tekr föðurbróðir skilgetinn, samfeðra[1] ef faðir hans er skilgetinn, ok bróðurson skilgetinn, af samfeðra[2] bróður kominn, ok var hann skilgetinn, ok bróðir samfæddr skilgetinn, ef móðir hans er skilgetin, sinn þriðjung hver þeirra ef allir eru til. Skal æ sá fyrri taka arf, er skilgetinn föður á eðr skilgetna móður, hvárt sem heldr leiðir hann til þess arfs faðir eðr móðir, þá hinn næst jafnskildr, þó at faðir hans sè frilluson eðr móðir frilludóttir. En ef föðurbróðir er einn, en bróðursynir fleiri, skal hann einn taka jafnt við þá. Nú er bróðurson einn, en föðurbræðr fleiri, þá skal hann

1) Aðrar: samfæddr. 2) samfæddum.

einn taka jafnt við þá alla. Sama mál á bróðir sammæddr, ok svá skal hvervetna upp héðan, at jafnmikit skal taka hverr einn í sína ættkvísl, þó at allmargir sè í aðra ættkvíslina til síns hlutar. En ef einn er þessara til, sem nú váru taldir, þá tekr sá arf allan. Nú er engi þeirra til, sem áðr eru nefndir, þá tekr föðursystir skilgetin samfeðra, ef faðir hennar er skilgetinn, ok bróðurdóttir skilgetin, af samfeðra[1] bróður komin, ok var hann skilgetinn, ok systir sammædd skilgetin, ef móðir hennar var skilgetin, sinn þriðjung hver þeirra með fyrra skilorði. En hvervetna þar sem óðalsjörð er í skipti, þá skal þat óðal taka þat sem til er borit, en hinn lausafè[2].

## 5. erfð.

Sú er hin fimmta erfð, er tekr móðurbróðir skilgetinn, samfeðra[3] ok systurson skilgetinn af samfeðra[4] systur kominn. En ef þeir eru eigi til, þá tekr móðursystir skilgetin samfeðra ok systurdóttir skilgetin, af samfeðra systur komin.

## 6. erfð.

Sú er hin sjötta erfð, ef bræðrasynir takast arf eptir skilgetnir, ef feðr þeirra eru skilgetnir ok samfeðra. Þá þeir þar næst, þó at feðr þeirra sèu frillusynir. En ef þeir eru eigi til, þá taka bræðradætr skilgetnar með fyrra skilorði. Nú eru þær eigi til, þá taka systkynasynir skilgetnir. Nú eru þeir eigi til, þá taka systkynadætr skilgetnar. Nú eru þær

[1]) samfæddum. [2]) þessa seinustu klausu vantar í sumar bækr. [3]) samfæddr. [4]) samfæddri.

eigi til, þá taka systrasynir skilgetnir. En ef þeir eru eigi til, þá taka systradætr skilgetnar af samfeðra systrum komnar. Nú er engi þessara til, sem fyr eru taldar, þá tekr frilluson einn eðr fleiri, ef til eru, ok eigi í hórdómi getnir eðr frændsemisspjöllum eðr sifjaspjöllum nær meir en lofat er at lögum. (R. B. H. K. En ef engi er þeirra til, þá tekr móðir óskilfengin arf eptir barn sitt, þat sem hún gat í frillulifnaði, ok eigi í hórdómi getið eðr sifaspjöllum. En ef hún er eigi til, þá tekr frilludóttir svá til komin sem segir um frilluson.

## 7. erfð.

Sú er hin sjöunda erfð, er tekr föðurbróðir skilgetinn sammæddr, ok bróðurson skilgetinn af sammæddum bróður kominn. Nú eru þeir eigi til, þá tekr föðursystir skilgetin sammædd, ok bróðurdóttir skilgetin af sammæddum bróður komin.

## 8. erfð.

Sú hin áttunda erfð, er tekr móðurbróðir skilgetinn, sammæddr, ok systurson skilgetinn af sammæddri systur kominn. Nú eru þeir eigi til, þá tekr móðursystir skilgetin, sammædd ok systurdóttir skilgetin af sammæddri sýstur komin; verðr hvár annarar arfi. Ok svá er hvervetna þar sem tveir eðr fleiri standa til eins arfs, ef engi er sá til, er áðr er taldr.

## 9. erfð.

Sú er hin níunda erfð, er maðr tekr arf eptir bræðrungsbarn sitt, af samfæddum komnir, nema

manni skyldari finnist, því at í þessari erfðinni nemr hinn nánari. Þar næst tekr jafnskyldr af systkynum kominn, ok taki æ fyr í karlegg en kvennlegg. En ef þeir eru eigi til, þá tekr maðr arf eptir systrungsbarn sitt.

## 10. erfð.

Sú er hin tíunda erfð, er taka þeir menn, sem eru eptir bræðrabörn, skilgetnir, ok komin af samfæddum. Nú eru þeir eigi til, þá taki þeir, sem eptir eru systkynabörn, skilgetnir. Ef þeir eru eigi til, þá taki þeir menn, sem eptir eru systrasynir skilgetnir. Þar næst þeir, sem eptir eru systradætr, skilgetnir þriðja manni at frændsemi, ok tekr æ fyr jafnskyldr karlmaðr en kona.

## 11. erfð.

Sú er hin ellefta erfð, er takast bræðrasynir arf eptir skilgetnir, ef feðr þeirra eru sammæddir ok skilgetnir. Þá hinir næst, þó at feðr þeirra sèu frillusynir. En ef þeir eru eigi til, þá taka bræðradætr skilgetnar með sama skilorði. Nú eru þær eigi til, þá taka systkynasynir skilgetnir, þá systkynadætr, þá systrasynir, þar næst systradætr skilgetnar af sammæddum systrum komnar.

## 12. erfð.

Sú er hin tólfta erfð, er maðr tekr arf eptir bræðrungsbarn sitt, af sammæddum feðrum[1] komnir, nema manni nánari finnist, því at hèr nemr hinn nánari. Þar næst tekr jafnskyldr af sammæddum

[1]) Aðrar: bræðrum.

systkynum, þá af systrum komian. Þar næst tekr maðr arf eptir systrungsbarn sitt, þá taka þeir, sem eptir eru bræðrabörn, skilgetnir af sammæddum komnir. Þar næst þeir, sem eptir eru systkynabörn skilgetnir, fyr í karllegg en kvennlegg. Þar næst þeir, sem eptir eru systrabörn, þrímenningar at frændsemi, taki fyr jafnskyldr karlmaðr en kona.

## 13. erfð.

Sú er hin þrettánda erfð, er tekr frilluborinn sonarson. En ef hann er eigi til, þá tekr sonardóttir frilluborin. Nú er hún eigi til, þá tekr dóttursou frilluborinn. En þar næst dótturdóttir frilluborin; þá tekr bróðir samfeðra; þá tekr bróðir sammæðri; þá systir samfeðra [1]; þar næst systir sammædd frilluborin [2]. Nú er hún eigi til, þá tekr föðurbróðir ok bróðurson fyrri samfeðra en sammæðra; þá hinir næst. Nú eru þeir eigi til, þá tekr föðursystir frilluborin ok bróðurdóttir með sama skilorði. Þar næst móðurbróðir ok systurson; þar næst móðursystir ok systurdóttir. En ef eigi þær eru til, þá taki bræðrungar; þar næst systkynabörn; þá systrabörn, fyrri karlmaðr en kona. En ef þessara missir allra, þá taki þeir sem at fjórða manni eru at frændsemi, nema nánari finnist skilgetnir. En ef engi er til fjórmenningr at frændsemi eðr nánari skilgetnir, þá taki frilluborinir. Tekr maðr þá fyrst arf eptir bræðrungsbarn sitt, nema manni skyldari finnist. Þar næst jafnskylt af systkynum, þá af sýstrum. Skal sá æ fyrri arf taka, er af samfædd-

[1]) samfædd. [2]) Aðrar: allir frilluborinir.

um er; þá hinn næst frilluborinn; þessu næst þrímenningar frillubornir, þar næst manni skyldari; þá fjórmenningar frillubornir fyr en undir konung gangi.

## 14. Ef kyn manns er villt.

Ef sá maðr tekr arf eptir mann, sem menn hyggja rèttan erfingja, ok prófast kyn annarstveggja þeirra annat síðar sannara, þá skal hann greiða erfingja, er þat prófast, fè þat allt sem hann tók í eignum eðr lausafè, utan landskyldir eðr annan ávöxt. Ok svá skal hvervetna þar sem aðrir taka fyr arf en eigandi rèttr, ok þeir þóttust eiga, fyri því at kyn hins var villt.

## 15. Um ættleiðing.

Nú má maðr bæta ráð sonar síns ok leiða hann í ætt, ef hann vill, ef sá játar sem arfi er næstr. Nú á hann sonu skilgetna til arfs síns, þá má sá hverr játa fyri sik, sem hann er 20 vetra gamall eðr eldri, en ekki fyri þá sem óalnir eru eðr yngri en tvítugir. (R. B. H. K. Má ok sá engi maðr játa arfi undan sèr sem hann er yngri en tvítugur. En sá er tvítugr, sem hann hefr 20 jólanætr hinar fyrstu). Tekr ættleiðingr þá slíkan rètt[1], sem sá stóð til, er játaði arfi. Nú skal sá sem mann ættleiðir, ok sá er játar arfi, ok sá sem ættleiddr er, ganga allir samt fyri kirkjudyr, ok halda allir á einni bók; þá skal sá maðr, er ættleiðir, svá mæla. Ek ættleiði þenna mann N. til fjár þess, sem ek gef honum til gjalds

[1]) Aðrar: arf.

ok til gjafar, til sess ok til sætis, ok til alls þess rèttar, sem ættleiðingr á at hafa eptir lögum. Svá skal konu ættleiða sem karlmann. Nú má leiða bróðir bróður í ætt, ok föðurbróðir bróðurson. Svá megu ok fleiri menn mann í ætt leiða sem nú var talt. Ok svá má kona ættleiða sem karlmaðr, ef sá játar, sem arfi er næstr, ef hann er fulltíða ok lögráðandi[1]. Nú skal hann þat fè allt hafa, sem hann er til leiddr eptir lögum, á meðan þeir lifa, er ættleiddu hann, allt til þess, er arf ber undir hann. Síðan ber arfr honum vitni um aldr ok æfi. Hann er ok skyldr at færa fram alla þá ómaga, sem lögkomnir eru áðr á þat fè. Hann er ok skyldr at lýsa ættleiðing sinni, sinn á hverjum 10 vetrum til þess hann tekr arf. En hverr sem öðruvis er ættleiddr en nú er mælt, þá er sem ógjört sè ok skal eigi haldast.

## 16. Ef maðr vegr mann til arfs.

Ef maðr verðr fyri þeirri villu at hann vegr mann til arfs, eðr ræðr manni banaráð framkomin, þá hefr hann fyrivegit þeim arfi; en arfr sá fari síðan at rèttum erfðum, sem sá væri engi til, er mann vegr til arfs.

## 17. Um arfskipti bráðdauðra manna.

Ef menn falla í orrustu, ok kemst engi í burt, eðr drukkna allir, eðr inni brenna, eða verða fyri skriðum, fari arfr þeirra sem þeir hafi allir senn látið líf sitt, nema annat prófist síðar með lögligum vitnum.

[1]) Aðrar sleppa: ef hann er fulltíða ok lögráðandi.

## 18. Hversu fara skuli fèskipti eptir dauða menn fèlitla.

Þat er nú því næst, at engi má gefa arf undan öðrum, utan þær gjafir, sem síðar skilr. Vèlakaup skal at vettugi hafa. Engi skal öðrum arfsvik gjöra. Nú er maðr dauðr, þá skal arfi í öndvegi setjast, ok gjöra skuldarmönnum stefnu[1], at þeir komi þar allir at sjöund, ok hafi hverr sína skuld í burt, slíka sem vitni bera honum. En ef eigi er fè svá mikit, þá skulu allir þarfnast svá sem tala rennr til. Sá skal meira þarfnast, er meira átti fè at honum. En sá er eigi kemr at sjöund, sæki sitt at lögum ok með váttum, ok stefni erfingja til váttasögu, ef fè er til. En þeir sem fyri nauðsynja sakir koma eigi at sjönnd, ok er fè eigi meira en hinir hafa tekit er fyrri komu, þá gjaldi þeir aptr er fyrri tóku, ok missi allir sem tala rennr til. En erfingi sè viðskildr, ef hann bauð til at lögum.

## 19. Hversu fara skal um ómaga eyri, ok mála konu.

Nú er þar ómagá eyrir í garði ok máli konu, þá er vel, ef þeim vinnst báðum fè. En ef þeim vinnst eigi báðum fè, þá skal hún þarfnast gagngjalds ok gjafar. En ef eigi vinnst fè í alla staði, þá skal sá næst þarfnast, er mest átti fè at honum, svá kona hans sem aðrir skuldunautar. Tölu skal hafa til þess, nema maðr ætti veð í einhverjum grip, þá á hann þann fyrst at hafa. Heldr skal kona þarfnast tilgjafar sinnar, en þeir menn sem

[1]) Aðrar bæta við: er skuldir eiga at hinum dauða.

fyr útan fè at honum en hann fèkk hennar, því at engi skal sèr konu kaupa með annars fè. Nú skal hún hafa heimanfylgju sína, en ómagi fè sitt. Nú er eigi fè svá mikit' þá missi svá hvárttveggja sem tala rennr til eptir fjármagni. Engi á skuldir at gjalda eptir þann, sem hann tekr ekki fè eptir, hvárki sonr nè annarr maðr. Nú eigu hjón fèlag saman ok deyr annáttveggja þeirra, þá skal at helmingi hvárt þeirra skuldum gegna. Svá skal ok ómögum þeim skipta, er þau hafa með arftaki eðr með fúlgu tekit á fèt. En ef þeir ómagar hafa komit á fèt, sem hann var arftaki eptir, ef þeir ætti fè eptir, þá skulu þeir arfi fylgja æ meðan sá arfr vinnst. Síðan hverfi þeir ómagar til þess, sem þá á fyri lagasakir fram at færa þá.

## 20. Hverr varðveita skal ómaga ok fè hans.

Ef sá maðr andast, er hann á börn í ómegð, þá skal sá veita vörð börnum ok fè, sem arfi er næstr, hvárt sem heldr verðr fjárhaldsmaðr, karlmaðr eðr kona. Hann skal láta virða þat fè allt 6 skynsama menn, ok hafa vitni til, við hverju hann tekr. Hann skal þar engu af lóga[1] áðr virt er, nema hinn dauði hafi bú átt, ok þurfi í búit at kaupa annathvárt hey eðr mat, þat skal hvárttveggja kaupa ef þarf. Fjárvarðveizlumaðr er eigi skyldr at taka við ábyrgð á búnaði fyr en at næstum fardögum eptir, er hinn er andaðr. Fjárvarðveizlumaðr skal eigi færa fè ómaga úr fjórðungi, nema hann fái

[1]) Aðrar: leyna eðr af lóga.

fullan vörðslumann þann, er þar eigi jarðir ok lausagóz, at þar sè fè goldit sem hann tók, þá er ómagi er rèttnæmr, utan fè sè í fleirum fjórðungum, þá má fjárhaldsmaðr þangat færa at ósekju sem mest er fè, eðr þangat sem jarðir eru. Nú ef síðan ber arf eðr rèttarfar undir hinn unga mann, eðr kemr hvalr á reka hans, þá skal þat virða, ok er innstæða því meiri. En ef hann sèt í óvirðan ómagaeyri, þá skal hinn ungi maðr hafa fè sitt svá mikit sem hann fær vitni til, ok allan ávöxt á fè sínu. Nú hefr hann eigi vitni til, leggi hinn fram slíkt fè sem hann vill, ok sveri fullan eið, at þá hefr hinn ungi maðr allt slíkt er hann á, ok 2 skilríkir menn með honum.

## 21. Hversu mikit fè skal standa fyri ómaga.

Nú virðist þar fè svá, at þar er innstæðueyrir, full fimm hundruð fyri ómaga hvern, í jörðu eðr því fè, er hann má vöxtu eðr nytsemd af hafa; vel er ef meira er, þá skal hann þat fè taka. Skal þat fè hvárki vaxa nè þverra, gjaldi slíkt sem hann tók, nema ómagi eigi svá miklar jarðir eðr lausagóz, at frændum hans virðist hann harðlega haldinn af þeim forlagseyri, sem fyr skilr, þá skal ætla honum klæðaverð, ok vel at halda hann, ok þeim fyri starf sitt, er fjárhald hans hefr, svá at hann sè vel haldinn af; ok á þá ómagi allan ávöxt fjár síns. En frændr hans hyggi at á hverjum tólf mánuðum, hversu með fè er farit, ok fái öðrum ef sá dugir eigi til með fullum vörðslum er áðr heldr,

ok at sá leggi fullar vörðslur í móti er við tekr. En sá á fullar vörðslur, er jafmikit fè á skuldlaust, sem ómaginn á, sá er fjárhald þarf. (R. B. E. K. Erfingi á kost á at halda ómaga eyri, ef hann vill, þó at hann eigi minna fè en ómaginn á, ef skynsömum mönnum virðist hann óhættr skuldunautr). Nú eru ómagar aðrir á fènu, þá skulu þeir neyta ávaxtanna, nema þeir verði minni, þá skal minnkast innstæðan. En ef faðir eða móðir, bræðr eðr systr koma á fè hins unga manns, ok ef hann er arftökumaðr þeirra, eðr þeir hans, ef þau ættu fè eptir[1], þá skal ætla honum forlagseyri, þar til hann er 16 vetra gamall, en þau hafi sèr til atvinnu sem þau þurfa þat sem auk er. En eigi er fjárhaldsmaðr skyldr at taka aðra ómaga, en nú eru taldir á fè hins unga manns, meðan hann á fjárhald hans.

## 22. Um ómaga eyri.

Nú ef vinnst innstæðueyrir til 5 hundraða, þá skal ómagi neyta 10 aura á 12 mánuðum hverjum þar til hann er 16 vetra gamall, þá er hann matlaunamaðr. Síðan skal þat minnka innstæðu, sem við leigu þarf at leggja til þeirra 10 aura, er fyri ómaga skal leggjast á hverjum 12 mánuðum. Nú þó at ómagi eigi ekki annat fè en jörð þá, er tíu aurar takast af í landskuld, þá skal þó ekki minnkast innstæða. En sú virðing skal standa um jarðarleigu, sem hit fyrsta ár var virð., hvárt sem leiga vex eða þverr. Fjárhaldsmaðr skal eigi selja öðr-

[1]) Sumar sleppa: „eðr þeir hans . . . . fè eptir“.

um fè at halda. En ef hann selr öðrum manni fjárhald ómagans í hendr, þá á hinn ungi maðr heimtu fjár síns at hverjum, er hann vill, fjárhaldsmanni sínum, eðr hinum, er af honum tók. En ef maðr lætr ómaga eyri lausan, nema dæmdr sè úr hendi honum lögliga, þá skal hann setja sitt fè í veð fyri. Nú ef bóndi er dauðr, en kona hans lifir eptir, ok er eigi fè meira en hún á at hafa, þá skal hún veita vörð börnum sínum fèlausum. En ef hún á önnur börn, þá hverfi þau til föðurfrænda sinna eptir lögum.

## 23. Hversu um arfa skal fara, ef erfingi er eigi nær.

Hvervetna þar sem maðr andast, ok er erfingi eigi nær at kalla til arfs, þá skal sá arfr standa virtur í þess heimili sem arfr er at, þá er maðr er dáinn, með fullum vörðslum ok ávöxtum [1], þar til sem rèttr erfingi kemr til, eðr sá er með lögum á þess arfs viðtökumaðr at vera. Nú andast útlendr maðr hèr af Noregs konungs ríki, þá skal þann arf taka hèr til burtflutningar eptir hann hinn skyldasti frændi hans þeirra sem þá eru hèr. En ef óskyldari maðr tekr en þrímenningr, þá skal hann fullar vörðslur í móti fá, at sá arfr skal at skilum fara. Nú er engi frændi til, þá skal taka fèlagi hans arf, sá sem löglig vitni hefr til þess, at þeir áttu fèlag saman er hinn dó. Nú er sá eigi til, þá skal taka stýrimaðr. Eru þeir fleiri en einn, þá skipti þeir at jafnaði sín í millum. Skal allt þat fè virða sem eigi taka erfingjar við, hvárt

[1]) Aðrar sleppa: „ok ávöxtum".

sem þat er arfr eðr vígsbætr, eðr annat fè, ok flytja svá í hendr eiganda, ábyrgist at engu, en varðveiti sem sitt fè. Síðan skal erfingi umbuna honum fyri starf sitt, svá at hann sè vel haldinn af. Nú eru þeir engir til, sem áðr eru taldir, þá skal bóndi sá, sem hann er á vist með, taka þat fè virt ok ábyrgjast, ok hafa vöxtu af, þar til sem erfingi kemr eptir, eðr hans lögligr umboðsmaðr. Svá skal fara um arf danskra manna ok svenskra, ef þeir andast hèr. En af öðrum tungum en danskri skal engi maðr at frændsemi arf taka hèr, nema faðir, sonr eða bróðir, nema þeir hafi löglig umboð til. En ef engi kemr til innan 10 vetra[1], þá taki konungr þann arf allan at rèttu.

## 24. Um umboð at lögum ok fè þeirra, er útlands deyja.

Ef várr landi vill fara af landi í burt, þá skal hann fá umboðsmann til allra mála sinna, svara ok sækja, ok svá varðveita fè sínu því, sem hann á hèr á landi eptir. Skal þat umboð haldast 3 vetr, en eigi lengr, ok þó at þeir hafi lengri máldaga á gjörvan, þá sè sjálftekit umboð af, ok taki erfingi við. (R. B. E. K. Endrnýja má umboð at liðnum 3 vetrum, hvárt sem hann er utanlands eðr innan). Nú andast hann fyrri, þá eiga arfar hans við at taka, er þeir sannfrètta andlát hans. En ef umboðsmaðr tortryggir fráfall þess, er af landi fer, þá hafi arfi eins vitni til, þess er sverja vill, at hann hyggr þat satt vera. Nú ef várr landi andast

[1]) Aðrar: 5 vetra.

utanlands, hvar sem það er, þá skal sá maðr taka þat fè, er þar er, sem skyldastr er þeirra manna, er útferð eigu. Nú er engi frændi til, þá skal taka mötunautr hans til úthafnar, sá er út ætlar. En ef engi er sá til, þá taki sá maðr, er af þeim fjórðungi er, með fullum vörðslum, at sá arfr skal at skilum fara; hann skal enga mútu til þess gefa, ok engu af því fè lóga, nema því sem þarf til útferðar eptir þvílíkan mann, eptir siðvana, nema hann hafi sjálfr annat ráð fyri gjört. Hann skal láta virða þat fè 6 skynsama menn, þrjá íslenzka ok þrjá húsfasta norræna menn, nema eigi sèu íslenzkir menn til, þá virði húsfastir menn einir. Hann skal láta þar fè virða, sem mest er saman, ok færi eigi úr þeim garði áðr fè er virt. Með sama hætti skal hann láta virða þat fè, sem annarstaðar er. Skal allt virða til gangsilfrs, slíks sem þá fellr af konungs steðja. Hann skal verja því fè, sem óvarit var áðr, til þeirra hluta sem hingat er vart, ok geyma sem síns fjár, ok ábyrgjast at engu, ok hafi fyri starf sitt, þá er hann kemr út, svá at hann sè vel haldinn af, eptir 6 manna virðingu. En ef engi er sá til, sem áðr er taldr, þá skal garðshóndi hans taka það fè virt ok ábyrgjast sem sitt fè, ok hafa gagn af, þar til sem erfingi kemr eptir, eður hans lögligr umboðsmaðr, ok gjaldi honum þá slíkt fè, sem hann tók. Ef hvárki kemr til lögligr umboðsmaðr nè erfingi hins dauða innan 10 vetra, þá eignist konungr, þann arf allan. Nú andast maðr á Saxlandi, eðr sunnar á Englandi, eðr í eyjum vestr, eðr í Dýfl-

inni, þá er maðr eigi skyldr at láta virða þat fè fyr en í Noregi. Nú er þar nánari maðr fyri, þá skal sá taka við fènu, ok flytja til erfingja, en hinn skal hafa afla þann, sem á er orðinn, hvar sem hann tók fèt.

## 25. Hversu arf skal sækja at lögum.

Arf skal sækja í þeim fjórðungi, sem arfr er dáinn. En ef maðr leiðir vátta í öðrum fjórðungi en arfr er dáinn, þá hefr hann þeim fyri skotið. Nú sitr maðr í arfi ok leggr dóm fyri, en annar kallast til kominn at lögum, þá skal sá stefna hinum heimstefnu rètta, ok krefi hann arfs ok úrfarar, er í sitr. Nú vill hann eigi úr arfi fara, þá skal hann stefna honum þing fyri rán ok ísetu, ok ef þá fullnast honum vitni ok gögn öll til síns máls, ok kemr eigi andvitni í móti, þá eiga þingmenn honum arf at dæma, en hinn skal gjalda konungi 6 aura fyri þat hann lagði dóm fyri arf þann, er hann átti ekki í. Nú vill hann eigi úr arfi fara, þá skal hinn æsta sèr þingmenn liðs, svá at hann sè full-liða at færa hann úr arfi sínum. Sekr er hverr, eyri við konung, er honum synjar tilfarar. Nú koma þeir þar, ok ver hann arf oddi eðr eggju, þá er hann sekr 10 mörkum við konung, en hinn hverr sekur 6 aurum við konung, er forstöðu veitir með honum. Nú berjast þeir, þá er hverr útlægr, sá er fyri stendr arfi dæmdum, en hinir allir friðhelgir, er til sækja.

## 26. Um arfsókn.

Hvervetna þar sem maðr kallar eigi til arfs fyri

fáfræði sakir, ok er þó til kominn[1], þá hafi hann sóttan arf sinn innan 10 vetra, þeirra sem hann er innan lands ok úr ómegð, ef hann hefr vit til[2], nema skyld nauðsyn banni. Nú eigu menn arfi at skipta, þá er vel ef þeir koma allir til, er hlut eiga í at skipta þeim arfi. Nú koma sumir, en sumir vilja eigi fara, þá skal gjöra þeim stefnu til at skipta, ok þó at þeir komi þá eigi til, þá skal skipta fyri váttum, ok hluti á leggja; þá skal hann þann hlut hafa, er þá hlýtr hann. Nú kallar hann misskipt, eðr segir at hinn hafi leynt fè, þá skal hann synja með lýrittareiði.

## 27. Hversu maðr skal ryðja sik til arfs.

Nú leikr á tveim tungum, hvárt maðr er arfgengr eðr eigi, þá skal hann stefna þeim þing, er honum stendr fyri arfi; þá skal hann njóta vátta sinna, at hann stefndi honum þangat, þat skulu ok svá váttar hans bera. Vèr várum þar í hjá, at móðir hans var fest lögliga í þeim stað, ok nefni staðinn. Þá eiga þingmenn honum arf að dæma. Hvervetna þar sem maðr vill sik til arfs færa, leiði vátta sína til, ok stefni þeim öðrum til, er þeim arfi eru næstir, en ef hann stefnir honum eigi til, þá er váttum hans fyri skotið. Þar skal um arf dæma sem arfr er dáinn eðr jarðir eru, eðr bú hins dauða. (R. R. H. K. Ef annathvárt hjóna kann frá at falla, þeirra sem 10 vetr eðr lengr hafa saman verit, ok hafa þau jafnan haldið sik fyri löglig

[1]) Aðrar bæta við: at lögum. [2]) Aðrar bæta við: ok vitni.

hjón, þó at hjúskapur þeirra hafi ekki verit skilríkilega lýstr eðr ámálgaðr, ok eigi heldr byggðarfleygt verit meðan þau lifðu bæði, at hún væri hans frilla eðr hórkona, þá skal barn eðr börn eptir verandi í arf setjast ok haldast fyri skilgetin, þó at eigi lifi festarváttar). Engi maðr skal fè skipta eðr arfi eptir annan, fyr en þess er leyfi til, er áðr á, nema menn sjái at með spjöllum fer. En ef maðr hefr vit til, ok er hann hestfærr ok ölfærr, ok má hann ráða búi sínu ok kaupum, þá skal hann sjálfr fè sínu ráða, ok má því engi maðr skipta. En þótt nokkurr skipti; þá skal þat ekki haldast.

## 88. Hverjar gjafir haldast mega at lögum.

Nú skal þær gjafir telja, er haldast mega. Þær gjafir skulu haldast, sem konungr gefr oss, eðr vèr gefum honum. Gefa má maðr ok vingjafir at sèr lifanda, hest eða yxn, vápn eða þvílíka gripi, svá ok klæði, ok afsifjar hann sèr, þó svá, at 6 skynsömum mönnum virðist eigi arfsvik gjör við erfingja. Ok ef svá er gefit, þá má þá gjöf engi maðr rjúfa. En ef hinn heitir launum fyri, þá má þat heimta. Hverr maðr má gefa fjórðungs gjöf af fè því öllu, sem honum hefr aflazt, svá at meira er en hann hefr at erfðum tekit, bæði í landi ok lausum eyri, hvárt sem hann vill börnum sínum skilgetnum eðr öðrum mönnum, einu ef hann vill þat; en tíundargjöf af svá miklu fè, sem hann hefr at erfðum tekit bæði í landi ok lausum eyri, þó at hann spyri ekki erfingja at, hvárt sem hann er heill eðr sjúkr,

ef hann mælir af viti. En af fjórðungsgjöf eðr tíundargjöf skal þat fyrst lúka, er maðr gefr guði fyri sál sinni, hverjum manni sem hann gefr löggjöf sína fyr.

## Hèr hefr framfærslubálk, hverir ómaga eiga með lögum fram at færa.

**1. kap.** Hverr maðr á fram at færa föður sinn ok móður, hvárt sem hann er skilgetinn eðr frilluborinn, ok svá börn sín. Nú á hann eigi svá fè, at hann megi annast þau, þá skal hann þó til leggja allt slíkt sem hann þarf eigi til matar sèr ok klæða, ok sèu þau færð með þessu tillagi þeim á hendr, er þá er næstr arfi ok forlagseyri á til. Ef maðr á sèr tveggja missera björg, ok þeim er áðr eru á fènu, þá skal hann framfæra systkyn sín, ef hann á ok fyri þau tveggja missera björg, er þá bjóðast á fèt, ef þau eru hans arfar, eðr hann þeirra arfi. Frá þessum ómögum skal maðr ekki seljast arfsali, ok engum þeim er áðr eru komnir á fèt, eðr hann er arftökumaðr eptir, eðr þeir hans, ok sèu þeir þá ómagar. En þó at hann selist, þá skal þat eigi haldast, ok segja lög þat arfsal laust. En þá er tveggja missera björg, er hálft fjórða hundrað er ætlat karlmanni, en hálft þriðja hundrað konu, hvárt sem maðr er ungr eðr gamall. Þegar skal honum fullan forlagseyri ætla, er hann má eigi vinna sèr fulla fæðu, þó at hann megi nokkut til gagns vinna þeim er hann er með. En ef ómagar eru firnari, þá skal sá framfæra, er arfi þeirra er næstr, ef hann á forlagseyri til. Nú þarf

sá maðr framfærslu, er óskyldari er en fyr segir, eðr þrímenningr ok þar í milli, þá skal ætla honum fjögra missera björg. En, ef ómagi er óskyldari en þrímenningr, þá skal ætla honum 6 missera björg. En ef ómagi er fjórmenningr, þá skal ætla honum 8 missera björg, svá mikit á hverjum 12 mánuðum sem fyr segir, bæði þeim, er fyrir eru á fènu, ok svá þeim er þá kemr á fè. Skal allt til virða utan búsgögn ok verkfæri, ok einföld klæði bæði dag ok nátt. Nú er nokkurr þessara arfi annarshvárs sín í milli, þá skal eigi meiri forlagseyri fyri þeim standa, áðr hann er skyldr þann fram at færa en fjögra missera björg, þar minni sem fyr segir. Nú minnkar forlagseyrir fyrir manni, síðan ómagi kemr á hendr honum, þá hverfi ómagar af fè hans eptir rèttri tiltölu, þeir fyrst sem óskyldastir eru. (R. B. E. K. Eigi skal ómaga telja framar en á þess fè hjóna, sem ómaginn er skyldr, ok hverfi af fènu, þegar hann er 16 vetra, ef hann er heill ok verkfærr).

## 2. Um hjóna framfærslu sín á milli, ok um þrot.

(R. B. H. K. Skylt er hvárt hjóna annat fram at færa á fè sínu, hvárt hjóna sem þat er, at framfærslu þarf, verðr óðt eðr fær annan krankleika. En ef þau hafa með minna fè saman komit en þau ættu til þriggja hundraða bæði saman, ok aldri urðu þau svá rík, at þau ættu konungi skatt at gjalda, þá sè hvárt annars handbjargar ómagi, eðr flytist með hrossi, ef þau fá eigi fyri unnizt, ok þeirra

börn skulu eigi á hreppa segjast, æ meðan þau fá flutt með fyrra skilorði. Þar skal þrot heita sem ómaginn er, þá er sá andast frá, er með handbjörg sinni átti ómagann fram at færa, eðr fyr sögðum flutningi). Nú sækir þrot bónda í hèraði, þá skal skipta ómögum þeirra[1] eptir því sem fèlag þeirra var gjört. Skal móðir færa ómaga sína á hendr frændum sínum þeim er arfi eru næstir, ef þeir eiga fè eðr forlagseyri til svá mikinn sem fyr skilr. En ef af gengr forlagseyri af því fè, þá skal hann taka ómaga svá marga sem hann á forlagseyri til. En þeir sem um fram eru, fari þeim á hendr, sem arfi eru næstir, ef þeir eiga forlagseyri til. En ef sá á eigi forlagseyri til, þá skulu ómagar fara fram í ætt, til þess er á forlagseyri hittir. Svá skal ok fara um þá ómaga, er fyrri talaði um, at þeir skulu fara fram í ætt. Með sama hætti skal ok skipta þeim ómögum, er feðrum fylgja. Nú festir maðr ómaga í vist, þá skal það haldast. En ef hann vísar honum úr vist, ok lætr hann ganga á fátæki bæja í milli, þá ska hann gjalda konungi 6 aura, ok varðveita þá ómaga sem mælt er. Svá skal ok hverr gjalda, sá maðr er ganga lætr sinn ómaga á fátæki bæja í milli, sem nú var skilt. En eigi er maðr skyldr at fæða eðr fúlgu fyri at inna, fyr en hann veit at hann er hans ómagi. Svá skal ok ómögum í ættir skipta, ef annathvárt hjóna er andað.

---

[1]) Aðrar: hans.

## 3. Hversu menn skulu skipta félausum ómögum.

Nú skipta menn félausum ómögum sín í milli, hvar sem þeir skipta, ok hluta síðan, þá skal þat skipti haldast þeirra í milli síðan, með hverjum sem andast, þá skal þat þess nyt. Svá þó at meiri ómagar verði en þá er skipt var, þá ábyrgist sá þat er hlaut. Þeir skulu örfum fylgja, ef sá er ómagi er fé á.

## 4. Hversu gamall maðr á fjárhald sitt.

Ef maðr kemr í ómagaskipti, þá er hann er úr ómegð, ok er hann þá 20 vetra gamall, ok á, at taka við fé sínu ok fá fjárhald sitt hverjum er hann vill, ef hann kann eigi sjálfr fyri at sjá, ok svá öll önnur forræði fjár síns. En ef karlmaðr kvángast yngri en tvítugr, fyri utan frænda sinna ráð, hafi fyri gjört landskyldum sínum, ok öllum ávexti fjár síns, við erfingja eðr fjárhaldsmann. Nú kemr sá ómagi á hendr manni, er hann á eigi at varðveita, þá skal hann þeim heim stefna, er varðveita á. Svá skulu váttar hans mæla: Hèr er sá ómagi, er þú átt fram at færa, en eigi sá er hingat færði. Þá skal hann fela honum á hendr ábyrgð þess ómaga. (R. B. H. K. Eigi skal þurfa at lögbjóða ómaga fleirum en einum, utan sá sýni með skilríki í lögligan stefnudag, at nokkurr standi jafnframt honum þeirra, sem fullan forlagseyri eiga. Skal þat þá ekki dæmast framar á hann, en eptir rèttri tiltölu). Nú kemr ómagi á hendr manni ut-

an lögmanns úrskurð eðr þingmanna dóm, gjöri hvárt er vill, láti fara aptr á hæl ella til þings, ok meti þingmenn hvert færa skal. En ef á hæl færir, flyti aptr á sömu náttstöðum sem þangat fór til hans. Sekr er hverr eyri við konung, er eigi vill við taka. Nú sá er eigi vill við taka, bæti eptir lagadómi fullar bætr, ok svá þegn, ef hinn deyr af bjargleysi. (R. B. E. K. Ef maðr rangfærir ómaga, gjaldi þeim fullan kostnað, er til var færðr, allan slíkan sem hann hafði fyri). Nú eigu menn ómögum at skipta ok vill annarr skipta en annarr eigi, þá skal sá, er skipta vill, stefna hinum til ómagaskiptis, ok ef hann kemr þar, þá er vel. En ef hann kemr eigi, þá leiði hann vátta sína, at hann hefr honum þangat stefnt á þann dag. Síðan skipti 6 skynsamir menn þeim ómögum, ok leggi hluti á, ok hafi hann sinn hlut í burt, en ábyrgi hinum sinn hlut, er eigi kom til.

## 5. Um ómaga framfærslu, ok ef hann á fè eptir.

Ef maðr færir fram þann ómaga, er hann er skyldr til fyri laga sakir, þó at annarr sè erfingi, ok beri síðan arf eðr rèttarfar undir þann ómaga, eðr með hverjum hætti honum aflast fè. Ok ef sá á fè eptir, er fram er færðr, þá er hann andast, þá skal sá er ómagann færði fram, eðr þess erfingi, taka ávaxtarlaust slíkt sem hann lagði fyri hann, en erfingi slíkt sem auk er. Nú veitir maðr manni fyri guðs sakir, þeim er hann er fyri laga sakir eigi skyldr fram at færa, þá skal guð þat umbuna hon-

um, en koma eigi fè fyri hvárki við hann nè við hans erfingja.

### 6. Um börn útlenzkra manna hèr á landi.

Ef sá maðr á barn ómaga út frilluborinn hèr, er hann er norrænn eðr Hjaltlenzkr, Örkneyskr eðr Færeyskr, ok hvaðan sem hann er úr Noregs konungs ríki. Ok ef barn er fætt áðr hann fer í burt, eðr veitir hann viðgöngu, at hann er faðir þess barns, þó at þat sè síðar fætt, þá skal hann leggja eptir peninga svá at barnit hafi fulla hjálp sèr til fóstrs næstu 12 mánuði. Nú fæðist barn síðan hann er í burtu, ok hefr áðr ekki ráð fyri gjört, þá skal rita í þann kaupstað, er sá maðr sigldi af, er þat barn á, ok skal sýslumaðr, ráðsmaðr eðr gjaldkeri í þeim kaupstað, senda peninga móti því barni, ok svá fyri þann kostnað, er áðr hefr fyri því hafðr verit, af sjálfs hans fè, ok svá í móti því barni, er áðr var fætt. (R. B. H. K. Þat er staðfest í lögum, at allir þeir fátækir menn, sem með vánarvöl ganga ok þiggja ölmusu, eru skyldir at bera eðr leiða börn sín, eðr annan veg at flytja, eptir því sem skynsamir menn sjá at þeir fá orkat, ok svá föður sinn, ok móður, utan son eðr dóttir vinni sèr áðr tveggja missera björg, þá eru þau eigi skyld at ganga á fátæki meðr þeim, föður eðr móður.

### 7. Um flutning fátækra manna.

Fátæka menn þá alla, sem frændr þeirra hafa eigi forlagseyri fyri þá at leggja, ok sjálfir eiga eigi fè fyri sik at leggja, ok eigi eru færir at flytja

sik, þá er hverr bóndi skyldr at flytja þá ok fæða, eptir því sem hreppstjórnarmenn gjöra ráð fyri. Einvirki er skyldr at flytja sem fullr bóndi. Svá þarf fátækr maðr guðs sem hinn er meira á. Ok flyti eptir boðburð allir, hverr úr sínum bæ, sá fyrsti, sem fremstr sitr á boðleið, ok flyti til næsta bæjar. Sekr er hverr eyri við konung, ef hann flytr eigi svá. Nú flytr hann í auðn, eðr þangat sem hinn fátæki deyr af hans fylgd, eðr skynsömum mönnum virðist af hans völdum orðit hafa, ok svá ef hann vísar fátækum manni frá sèr, ok vill eigi herbergja hann, ok deyr hinn fátæki af því. Sá er at slíku verðr vitnisfastr, sem guð láti eigi verða, þá skal hann bæta þann mann fullum bótum erfingjum hins dauða, eptir dómi skynsamra manna eptir atvikum, ok svá konungi þegn, ok akti þeir er dæma innvirðiliga dóm sinn þar um, at slíkar óhæfur megi eigi í venju dragast. Nú vill hinn eigi við taka, er fyri sitr, eðr inn láta leiða, þá nefni sá vitni til er flutti, ok ábyrgi hinum síðan, er við skyldi taka, þá er hann við skildr. En ef hinum fátæka manni verðr síðan, annathvárt at hann deyr af frosti, eðr bíta dýr eðr hundar til bana, þá er þat þess bónda ábyrgð, er hann lèt úti liggja. Eigi skal fátæka menn flytja síðan sólu er sett. Sól skal um sumar ráða, en dagr um vetr. En þeir sem sik flytja sjálfir, hafi hús heimil á vetr þá er hálfrökkvit er. Sekr er hverr tveim aurum við konung, er synjar, nema hinn fátæki deyi úti, þá sè undir lagadómi, nema sjálfr hafi í fyrstu vísat sínum ómaga af hendi sèr, þá ábyrgist hann, ef

hann hefr fullan forlagseyri fyri hann: at leggja. Þat er ok einkanliga boðit, ef fátækr maðr verðr sjúkr, ok beiðist prestsfundar, þá er bóndi skyldr at fara eptir presti, ok flytja eigi hinn sjúka úr húsum sínum, fyr en prestr kemr til hans. Sekr er bóndi 3 aurum við konung, ef hann fer eigi eptir presti, nema nauðsyn banni. En ef prestr vill eigi fara, þá ábyrgi hann honum með vitnum. Nú skal fátæka menn herbergja um nætr, en reka eigi út síðan sólu sett. En ef nokkurr rýfr þessa skipan um fátæka menn, þá er sá slíku sekr, sem áðr váttar, ok gangi til skripta, ok bæti við guð, er hann vildi eigi hjálpa kristnum manni.

## 8. Um arfsalskaup at lögum.

Engi maðr skal kaupa arfvon at öðrum, því at optast verðr þat nokkur vèlakaup. En þó at nokkurr kaupi, þá skal eigi haldast nema sjálfur leysi sinn arf til þess at ættleiða frænda sinn, því at þann arf á hverr at hafa, sem guð vill at hann verði erfingi at. Seljast má maðr arfsali, ef hann vill, ef engi er sá ómagi, er hann á fram at færa, eðr fær þeim áðr staðfestu, með því móti, at 6 skynsamir menn gjöri þat kaup með honum ok þeim er við tekr, svá at þeim þykir eigi arfsvik gjör við erfingja. Og svá þó at aðrir gjöri eigi þat kaup með þeim, ef erfingi lofar, ok sè hann fulltíða maðr ok kaupum sínum ráðandi. En sá er arfsali vill seljast, skal fyrst bjóðast hinum nánustu frændum sínum við vitni við sèr at taka, þeim sem fullar vörðslur hefr, nema hann vill gefa

í klaustr, eðr til byskupsstóla, þá má hann gjöra þat, þó at hann bjóðist eigi frændum, ok svá þó aðrir gjöri eigi kaup ef erfingi lofar [1], ef hann staðfestir ómaga sína áðr.

## 9. Um löghreppa ok hreppstjórnarmenn.

Löghreppar skulu vera sem at fornu hafa verit. Eigi færri bændr í hrepp en 20. Skal engi þeirra eiga minna fè en 10 hundruð. Rètt er at skipta hrepp smærra til tíunda ok matgjafa ef þeir vilja. Fimm menn þá er bezt þykja til fallnir, skal nefna til at hafa stjórn ok forsjá fyri því er hreppnum varðar, ok at skipta tíundum öllum ok matgjöfum þeim er fátækir menn eiga, ok af heilagra daga veiðum. Þeim mönnum skal fyrst tíundir ætla, er enga eigu forlagseyri eðr framfærslumenn, ok eru þó þar hreppsmenn, síðan þeim, er þeim þykir mest þörf, ef betr vinnst. En þeir eru þar hreppsmenn, sem þar hafa uppfæðst eðr þar sem erfingi hans er vistfastr, þrímenningr eðr nánari. En ef þeir ómagar eru framfærslulausir, sem engan eiga þrímenning, eðr nánari, þann sem vistfastr er, þeir eiga jafnheimilan flutning sem fyr segir í öllum hreppum þar sem þeim þykir sèr mest hjálparvon. Ef ómagi er færðr á hendr manni, eðr settr niðr í hrepp at ólögum, eðr hvert annat mál er maðr þykist þings við þurfa, þá skal sá þingi ráða, er þings þykist þurfa. Þá skal þat boð hverr bera en engi fella, ok á þat at fara með vetrhúsum eptir boðburði rèttum, en eigi

[1]) „Ok svá þó — erfingi lofar" vantar í sumar bækr.

með sætrum. En sá er fellir sekr eyri við konung. (R. B. H. K. Ef fátækir menn skjóta niðr börnum sínum aflögliga[1], þá er rètt hreppstjóra þeim er næstr er, ok bændum með honum, at taka þann mann ok binda ok færa aptr, ok binda barn á bak honum ef þarf, ok láta hann sjálfan bera burt af hreppnum. Þeir menn sem eigi vilja halda þat sem hreppstjórar skipa lögliga, gjaldi hálfa mörk, hálft konungi, en hálft hreppstjórnarmönnum, ok leggist þat fè til fátækra manna.

## 10. Um boðburð.

Sá skal boð bera bæja í milli, er hyggja kann fyri orði og eiði. Bónda skal boð í hendr fá, ef hann er heima, en húsfreyju hans, ef hann er eigi heima, syni hans, ef hann er fulltíða maðr, dóttur hans, ef hún er vaxin, þar næst bryta eðr hinum bezta manni er í bæ er staddr. En ef hjú eru öll af bæ gengin, þá skal ganga í setuhús bónda, ef þat er opit, ok setja niðr í öndvegi svá at eigi falli, en ef hann má eigi inn komast, þá skal boð binda yfir miðjar dyr, svá at hverr megi sjá sem inn gengr. En sá bóndi á at ganga til þeirra manna, er boð báru honum, ok spyrja þá, hvat boð segir, ok bera síðan til næsta granna á boðleið. Hèraðsmenn skulu reiða náttstaði at boði. Þangat skal boð bera fyrstan dag sem rètt er, ok eigi seinna upp skera en boð megi vel náttstað ná, ok svá annan ok hinn þriðja. (R. B. H. K. Sá maðr sem boð fellir svari sekt fyri alla þá sem á þeirri boðslóð kom eigi boð til forfallalaust. Nú

[1]) Aðrar bæta við: í hreppa.

skal sá sem fyri sitr vita hvern tíma dags boð kemr til hans með vitnum ef til eru. En ef eigi eru vitni til, þá skal sá synja með lýrittareiði er þangat bar. Nú kallast maðr borit hafa boð til granna síns, en hinn kveðr nei við, er fyri sitr, þá skal sá er þangat bar sanna með lýrittareiði, at hann bar boð eigi seinna en hann átti at lögum at bera, þá skal sá gjalda boðfall er fyri sitr, eyri konungi. (R. B. E. K. Ef maðr fellir boð þat, er stefnt er þing at heyra konungsbrjef, eðr manndrápsþing, eðr manntalsþing til jafnaðar á várit, eðr hreppstjórnarþing á haust, sekr 2 aurum við konung fyri hvert. Nú er þegar boðfall, er eigi sækir boð náttstaðl. Ok þat annat, ef eigi verðr borit. Þat hit þriðja, ef maðr fær í hendr ómaga eðr yngra manni en 15 vetra[1]). Ef maðr flytur hús sín af fornum tóptum ok á þær tóptir sínar, er honum hagar betr innan garðs, þá skal til þeirra húsa boð bera ok fátæka menn flytja. En ef hann fyr setr niðr, ábyrgist sjálfr at öllu. Engi skal boð bera á hönd öðrum síðan sólu er sett um sumar, en degi um vetr, ok svá fátæka menn hit sama.

## 11. Um eyði-jörð.

Hvervetna þar sem maðr slær eðr sær eyði-jörð sína, ok eru hús á, þau sem menn mega í vera, þá skal hann halda upp boðburð öllum. Nú vill sá eigi boð bera eðr fátæka menn flytja, er eyðijörð á, þá flyti sá sem næstr býr eyði-jörðunni, þangat sem menn eru fyri, ok hafi at heimilu lóð

[1]) Aðrar: 16 vetra.

hálfa nema hinn komi öðru kaupi við. En ef fleiri menn búa á einni jörðu, þá skulu þeir skipta at jafnaði sín í milli eptir bænda ráði, bæði boðburð ok förumannafærslu, eptir því sem hverr hefr af jörðu, en eigi eptir fjármagni. En á nýlendum öllum innan hrepps[1] beiði sá bændr boðgreiðslu á þingi, er jörð á, eðr umboðsmaðr hans.

## 12. Um hreppstjóraþing ok manneldi.

Nú skulu bændr allir til þings fara, þegar boð kemr til húss, nema einvirkjar einir, þeir skulu fjögur þing skyldir at sækja: þat þing sem konungsbréf skal upp lesa, ok manndrápsþing, ok manntalsþing til jafnaðar, ok þat þing, er hreppstjórn heyrir til. En öll önnur þing skulu einvirkjar heima sitja ef þeir vilja. Sá er einvirki, er honum fylgir yngri maðr til verks en 16 vetra, hvárt sem hann er son hans eðr annars manns. Ekkja ok ófærr bóndi skulu því at eins til þings fara ef þau vilja, en allir bændr aðrir skulu fara til þings þegar boð kemr til bæjar, ella gjalda þingvíti eptir lögum, eyri konungi Nú ef boð kemr svá síðarla til bónda, ok er svá löng leið til þings at bóndi má eigi til þings koma á miðjum degi, ok hefr hann til þess löglig vitni, þá má hann heima sitja at ósekju. En ef fleiri menn verða fyri einni sök en einn um þingvíti, þá má boð stefna þeim þing, er áðr eru á lagðir fyri váttum. Rètt er at bóndi bjóði um öðrum manni, þá er tíundarskiptisfundur skal vera, at hann man

[1]) Aðrar: þings.

gegna slíku sem menn verða þar ásáttir, ef honum er óhent at fara. Ok skal hann segja á hversu mörg hundruð þangat er at skipta manneldi. Ef menn vilja láta vista eðr fæða fátæka menn, ok svá fyri hversu marga menn þar skal matgjöf gefa, ok hversu mikil þar er tíund. Skylt er ekkju ok ófærum bónda at segja umboðsmanni sínum hversu mikil tíund ok matgjöf þar er, þá er tíundarskiptisfundr skal vera. (R. B. H. K. Svá skulu hreppstjórnarmenn skipta manneldi, at þar verði jafnmikil gisting þeirra manna, er þar eru hreppsmenn, nátt á hverjum 10 hundruðum, þar til at er hundrað hundraða. En síðan nátt á hverjum 20 hundruðum, þar til sem eru 2 hundruð hundraða. En þó at fè sè meira, þá eykst þat ekki til manneldis, nema hreppstjórnarmönnum sýnist annat sannara). Þá menn skal svá ala, er þar eru hreppsmenn, ok engan eiga frænda þann er forlagseyri hafi til at færa þá fram, svá at menn viti, ella færi til frænda. (R. B. H. K. Búlausir menn, ef peninga eiga, svari manneldi ok öllum hreppsnauðsynjum at jafnaði eptir því sem hreppstjórnarmenn gjöra ráð fyri.

## 13. Um ósið klæðaburðar hèr á landi.

Þat er öllum mönnum kunnugt um þann mikla ósið, er menn hafa hèr meir í óvenju dregit í þessu landi en engu öðru svá fátæku, um skrúðklæða búnað, svá sem margir hafa raun af með stórum fjárskuldum, ok missa margir menn þar fyri marga aðra þarfliga hluti, en hinn fátæki þarfnast sinnar hjálpar, ok fyri þat liggr margr til dauðs úti fros-

inn. Því gjörum vèr öllum mönnum kunnugt, at hverr sá maður, sem hann á tuttugu hundruð fjár ok eigi minna, hvárt sem hann er kvángaðr eðr eigi, má bera eina treyju með kaprúni af skrúði. En sá sem á 40 hundraða má þar með bera einn skrúðkyrtil. Sá sem á 80 hundraða má bera þar með úlpu eðr kápu tvídregna, fyri utan gráskinn. En sá sem á 100 hundraða, hann má at frjálsu bera þessi klæði öll. Lærðir menn mega bera þau klæði, sem þeir vilja, ok þeir handgengnir menn sem sèr eigu skyldarvápn. Svá ok þeim mönnum, sem utan hafa farit, er lofat at bera þau klæði, er þeir flytja sjálfir út meðan þau vinnast, þó at þeir eigi minna fè en fyr skilr. En eigi skulu þeir kaupa hèr á landi sèr til burðar framar en fyr segir. Nú ef nokkurr ber skrúðklæði sá er minna fè á, eðr öðruvís til kominn en hèr váttar, þá er sá sekr 2 aurum fyri hvert við konung, ok klæðin upptæk konungs umboðsmanni; utan honum sè gefin, nema konur beri[1].

# Hèr hefr fimmta hlut lögbókar, sem er landabrigði.

## 1. Hvernig maðr skal brigða jörð, sem fjárhaldsmaðr hefr selt.

Hvar sem ungum manni tæmist land í erfð, eðr at gjöf, eðr í vígsbætr, eðr rèttarfar, þeim er eigi á sjálfr varðveizlu fjár síns, ok selr fjárhaldsmaðr

[1]) Seinustu klausúna „ok klæðin upptæk .... beri" vantar í margar bækr.

hans í burtu, þá á hann brigð til þess lands, hvárt sem er eitt eðr fleiri. Hann skal brigðt hafa innan 10 vetra síðan hann tók við fjárvarðveizlu sinni, ok er hann innan lands, ella á hann þess máls aldri uppreist, nema nauðsyn banni. Nú þó at hann eigi fleiri lönd at brigða, þá skal hann brigðt hafa öll innan 10 vetra, síðan hann er úr ómegð. Ok svá ef hann hefr utanlands verit, þá skal hann svá brigðt hafa, ef hann kemr út fulltíða. Ef maðr vill jörð brigða, þá skal hann fara um haustit til bæjar þess, er sá býr á, sem jörð kallast eiga, ok segja honum við vátta, at hann vill þá jörð brigða. Þetta skal hann hafa gjört fyri jólanátt, hvar sem hann finnr hann. Hann skal stefna honum til jarðar þeirrar, er hann vill brigða, fimmta dag viku, þann er 3 vikur eru af sumri, ok flytì þar vitni sín at þetta er hans jörð, ok hann seldi eigi nè galt, ok eigi gaf hann, ok engi sá, er hann bauð um. Ok ef honum fullnast þessi vitni, þá skulu dómendr dæma honum jörð sína, en hinum aura sína af þeim er honum seldi. (R. B. H. K. Ef Þórsdag þann, er þrjár vikur eru af sumri ber á helgan dag, þá komi öll gögn fram um jarðabrigði hinn næsta virkan dag eptir). Nú hefr jörð meir at sölum farit, þá eigi hverr við sinn heimildarmann, eðr hans erfingja, ef hann er dauðr, ok hafi þeir fè eptir hann tekit, en við fjárvarðveizlumann, ef hann er utanlands, þar til er fjárvarðveizlumaðr hins unga manns var, nema hann fái vitni til þess, at hann seldi jörð þá fyri skulda sakir þeirra, sem áðr váru á fènu, ok eigi mátti hann

þær með öðru gjalda, eðr til bjargar þeim ómögum, er á fènu váru, ok ekki var annat til fyri þá at leggja, ok hann seldi sem dýrst mátti hann, ok fyrst seldi hann leiguból, eðr þat, er ómaginn átti í annára manna jörðum. Ok ef hann fær þessi vitni, standi jörð sem komin er. En ef honum fallast þessi vitni, þá eignist hinn ungi maðr jörðina jafngóða at næstum fardögum. En ef hús eru betri en þá er jörð var seld, þá bæti hann fyri þat, en ef verri eru, þá bæti sá honum þat er húsum hefr spillt. Nú kemr sá eigi til, er stefnt var, þá skal sækjandi bera láta stefnuvætti sín, síðan eignarvitni sín, þá skulu dómendr dæma honum jörð, en hinn snúist á sinn sala eptir slíkum aurum sem hann gaf fyri jörð. Nú fallast honum þessi brigð fyri einhverjar nauðsynja sakir eðr vankunnindi, ok meti þat 6 skynsamir menn, þá brigði þeirri jörðu, sem nú var mælt, þó at síðar sè.

## 2. Um jarðarsölu áttræðs manns.

Eigi á maðr að selja land undan erfingjum sínum, þá er hann er 80 vetra gamall eðr eldri, nema fyri fulla þörf sína[1]. Ok svá ef hann liggr í banasótt, nema fulltíða erfingjar lofi. En ef hann selr, þá má erfingi brigða, ef hann vill. Hann skal svá brigð hefja, ok svá at allri sókn fara sem fyr skilr, fyri utan þat, at sá er þessari jörð brigðir, skal greiða fulla aura fyri þá jörð af sínu fè at næstum fardögum. Nú vill hinn eigi við aurum taka, þá sýni hann aura, hvárt sem þat er búfè

[1]) Aðrar bæta við: ok þó með skynsamra manna ráði.

eðr annat fè, ok hafi at láni þar til er hinn heimtir ok ábyrgist at öllu. Rètt er honum at byggja öðrum þetta fè, ok er hann þó fyri skuldu sem áðr.

## 3. Um eignarskipti á jörðum.

Ef menn vilja jörðum skipta sín í millum eignarskipti, og verða þeir allir á eitt sáttir, skipti sem þeir vilja ok leggi hluti á, ok hafi þat hverr er hlýtr, ok lýsi á þingi síðan, hvat hverr þeirra hefr hlotið, ok ef þeir játa því allir, þá má þat skipti engi maðr rjúfa. Nú vilja menn jörðum sínum skipta, ok hafa við hèraðsmenn, þá skal sá er skipta vill, stefna þeim öllum til jarðar, er at móti eigu, svá löngu fyri, at um leið megi sýsla, at snjólausum jörðum ok ósánum ok óbreiddum völlum. Sá skal ráða, er stærstum vill skipta, ef engan skaðar í. Meðr skapti eðr taugu á jörðum at skipta innan garðs, en sjónhendingum utan garðs. Marksteina skal þar niðr setja ok grafa sem þeir verða ásáttir, ok leggja hjá 3 steina, ok eru þeir kallaðir lýrittar. Svá skulu hèraðsmenn jörðum skipta með þeim mönnum öllum, er þar eigu hlut í, at vel megi hverr síns njóta, ok engi þeirra þurfi kvikfè sitt heiman yfir annars land at reka. Eigi skal húsum í móti jörðu skipta. Nú er þar sumt land betra en sumt, þá skal því skipta mun óvíðari, svá jafngóð sèu bæði. Vatn skal ok falla til allra bæja ok allr saman skal fara hvers þeirra hlutr. Ok ef þat er engum þeirra til skaða, þá hafi þat hverr, sem næst er því landi, er áðr á hann. Um þveran dal skal í sundr skipta, ef það er dalland, nema

þar falli á sú, at eigi gangi kvikfè yfir, ok sè þeim jafnhægt til, þá er rètt at skipta endilöngum dalnum. Húsum skal ok skipta at jafnaði. þeir eiga at þverkyfra hús í sundr, en eigi at endilöngum skipta. Nú verðr hús manns þar á annars jörðu, ok skal þat hús þar vera meðan sá vill, er hús á, ok skal hann úr sínu landi allt til færa um at bæta. En ef hann vill úr stað færa húsit, eðr auka þat, þá skal hann á sína jörð færa. Menn eiga at brjóta jörð, ef þeir vilja til taðna sèr eðr akra, þó at fleiri eigi saman, ok eiga þeir jafngóðri jörðu at auka sína töðu, ef þeir vilja, er síðar auka. þess er ok kostr, þar sem sem túnvelli er skipt, at muna út garði, og kveðja 6 skynsama menn til at meta, ef þeir verða eigi ásáttir, ella nær þeir auka jöfnu. Nú vilja sumir auka, en sumir eigi, þá skulu þeir gjalda honum slíka jörð, sem til þeirra kemr eptir 6 manna mati, ef mismunr er.

## 4. Um búfjár ítölu í haga.

þar er menn sjá eigi lögskipti á landi, þá skulu þeir skipta húsum, töðum ok akrlöndum, engjum, skógum, veiðum ok rekum. En kvikfè skulu þeir telja í haga, svá at þeir hyggi eigi nýtra, þó at færra sè, ok sè þó skipat til fulls. þar skulu menn ítölu búfjár hafa í haga, er skynsömum mönnum lítast þær fleiri nætr, er fè gengr í annars landi. þar skal telja þrevett naut við kú, 2 tvævetr naut við kú, en 3 vetrgömul við kú. Eigi skal kálfa telja. Hross þrevett við kú, ok svá þó at eldri sè, 2 hross tvævetr ok yngri við kú; eigi skal fyl

telja[2], geitr 5 við kú, gamlir sauðir 10 við kú, lömb 20 við kú. Eigi skal svín í land telja né hafa. Nú þó at menn vili húsum einum skipta eðr töðuvöllum, engi, teygum eðr heyjum, rekum eðr veiðum, þá skal hann æ þeim heimstefna áðr, er til móts eigu við hann, svá at um lið megi sýsla. Skulu menn jafnan til skiptis koma eðr virðingar fyri miðjan dag, ella sekist sá 2 aurum við konung, er eigi fer lögliga til kvaddr, nema nauðsyn banni.

## 5. Um þann er eigi vill landi skipta láta.

Nú ef einhverr maðr eðr fleiri vilja eigi til skiptis koma sá er stefnt var, þá skal þó skipta sem nú var talt. Vitni skal sá þá bera láta, er sækir, at hann hefr honum þangat stefnt til jarðarskiptis við sik. Hluti skal þá í skaut bera, jafnmarga sem þeir eiga í jörðu til. Sjá skulu skilríkir menn mark hluta þeirra áðr, ok vita hvat hverr þeirra hlýtr í húsum eðr jörðu. Aðrir menn skulu hluti þeirra bera, er eigi vilja sjálfir bera. Á þing skulu þeir þá fara, ok lýsa þar eignarskipti sínu, þá hafa þeir at lögum skipt eignum sínum. Ok ef sá maðr er eigi innan lands, er jörð á með þeim, þá skal stefna umboðsmanni hans til, eðr erfingja, ef hann er eigi til, ok skipta svá sem eigandi sè sjálfr hjá. Nú vill umboðsmaðr eðr erfingi eigi til skiptis koma, þá skal stefna honum til höfuðbóls með tveim váttum, ok njóti þar vátta sinna, at hann stefndi hon-

[1]) Aðrar hafa: Hross þrevett við kýr tvær eðr eldri, tvævett við eina kú, eðr yngra.

um til jarðarskiptis. Sá skal skipti ráða, er stærstum vill skipta, ef engum skaðar. Skipti sundr heilum bæjum eðr hálfum, nema þeim þyki annat sannara. Nú skulu valinkunnir menn skipta ok hluta á þingi, síðan merki hinn sjálfr sinn hlut. En valinkunnir menn kasti hlut þrjóts ómerktum í skaut, ok lýsi þar þegar, hvat hverr hlýtr. Þat skipti skal haldast um aldr ok æfi síðan.

## 6. Um lagakaup á jörðu.

Ef maðr vill selja land sitt við verði, þá skulu þeir kveða á um merki með sèr um land ok skóga, engjar ok reka, veiðar ok afrèttu, ok allra gæða skulu þeir geta þeirra, er því landi eiga at fylgja, þó at þat eigi í önnur lönd, eðr aðrir menn eigi þangat ítök. Síðan skulu þeir í hendr takast, ok kaupa fyri váttum tveim eðr fleirum. Hann skal handsala honum þat land með ummerkjum þeim öllum, er landinu eigu at fylgja. Hann skal heimila honum fè þat allt, er þar finnst í jörðu eðr á, nema eigandi verði til. En ef land er eigi við vátta keypt ok handsalat, þá er sem ókeypt sè. En annarhvárr þeirra skal ript hafa innan tólf mánaða, ella sè fast kaup þeirra, ok sekr 6 aurum við konung hvárr þeirra, fyri þat er þeir keyptu váttalaust. Skyldr er sá maðr, er honum seldi land, at ganga á merki innan 12 mánaða, ok stefna þeim til öllum áðr, er til móts eigu við hann. Þar er eigi skylt at ganga á merki, sem firðir deila, eðr ár þær, er netnæmir fiskar ganga í. En ef þar liggja eyjar fyri, þá skal kveða á þær. Nú ef maðr

á við annan mann eyjar þær, er mörk eru í, þá skal þau sýna sem á meginlandi. Eigi er skylt at ganga á merki, þar er fjöll eru, þau er vatnsföll deilast milli hèraða, ok eigi er skylt at ganga úr búfjárhögum á fjöll upp, kveða skal þar á merki. Nú prófast svá, at hann átti minna en hann seldi, bæti fyri þat eptir 6 skynsamra manna virðingu, ok haldist þó kaup þeirra.

## 7. Um landsnytjar til fardaga.

Ef maðr selr land sitt fyri fardaga, eðr á miðjum misserum, þá á hann allar landsnytjar sem áðr framan til fardaga, nema frá sè skilt í kaupi þeirra, en reka til miðs dags frjádaginn í fardögum, allt þat er þar til rekr á, ok fè þat allt, er finnst þar í jörðu ok á. En svá skal hann skóg höggva sem leigumaðr. Hann skal ábyrgjast land við eldi ok skriðum, vötnum ok öllum spjöllum til fardaga. En ef aðrir menn skeðja þar jörðu, eðr gjöra þar önnur spjöll á landi, þá á sá sókn á því, er seldi, en hinn, ef hann vill eigi.

## 8. Um lögmála á landi.

Svá er mælt þar er maðr selr öðrum manni land sitt, ok vill hann leggja á lögmála, þá skulu þeir handsalast við þann mála, sem þeir verða ásáttir. Þat er lögmáli á landi, at hann skal eiga kost á at kaupa landit fyrstr at jöfnu verði, sem annarr býðr til, þá er landit er falt. Vera má ok sá máli á landi, at þeir kveði sjálfir á með sèr, hversu dýrt vera skal landit, þá er falt verðr. Þeim mála skal

hann lýsa fyri 6 grönnum sínum, ok hit næsta sumar eptir á alþingi, svá at lögmaðr heyri á. Hann skal lýsa þeim mála sinn á hverjum 10 vetrum á hèraðsþingum á meðan hinn lifir. En ef sá er dauðr sem málinn er við, þá skal lýsa hit þriðja hvert ár á hèraðsþingi. En ef eigi er svá lýst, þá er af málinn eðr veð. En ef sá deyr, er málann átti, þá skulu erfingjar hans skipta þeim mála með sèr, ok lýsa á hèraðsþingi hit þriðja hvert ár.

## 9. Um lögveð í landi.

Ef maðr vill leggja lögveð í land manns, hvárt sem þat er fyri landsverð eðr aðra aura, þá skulu þeir handsalast þat við. En þat er lögveð í landi manns, at hann skal taka jafnmarga aura sem 6 skynsamir menn virða, at hann sè vel haldinn af. En þat skulu þeir gjöra fimmta dag viku, þann er 4 vikur eru af sumri. Hit sama vár, er hann missir fjár síns, þá eignast hann svá mikit fè í landi sem þeir dæma honum. Svá skal maðr lýsa veði sem mála. Rètt er at selja eðr gefa landsmála eðr veð, ok svá annara gripa, ef sá er innan hèraðs [1], er við tekr, ok skal hann segja með váttum þeim er land á hit fyrsta ár[2], at hann skal bjóða honum þann mála[3], ok skal hann lýsa á þingi á hverjum 3 vetrum. En ef hann gjörir eigi svá, þá er hann af þeim mála eðr veði, hvárt sem þat er land eðr annarr gripr.

---

[1]) Aðrar: fjórðungs. [2]) Aðrar: vár. [3]) Aðrar hafa þessa klausu þannig: „þeim er land á, at hann skal bjóða honum þann mála fyrstum“.

## 10. Um sölu veðs ok mála á landi.

Ef maðr vill selja málaland sitt, þá skal hann fara til fundar við þann, er málann á, eðr umboðsmann hans, hvárt sem hann er í ómegð, eðr er hann úr landi farinn, 7 náttum fyri sumar, ok segja honum at landið er falt. Hann skal stefna honum heim með váttum sumardag hinn fyrsta, ok segja honum, at hann mun þá þar koma, ok bjóða honum landsmála, ok hafa þá þann með sèr, er kaupa vill. Nú er hann eigi heima, þá er honum er heim stefnt, sumardaginn fyrsta, at nauðsynjalausu, ok hafi hann engan mann fengit til kjörs fyri sik þann er handsöl sè við eigandi, þá verðr sá sekr 6 aurum við konung, er landit var boðit, en landit málalaust. Utan því at eins, at hinn kaupi ódýrra en honum var boðit, eðr gjörðu þeir til þess at vilja koma mála hans af landinu, en kaupa engu, þá er hverr þeirra sekur 6 aurum við konung, ok fastr máli sem áðr (R. B. E. K. Sektalaust er manni at kjósa undan sèr málaland sitt).

## 11. Ef maðr selr þat land, sem annar á mála eðr veð í.

Ef maðr selr málaland annars manns, eðr þat annarr á veð í, þá skal sá, er málann á eðr veð, þessi lönd brigða innan næstu 12 mánaða, nema forföll banni, ella á hann þess máls aldri uppreist. Nú á maðr fè at manni en sá er gjalda á handsalar honnm land sitt ok heimilar fyri hverjum manni. Ok ef þat fè gelzt eigi at gjalddaga, þá verðr hans land svá mikit sem hann átti fè at

honum, ok þarf þeim máldaga eigi at lýsa. Nú selr hann í burt landit, en hinn missir fjár síns at gjalddögum, þá gangi hann at frjálsu til lands síns.

## 12. Um prófentu.

Ef maðr gefr land með sèr til fóstrs eðr þeim manni öðrum, er hann vill fram færa, ok skilr svá fyri, at ómagaeyrir skal í því landi liggja meðan hann þarf framfærslu, ok verðr framfærslan eigi efnd, eðr svá illa, at skynsömum mönnum virðist eigi við vært, þá skal sá, er til ómaga framfærslu stendr, brigða landit, þegar hann veit þat, ok hann má fyri nauðsynja sakir, ok brigði sem fyr segir. En sá er sekr 6 aurum við konung, er ómagann skyldi fram hafa fært.

---

# Hèr hefr landsleigubálk, hinn 6. hlut lögbókar Íslendinga.

## 1. Um lögliga bygging ok ábúð jarða.

Ef maðr vill annars jörð leigja undir bú sitt, þá skal hann þá jörð taka með handsölum, ok 2 skilríkum vitnum eðr fleirum, þá skal hann þá jörð hafa heimila hina næstu 12 mánuði at búa á, ok inna hinum leigu slíka sem þeir verða á sáttir. Nú er leiga eindögut, ok kemr eigi fram í eindaga, þá óheimilar hann sèr þá jörð. Nú reiðir hann suma leigu, en suma eigi, þá skal sækja út með váttum ok fimmtarstefnum þat er eptir stendr, ok svá þó at til allra þurfi at sækja. Leiguliði skal

á jörðu búa til fardaga at öðru vári, nema þeir hafi lengri máldaga á gjörvan. Af þeirri jörðu má hann eigi öðrum selja á leigu til heimildar, nema hann skili þat, þá er hann tók jörð. En ef hann selr, þá er honum jörð óheimil, ok svá hinum er tekr, ok gjaldi landsdrottni landnám fullt hvarrtveggi þeirra, ok heimili sèr svá jörð sá er af landsdrottni tók. Af skal hinn fara er af leigulida tók. En allt þat, er hinn missir síns í, þá skal hinn bæta honum, er hann leigði jörð at, ok hálfa mörk at handsalasliti. Ok svá skal hverr bæta, sá er öðrum selr óheimilt, nema hann hafi aðra jörð jafngóða at fá honum.

## 2. Um bygging á konungs jörðum.

Ef umboðsmaðr konungs byggir jarðir hans í hèraði, at rèttum jarðarmála, þá skal þat haldast eptir þeirri ábúð ok landskyld, sem leigulidi fær vitni til, því at svá á konungs jarðir at byggja sem um aðrar skilr at lögum; þó at umboðsmanna skipti verði, þá skal hverr sinn leigumála hafa. Ef maðr tekr mútu til konungs jarðir at byggja eðr annara manna, gjaldi aptr þat sem hann tók í mútuna, en konungi tvenn slík. En fyri þær jarðir, sem konungr á eigi, gjaldi hálft konungi en hálft landeiganda, ok sè skildr við umboð, ok heiti drengr at verri. En sá er mútuna gaf, gjaldi slíkt sem hann gaf, eptir því sem áðr var skilt, ok sè skildr við ábúð jarðarinnar. En ef maðr byggir konungs jarðir dýrra en vani er á, þá skal því framar telja til leiðangrs ok landvarnar, sem leigan er meiri á lóðinni, sem

annathvárt aukar fyri báðum eðr minnkar fyri báðum eptir því sem áðr byggist. Ef konungs umboðsmaðr lætr jarðir hans undan honum ganga at vilja sínum eðr fyri vanræktar sakir. Þó at konungdómrinn fái þær aptr, gjaldi umboðsmaðr jafnmikit fè af sínu, sem hann lèt undan honum ganga fyri vanræktar sakir, ok skaða þann, sem af því varð, ef hann vissi. Ef maðr segir eigi lausa jörð manns fyri náttina helgu, þá skal hann hafa þá jörð, ef landsdrottinn vill halda honum á hendr, þá 12 mánuði at slíkri leigu sem áðr var mælt. En eptir náttina helgu, þá bjóði landsdrottinn honum jörð sína, ok ef hann vill eigi hafa, þá hafi landsdrottinn sjálfr jörð sína ok leigu með, af þeim er af fer, slíka sem áðr var skilt. Ef maðr gjörir kaldako á jörðu manns, þá er þat, ef hann fer af henni fyri náttina helgu, svá at engi maðr er eptir, þá á landsdrottinn þat allt sem eptir er fèmætt, nema kvikfè, ok gjaldi honum á ofan 12 aura, ok svari fyr boðburð ok förumanna flutning, ef fellr. Ef sá maðr andast, er á jörðu býr, ok kallar landsdrottinn, at ólokin sè landskyld, þá njóti arfi hins dauða vátta sinna at landskyld er lokin, ok svá um alla ábúð jarðar. En ef hann hefr eigi vitni til, þá hafi landsdrottinn vitni til. En ef hvárrgi hefr vitni til, þá sveri arfi ok húsfrú hins dauða, at eigi standi ábúð jarðar eptir eðr landskyld, svá at þau viti skil á. Ok ef þau sverja þetta, þá hefr landsdrottinn svá búit, ok svá skal fara hit sama, ef hinn er í útlegð.

## 3. Um ábúðar skyldu leiguliða.

Skyldur er maðr at halda upp húsum þeim öllum er þá váru, er hann kom til jarðar. Þat skal hann eigi ábyrgjast, þó at hús fyrnist. Nú er húsgjörð skild á hendr manni, þá skal hann gjört hafa húsit, áðr en hann fer af jörðu. En ef hann hefr eigi gjört, gjaldi landsdrottni húsverð áðr hann fer í burt, eðr láti gjöra hús sem skilt var. En ef hann gjörir þau hús, sem eigi váru skild á hann, þá á hann þau. Hann skal bjóða landsdrottni með váttum at kaupa þau hús. Heimilt á hann at færa burt húsit fyri fardaga. En ef hús stendr eptir fardaga, þá á sá hús, er jörð á, nema hann færi viðinn fyri fardaga á hólkn eðr hreisar, svá at hvárki sè at flytja þaðan yfir akr nè eng, þá má hann færa þann við burt eptir fardaga, þá hann á bezt tóm til. Svá er ok ef maðr leggur við sinn í þau hús, er áðr váru þar, þá skal hann í burt taka viðinn fyri fardaga, ok bæta hús sem áðr var. Sá eignast viðinn sem land á, ef hinn tekr eigi úr húsum áðr. Landsdrottinn er skyldr at fá við til at halda upp húsum, svá at þar sè óhætt mönnum ok fè. En ef hann fær eigi við til, ábyrgist skaða þann allan, sem þar gjörist af, eptir því sem skynsamir menn meta. En ef hann fær við til, þá skal leiguliði ábyrgjast, þó hús falli niðr, ok hlaði vegg faðm saman eðr lengra.

## 4. Nær leiguliði skal til jarðar koma.

Leiguliði skal koma til jarðar þegar á vár er hann vill at váryrkja þar. En byggðum á hann

til at fara, þá 6 vikur eru af sumri. Er honum þar þá heimill hagi ok föt sín og búsagagn inn at bera. þeir skulu miðlast húsrúmi við. En ef þeim vinnst eigi báðum húsrúm, þá á hinn heimil fjárhús 3 nætr, er áðr bjó þar. því at eins á sá er þar skal á landi búa smala sinn inni at hafa til laugardags at sá lofi er fyri sitr, eðr hann þurfi eigi allt húsrúm. En sá á síðar fyri landi at ráða ok húsum, er þá hefr leigt. En þegar 6 vikr eru af sumri, þá á hinn eigi, er þar bjó áðr, at beita þar eng. Hafa á hann þar hross í haga til sunnudagsins, en annan smala til þess at líðr helgina. Rètt er honum ok at vera þar um helgina með hjú sín, ok eru honum þá heimil fjárhús til innivistar, ef þeim vinnast eigi báðum innihús. því at eins skal hann smala sinn inni hafa, ef þeim vinnst báðum rúm, ok fari burt á mánudaginn, nema þá sè lögheilagt, ella nátt síðar með smala sinn allan ok önnur föng.

## 5. Ef landsdrottinn eðr leiguliði halda i leigumála.

Nú leigir maðr jörð af manni, ok kemr eigi til forfallalaust, þá er 6 vikur eru af sumri, þá skal landsdrottinn fara til eðr senda til, ok nýta sèr landit, svá sem hinn hefði eigi leigt, ok byggja öðrum ef hann vill, ok heimti þó leigu alla af þeim er fyr leigði. Nú selr maðr jörð á leigu, ok vill eigi þann hafa láta er tók, þá gjöri sá hvárt er hann vill, er jörð leigði, at hann lögfesti jörð ok leggi á fimmtarstefnu, ok njóti vátta sinna, hversu

hann hefr jörð tekna. Ok ef honum berast þau vitni at fullu, þá eiga bændr at dæma honum leigujörð sína, eptir því sem vitni báru honum. Hinn kost á hann annan at heimta af landsdrottni landskyld, slíka sem hann skildi af honum. Vill hann eigi gjalda, sæki sem vítafè. Sá maðr sem jörð leigir á grasnautn alla af jörðu þeirri, ok allt at vinna á henni þat, er hann vill ok þarf til húsaumbóta, eðr garða at búa um andvirki sitt, þar er hvárki spilli akri nè eng. (R. B. F. K. Svá skal leiguliði hjón hafa at hann fái unnit engjar allar ella bæti landsdrottni skaða þann allan, sem menn meta at land spilliat af því, utan þeir skili öðruvís).

## 6. Ef landsdrottinn byggir tveimr.

Ef maðr selr eina jörð tveimr mönnum at leigja, þá skal sá hafa er fyr tók, ok svá skal hvervetna þar sem maðr selr 2 mönnum hit sama, at sá skal hafa, er fyr kaupir eðr leigir. Halda skal hann skiladómi fyri kaupi sínu ok njóta vátta sinna, at hann tók fyrri. Aðra jörð skal landsdrottinn hinum fá, ef hann hefr til. En ef hann hefr eigi jörð til, þá skal landsdrottinn gjalda honum fè jafnmikit sem hann skildi sèr af honum í landskuld, ok sèu síðan sáttir. En þetta skulu þeir reynt hafa innan hálfs mánaðar síðan jörð var tveimr byggð.

## 7. Hvat leigulandi skal fylgja.

Ef menn beita engjar leiglendings eðr haga, þá á hann sök á því, en landeigandi, ef hann vill eigi sækja, ok svá ef jörðu er skaðt, þá skal honum

þat allt bæta skaðabótum ok landnámi sem 6 grannar þeirra meta. Ef fiskveiði, eðr fuglaveiði, eðr eggver fylgir leigulandi, þá á leiguliði þat allt, nema frá sè skilt í kaupi þeirra. Ok svá ef þar rekr fugla eðr fiska, sela eðr háskerðinga ok hnísur. Ef við rekr á leigulands fjöru, þá á leiguliði at draga við úr flæðarmáli, ok marka þess marki, er fjöru á, ok festa sem hann eigi sjálfr. Hann skal eiga þar álnar kefli ok smærri. Heimilt á hann at flytja þar farma á fjöru hins. Nú rekr hval á fjöru þar, þá skal hann festa hval sem hann eigi, ok hafa af 6 vættir, hálft hvárt, spik ok rengi, ef hvalr er tvítugr eðr lengri[1]; þó er hann skyldr at festa hval, þó at skemmri sè. En ef hann bergr ver hval eðr viði en nú er mælt, þá er hann sekr 6 aurum við landsdrottinn, ok ábyrgist skaða þann allan, sem eigandi fær af hans vanrækt. Leiguliði á þær veiðar allar at hafa, sem því landi fylgja, utan eggvers fugla, þá skal engi maðr veiða. Nú verpa þar elptr fyri fardaga, þá eignast sá þat, er til jarðar kemr þá, en hinn þvílíkt sem var hit fyrra várit, egg ok unga. Leiguliði á at grafa torf ok skera í landinu sem hann þarf til eldiviðar, þar nær sem áðr hefr skorit verit, ok fella saman torfgrafir. En við skal hann höggva, ef áðr hefr viði elt verit. Hvárttveggja, ef áðr hefr svá verit, nema þeir hafi annan veg skilt. Í skógi skal hann höggva slóðahrís ok girði, ok lèdengingarkol sèr, ok neyta þess alls svá hægliga sem hann ætti sjálfr þann skóg. Hann á ok at bæta bús búhluti sína úr skógi, eðr

[1]) Aðrar bæta við: eins kyns.

af rekaviði. En ef hann gjörir nýja, þá á landsdrottinn þat. Nú á hann eldibranda þar eptir, þá er hann fer af jörðu, þá skal landsdrottinn, eðr sá sem til jarðar kemr, hafa þá eldibranda ok inna hinum fyri starf sitt eptir 6 manna dómi, ella flyti hinn burt eðr lógi at ósekju.

## 8. Nær leiguliði skal til jarðar kominn vera.

Fimmti dagr viku, er 6 vikur eru af sumri, er hinn fyrsti fardagr, frjádagr, laugardagr ok sunnudagr. Maðr má færa heimili sitt árla fimmtudaginn ok þess í milli, svá at hverr sá maðr, er sèr hefr jörð tekit, ok tveggja missera vist tekit, sè komin til jarðar ok þess heimilis, sem hann skal hafa sunnudaginn at aptni forfallalaust. En hann er af vist sinni árla mánudaginn. Svá skulu menn koma til jarðar sinnar sem fyr segir. (R. B. E. K. Leiguliði er skyldr at færa alla mykju á völl undan fènaði sínum áðr hann fer af jörðu ella tvígildi fyri þat sem ófært er, þá er hann fer af jörðu þann kostnað, sem hinn þarf til burtfærslunnar, er til jarðar fer).

## 9. Um þá hluti, sem leiguliði eptir skilr.

Ef maðr fer af jörðu, ok á hann þar ker inni, þá skal hann þat út hafa fært ok allt búsgagn sitt hit síðasta laugardaginn í fardögum, nema hinn lofi. Rètt er manni at brjóta hús til þess at færa ker sitt út, ef hann bætir húsit aptr jafnvel sem

áðr var, ella færi út í stöfum. Nú brýtr maðr setstokka úr húsi eða bríkr þar sem greiping nemr eðr naglfast er undir bjálka eðr bita, þá skal hann þat aptr færa. En þat sem húsbroti nemr, bæti mörk hálfa konungi en hálfa þeim er hús á, ok gjöri hús jafngott sem áðr var. Nú skal hann af jörðu flytja allt þat sem hann á með réttu. Korn sitt ok hey ok slíkt sem fyr sagði, þá skal hann hafa burt flutt, er 6 vikur eru af sumri, utan hey ok korn má standa meðan hinum er eigi mein at, ok færi síðan úr hlöðum eðr stakkgörðum ok búi þar um á jörðu hins, at hvárki spilli akri nè eng. Nú vill hann eigi burt flytja, þá er hinum er mein at, þá ábyrgist hann sjálfr hey sitt eðr korn, þó at hinn kasti út. En annat þat sem eptir er fèmætt, þá 6 vikur eru af sumri, utan kvikfè, þá eignast sá sem jörð á undir, utan hinn hafi fært í fjöru eðr á holt utan garðs, þar er hvárki sè at flytja þaðan yfir akr eðr eng. Ok hafi þaðan burt flutt fyrir næstu vetrnætr. (R. B. E. K. Um kaldakol fyri fardaga forfallalaust, þat sem fèmætt er eptir, utan kvikfè, þá eignast sá er jörð á). Svá skal sá maðr alla hluti af jörðu færa, ok svá með öllu fara, er jörð sína selr, sem fyr segir um leiguliða þann, er af jörðu fèr.

## 10. Ef maðr sitr á ótekinni jörðu.

Hvervetna þar sem maðr sitr á jörðu ótekinni, þá á landsdrottinn lóð alla. En hinn leysi allt bú sitt undan með landnámi við landsdrottinn. Nú vill hann eigi af jörðu fara, þá skal jarðeigandi stefna

honum þing, ok beiða þar bændr liðs at færa hann af jörðu sinni. Sekr er hverr eyri við konung er eigi vill til fara. Umboðsmaðr konungs er skyldr til at fara, ok öðlast með því hálfa mörk konungi til handa.

## 11. Um heysölu af leigulandi.

Leiguliði skal eigi lóga fè sínu til þess at hann selì hey af jörðu. En ef hann gjörir þat, þá eigi landsdrottinn hálft heys-verðit. En eigi er maðr skyldr at taka fúlgufè til. En ef hann á korn eðr hey falt í staða, þá er hann fer burt af jörðu, þá skal hann bjóða landsdrottni með váttum at kaupa þat, ok gjöra honum hálfsmánaðar stefnu til verðlykningar slíka, sem 6 skynsamir menn meta. En ef hann lýkr þá eigi verðit, selì hverjum er hann vill, eðr hafi sjálfr, ok hagi sem fyr segir. Nú ef tveir menn eiga staða saman, hvárt sem þat er korn eðr hey, þá skal hvergi í burt flytja fyr en skipt er. Ef maðr höggr hey manns um merki fram, þá sekist hann eigi á meðan hann hefr jafnmikit hey þar, þat sem hann þarf til at leggja. En ef hann flytr allt í burt, þá sekist hann 2 aurum við þann er heyit átti, ok eineiði með, at hann flutti eigi minna hey aptr þat er granni hans átti, en þat var, er hann flutti í burt.

## 12. Um heykaup.

Ef menn þurfa í byggðum hey at kaupa, þá skal sá er þarf fara til umboðsmanns konungs með tvá vátta ok beiða hann þing stefna, ok nefna til 6

skynsama menn at rannsaka byggðarlag til heysalna svá víða sem þarf, ok þar sem hey finnst til afhlaups, ætli fyrst hrossum bónda traðgjöf til sumars, sauðfè ok geitum til fardaga, mjólkurkúm til þings. En þat sem af gengr selì sem flestra manna gengr í milli í því hèraði, fyrri þar hreppsmönnum en öðrum, þeim þó, at fullar vörðslur leggi í móti. En sá er eigi vill svá hey selja sem fyr skilr, þá gjaldi hálfa mörk, hálft konungi, en hálft þeim, er heysölu var synjat, ok hafi þó hey fyri engan pening, ok svá sè skipt at jafnaði þeirra í milli, er þurfa. En ef konungs umboðsmaðr vanrækir til at fara, þá gjaldi hann hálfa mörk þeim er hey þurfti at kaupa. En ef nokkurr ver oddi eðr eggju þat hey sem uppnæmt er at lögum, þá veri hann ógildr, hvárt sem hann fær sár eðr aðrar ákomur. En ef hann deyr af, þá sè undir konungs miskunn.

## 13. Um leiguliða skipti á húsum.

Ef fleiri menn en einn búa í óskiptum húsum, þá skulu þeir elda hús að manntali, en eigi at jarðar áhöfn, því at hjón þurfa eldingar, en eigi húsin. En hversu sem þeir skipta húsum, þá eiga þeir allar dyr heimilar þær sem óskiptar eru. En ef nokkur maðr höggr eðr brýtr fleiri dýr á húsum, en þá váru, er hann kom til jarðar, gjaldi konungi hálfa mörk, en aðra hálfa mörk þeim er land á, ok á ofan fyri húsaspjöll sem 6 skynsamir menn meta. Sá skal krefja húsaskiptis, er til jarðar fer, ok hafa við vátta 2, ok lýsi því undir þá, at hann krefr húsaskiptis, ok gjöri hinum fimmt

til skiptis, utan skipt sè áðr. En ef hann vill þá eigi skipta, þá nefni hinn til 2 granna þeirra, ok skipti til hlutfalla ok hluti síðan, ok hafi þat hverr er hlýtr. En ef hann stendr fyri því, síðan skipt var, gjaldi þeim mörk, er til jarðar fer, ok hafi þó hús sem áðr var skipt. Vill hann eigi gjalda, sæki sem vítafè. En þegar skipt er húsum, þá skal sínum hluta húsa hverr halda ok ráða. En þó at eitt naut bindi síðan á hlut annars manns leyfislaust í hús inn, þá sekist sá 2 aurum við þann [1], er til jarðar fer.

## 14. Um taðfall, ok skipti á völlum ok engjum.

Maðr skal þat taðfall hafa, er þess manns fènaðr gjörði, sem þar byggði, er hann hefr sèr bólfestu tekit. Ef maðr tekr myki af annars manns bólfestu, ok færir á völl sinn eðr akr, þá er hann sekr 2 aurum við þann þann er mykjuna átti, ok teði honum þó jafnmikinn akr eðr völl, ok jafnvel sem hinn taddi sèr áðr, með þeim töðum, sem hann flutti burt. Nú koma leiguliðar allir senn [2] til jarðar, þá skal sá krefja skiptis, er hafa vill, við 2 vátta eðr fleiri. En ef óbyggð er jörð, eðr sá eigi kominn, er jörð hefr tekit, þá mæli hann sèr teig jafnmikinn, ok teði jafnvel, ok gjöri síðan hvárt er þeir vilja, hluti eðr hafi þann hverr sem taddan hefr. En leiguliða skipti helzt meðan einhverr þeirra býr á jörðu, er skipti. En ef einhverr þeirra fer burt, en annarr

[1]) Aðrar: þann sem húsit á með rèttu. [2]) Aðrar: eigi allir senn.

kemr til, þá hafi sá þá teiga, ok þau hús, er til kemr, sem hinn hafði, er burt fór, ok njóti hverr sinnar ábúðar. Svá skal jörðu skipta, at allir teigar þyki jafngóðir, eptir leiguburð.

## 15. Hversu sækja skal til leiguliða skipta.

Svá skal krefja skiptis, engja sem akra eðr valla. Af annars jörðu skal maðr hvárki slá nè skera eðr sèr nýta. En ef maðr slær völl manns, eng, eðr sker akr manns, þá skal sá sem á fara til ok lögfesta fyri akr eðr eng, hvárt sem korn eðr hey liggr á eðr eigi, ok leggr á fimmtarstefnu er heldr þykist þurfa. En ef þess verðr akr eðr eng, er lögfesti fyrri, þá skal hann beiðast aptrfærslu korns eðr heys, at aptr komi fyri fimmt, ok leggi á landnám, ok eineiði með, at hann flutti eigi minna aptr, korn eðr hey, en hann flutti burt. En ef hann færir þá eigi aptr, þá krefi hinn út, ok stefni heim innan hálfs mánaðar, ok ef þá kemr eigi heim, þá stefni hann honum þing, fyri rán ok lögleysu, ok láti bera vitni sín á þingi, hversu farit er, ok beiði bændr dóms ok atfarar at taka sem vítafè. Ef fleiri menn búa á einum bæ þá skal engi þeirra, fleira fè hafa[1] en landit má vel upp halda, ok skipti þeir fè ok landi at jafnaði með sèr. En ef annarr hvárr hefr fleira fè í haga, gjaldi grasverð sem menn meta.

[1]) Aðrar bæta við: um sumarit.

## 16. Um landamerki.

Nú ganga menn á landamerki, ok verða eigi ásáttir, þá skulu þeir lögfesta til þeirra ummerkja, er þeir segja rètt vera, er þar eiga land til móts, fyri utan eðr ofan. En ef þeir lögfesta eigi innan 12 mánaða síðan þeir hafa á merki gengit, þá eiga þeir þess máls aldri uppreist. Nú lögfestir maðr yfir merki fram, þar sem rètt var til gengit, bæti hinum skaða þann allan, sem hann hafði af því ok öfundarbót með, eptir 6 manna dómi. Ef maðr lögfestir haga sinn, þá skal sá maðr, er land á þar næst, láta reka bú sitt allt í þat horn landsins sem firrst er lögfestu hins. En ef fleiri menn hafa lögfest, þá skal hann láta reka í miðjan haga sinn fè sitt um aptna. Hann skal hafa rekit þat úr haga hins, þá sól er í austri miðju, þat sem hann mátti finna, þat heita hirðis rismál. Hann skal hafa menn til sjája at fimm at daga, ok ef svá er gjört, þá er hann sýkn saka, þó at hagi hins beitist. Hvergi á maðr at bæta fyri hagabeit, nema lögfest sè, utan hann láti reka at landi eða í land hins, svá at hann vildi at hagi hins beitist, þá bæti fyri skaða, ok landnám með, þeim er gras á. Svá ef hann varðar miðr við þar sem lögfest er en fyr var skilt, ok svá ef hann fær eigi þann mann til hirðis, er skynsömum mönnum virðist at vel megi gæta, ef hann vill.

## 17. Um lögfestu.

Ef maðr lögfestir holt eðr haga eðr veiðistaði, þá skal lögfesta at kirkju eðr á þingi, þar sem jörð

liggr[1], hann skal svá mæla. „Ek lögfesti hèr í dag eign mína, er N. heitir, akra ok töður, engjar ok skóga, holt ok haga, vötn ok veiðistaði, ok allar landsnytjar þær, er því landi eigu at fylgja til ummerkja þeirra, er aðrir menn eiga í móti mèr, bæði at orðfullu ok lögmáli rèttu; fyribýð ek hèðan af hverjum manni í at vinna eðr sèr at nytja, nema mitt sè lof eðr leyfi til, at v tni þínu N. ok þínu N., ok allra þeirra er orð mín heyra“. En sá maðr, sem lögfestir, skal tala svá hátt, at allir heyri þeir, sem hjá eru, ef þeir vilja. En sú lögfesta skal standa 12 mánuði hina næstu eptir, ef eigandi lögfestir eðr hans lögligr umboðsmaðr.

## 18. Um landnám ok áverka á jörðu.

Ef í er ort konungs jörðu, þá á hann áverkabót svá mikla sem áverki er verðr, eptir skynsamra manna virðingu, ok landnám með, jafnmikit áverkabót, þar til er áverki er verðr þriggja marka. En landnám er hálfu meira áverka, ef lögfest er. En þó at áverki sè meira verðr, þá skal þó landnám aldri lengra fram ganga. Ef í er ort jörð erkibyskups eða hertoga, þá skulu þeir taka áverkabót eptir virðingu, hvárt sem áverki er verðr meira eðr minna. Ok sá skulu allir menn áverkabót taká. En landnám þeirra jafnmikit áverkabót, þar til sem áverki er verðr 20 aura, en hálfu meira ef lögfest er. Ef í er ort jörð byskups eðr jarls, þá skulu þeir taka landnám eptir áverkabót, þar til sem áverki er verðr 2 marka, hálfu meira ef lögfest er. Ef

[1] Aðrar: eðr þar sem jörðin liggr.

í er ort jörð ábóta eðr abbadísar eðr umboðsmanns heilagrar kirkju, þá skulu þau taka landnám eptir áverkabót, þar til sem áverki er verðr 12 aura, hálfu meira ef lögfest er. Ef í er ort jörð baróns, stallara eðr merkismanns, þá skal hverr þeirra taka landnám eptir áverkabót, þar til er áverki er verðr 9 aura, hálfu meira ef lögfest er. Ef í er ort jörð riddara, þá skal hann taka landnám eptir áverkabót, þar til er áverki er verðr 6 aura, hálfu meira ef lögfest er. Ef í er ort jörð bónda eðr hölds, eðr þeirra manna úr Noregs konungs ríki eru, ok staðfestast hèr á landi, þá skulu þeir taka landnám, eptir áverkabót, þar til sem áverki er verðr hálfrar merkr, hálfu meir ef lögfest er, nema þeir sè hærri menn at nafnbótum. En einskis manns landnám skal lengra fram ganga en hèr er ákveðit. En allan áverka jarðar skulu meta 6 skynsamir menn.

## 19. Um landnám ok skógarhögg.

Ef fleiri menn eigu jörð saman, þá skulu allir eptir hinum bezta manni landnám taka þeim er í jörðu á með at óskiptri jörðu, ok skipti áverka ok landnámi eptir jarðarmagni, slíkt hverjum sem í jörðu á. En mær taki landnám eptir föður sínum, en ekkja eptir þeim er næst átti hana. Nú ef sumir leyfa íneyzlu í jörðu, en sumir eigi, þá taki sá hverr landnám sitt fullt er eigi leyfði, slíkt sem hann er maðr til, en svá mikit af áverka sem hann á í jörðu til. En ef fleiri hafa óleyft en einn, þá taki allir eitt landnám, en áverkabót eptir jafn-

aði þeir sem óleyft hafa, ok svá þótt þeir allir hafi óleyft, ef jörðu er óskipt. En ef jörðu er eignarskipti skipt, þá tekr hverr þeirra fullt landnám af sínum hlut eptir því sem hann er maðr til. Nú fer maðr í skóg annars manns utan leyfis þess er á, ok vinnr sèr þar í, þá skal sá er skóg á leiða til 6 skynsama menn at sjá stofna, ok meta markarspjöll. Ok svá þó at maðr rífi hrís á annars manns jörðu, þá skal sá, er sèr vann í, landnámi fyri svara, ok bæta þó skógarspjöll sem virt er, ef eigandi hefr vitni til á hendr honum, en ella syni hann fyri með lýrittareiði. Nú höggr maðr svá trè í annars manns skógi, at hann hylr stofna, ok hefr sjálfr, eðr fær öðrum, þá verðr hann þjófr af, sem hann hefði stolit öðru jafnmiklu, ef trè eru svá mikils verð, at þjófsök nemr. Ef maðr höggr skýlihögg á viði manns, birkir eðr skefr svá at spjöll eru í, bæti skógarspjöll sem metið er, ok laudnám með. Ef maðr höggr upp merkibjörk, ok veit hann þat, bæti skáða ok fulla öfundarbót með eptir dómi, hverjum er mark átti í þá björk. Hvervetna þar er maðr hittir áverka í skógi sínum, þá skal hann at ósekju í burt taka.

## 20. Um skógar skipti.

Ef tveir menn eðr fleiri eiga skóg saman, eng eðr úthaga, þá skal engi meira í vinna at óskiptri jörðu en í eign á, eðr taka renna til, nema eldivið. En þar sem menn eiga skóg saman, eng eðr úthaga, þá skal sá er skipta vill, sækja þá til skiptis, er í móti honum eigu, eptir því sem lögbók

váttar í eignarskiptum, því sá skal skiptum ráða er skipta vill. En engi skal svá ráða, at gjöra öðrum spillvirki né fjárskaða í skiptum. En hverr sem meira yrkir í óskiptri jörðu en til kemr eptir réttri tiltölu, þá svari slíku fyri við þann er í móti á, sem sá ætti, er í vann í óleyfi; ok eigi átti áðr í jörðunni, bæti áverka ok landnám. Svá skal skógi skipta, at þeim skal rjóðr ætla, er meir hefr skóg höggvit en lög vátta. En ef eigi er skógr rjóðrhögginn, ok er meir valdit, þá skal sá hafa því víðari skóg er minni hefr nýtt, svá at jafngóðr þyki vera hvárs þeirra hlutr, þeim er skipta. En ef hinn hefr svá mjög höggvit, at eigi má með skógi jafna, bæti þá með öðru fé, svá at fullt sé, ok þó landnám með. Ekki skal maðr höggva í annars manns skógi, nema umferðarmenn farargreiðabót, ok bæti hvat sem bilar at vögnum[1], eðr sleða, klifbera eðr öðrum tréreiða, eðr keyris vönd ok til eldneytis, ef eigi þarf at búa um náttbólkit í sama stað, utan hann nái hvárki at gjöf né kaupi, ok gengr nauðsyn til, þá höggvi meðan þarf, ok bæti skógarspjöll landnámslaust, ef sá áfrýjar, er skóg á, eðr hans umboðsmaðr, ok svá skal ok fara um rekavið, ef menn fara á skipi ok um nætrvist at sama til eldingar. En ef meira höggr eðr hefr en fyr segir, bæti fyri spjöll ok skaða landsdróttni á skógi eðr viði, ok landnám með, nema hann lofi.

## 21. Um skóg á annars manns jörðu.

Ef maðr á skóg á annars manns jörðu, þá á hann

[1]) Aðrar: vögum.

at njóta skógar þess svá sem í hans jörðu sè sjálfs at höggva. Eigi skal hann þar eiki hafa um nætr; hann skal gjöra þar kol ok hafa burt flutt fyri vetrnætr hinar næstu, ok bylja grafir allar svá at eigi liggi húfè í. En ef hann gjörir eigi svá, bæti landsdrottni skaða þann allan sem af gjörist gröfum þeim, er eigi váru huldar, ok landnám með. Ok svá skal hvervetna þar er maðr gjörir kol á annars manns jörðu. Ef maðr færir eigi kol af annars manns jörðu innan næstu 12 mánaða, síðan þau váru brennd, forfallalaust, þá eignast sá kol, er jörð á, ok er þá lokit landnám ok uslagjöld. Nú vill sá nýta lim, er skóg á á annars manns jörðu, þá skal hann láta bera saman lim ok fauska ok stofna í köstu fyri vetrnætr hinar næstu, ella á sá, er jörð á undir. Ok svá ef eigi er burt flutt innan næstu 12 mánaða, þó at samman sè borit. Ef maðr höggr skóg annars manns til hlutar, þá skal þat haldast sem í kaup þeirra kom. Hann skal hafa grafargjörð at frjálsu svá sem þá er maðr á skóg á annars manns jörðu. Nú vill annarr skipta[1] kolum eðr kolaviði, þá skal svá[2] skipta sem fyr segir. Ef viðr vex um þjóðbraut þvera, svá at þar má eigi aka eðr klifjar bera, þá höggvi sá er vill at ósekju þann við, ok kasti í skóg burt frá götu. Sá maðr má beita fè sínu í skógi annars manns, er jörð á undir, meðan meir bítr gras en skóg. En sá maðr, er skóg á, má beita búi sínu meðan meir bítr skóg en sinu. En hverr sem öðruvís beitir, bæti skaða sem

[1]) Aðrar: eigi skipta. [2]) Aðrar: þó.

menn meta ok landnám með. Ef sá rekr eða reka lætr bú sitt í skóg manns, er hvárki á skóg né jörð undir, bæti hvárumtveggja skaða sem menn meta, ok landnám með. Hverr maðr á viðarvönt í sínu skógarmarki meðan hann á þar nokkurn fornan við. Ef menn höggva skóg þann allan upp, er tveir menn eðr fleiri eiga saman, þá skulu þeir skipta með sèr merkiðjörkum ok höggva þæn síðast. Ok þá er skógr sá er svá eyddr, at engi viðr finnst eptir, þá eignast sá skógarstöðu, er jörð á undir.

## 22. Um eng á annars manns jörðu.

Ef maðr á eng á annars manns jörðu, þá skal hinn eigi beita þat engi, þaðan frá er 6 vikur eru af sumri. En sá er engit á, skal þat fyrst láta vinna, nema hann vili töðu sína fyr vinna. En ef hann vinnr eigi svá, ok vill þó unnit hafa, þá bæti hálfri mörk þeim er jörð á, ok er þó óheilagt heyit ok engit. Nú á maðr engi á fleiri manna löndum, þá skal hann sitt sumar hvert fyrst slá, ok eigi fyrri heima en þau eru öll slegin. Maðr má gjöra stíflur á engi því, sem hann á á annars manns jörðu, ok grafi í sínu landi torf til, ok veita svá vötn á engit. Hann skal á sína eugi upp hefja veituna, ok skal þaðan falla vatn í hinn forna farveg. En ef annars manns land spillist af veitunni, bæti skaða sem metinn verðr, ok landnám með, ok svá ef búfè fær þar skaða af. Kost á maðr at gjöra löggarð um þetta engi, ef eigi liggja þar beituteigar annara manna, 5 aura verðir eða meira,

búfé þess, er þat á beit svá nær, [illegible] skal fara, þó at snjó leggi undir garðinn, nema sjálfr hann vili frá láta moka. En ef hann varðar eigi við, eðr gjörir eigi svá orð eiganda, sem nú er mælt, bæti skaða þann allan, er fé hans gjörir þeim, er hey á, ok landnám með. Ef maðr lætr engi sitt uppi liggja óslegit 3 sumur í samt, þá er sá eigi skyldr við at varða, er jörð á undir, nema hinn segi honum fyri fardaga, at hann vill þá slá engit. Nú ef maðr býr svá nærri engi sínu, því er hann á á annars manns jörðu, at hann vill heiman beita engit ok slá eigi, þá á hann þat frjálst meðr því, at hann skal hafa mann at fé sínu þann er svá gæti, at eigi gangi í eng eðr haga þeirra sem næstir eru. Ef fé manns þess, er beit á, svá nær sem fyr segir, treðst undir í garði þess manns, er engi á, af því at eigi var löggarðr þar sem átti at vera, þá skal þat allt bæta fullum skaðabótum eiganda, sá er þeim garði átti uppi at halda. En ef hey er fært í hlöðu eðr hús, svá nær beit hins sem fyr segir, þá á svá um at búa, at fé komist eigi at heyinu. En ef hús fellur ofan, þá skal beitarmaðr láta segja þat eiganda, ok varða við fé sínu, þar til er hinn kemr til at gjöra upp húsit er hey á, eðr gjöri upp sjálfr ella. Nú vill hann eigi til fara at gjöra upp húsit, eðr hefr eigi byrgt vindauga, ok kemst þar fé hins inn, ok treðst þar undir, eðr fellr hús á, þá ábyrgist sá þat fé, ok skaða þann, er þar verðr af, er hús á, ok sæki sem vítafé. Ef fen, vötn, eðr foruð, eðr dýki girða um hey manns, þá er hey þat óheilagt, þegar fé kemst yfir.

## 24. Um skógarvöxt ok engjavöxt.

Hverr maðr á engjavöxt[1] í sínu engimarki, en ef viðarn vex, þá á sá er jörð á undir. Nú vex viðr í engi manns, þar sem annarr á jörð undir, þá er rétt, at sá maðr rífi upp við þann allan er engit á, ef þat er rífhrís, ella á sá við þann, er jörð á undir. En þat er rífhrís, er skjótara er at rífa upp en höggva, en þat er höggskógr, er skjótara er at höggva en at rífa. Nú á maðr engi á jörðu manns, ok vex þar höggskógr, þá skal sá kaupa er jörð á undir, ef hann vill, eptir því sem 6 skynsamir menn meta at engit var vert ok skal sá kjósa, er engit átti, hvárt hann vill hafa engi jafngott eðr aðra aura. Sá er jörð á undir eignist bæði engit ok skóginn, ef hann vill eigi selja. En ef landeigandi vill eigi kaupa, þá eignist hinn bæði engi sitt ok skóginn. En ef engi þat spillist af eggveri, er annarr maðr á á annars manns jörðu, þá skal á sömu leið fara sem um þat engi, er skógr vex á, ok svá þó at þar komi fiskivötn upp. Svá skal engi virða sem þá var vert áðr en þat spilltist af skógi eðr eggveri eðr vatni. Menn megu veita vötnum þeim, er upp spretta í sjálfs hans jörðu ok í sínu landi hverr. En ef þat eru brunnar manna, þá skal hverr fella í hinn forna farveg af sinni jörðu. En engi maðr skal veita svá, at þeim verði mein at, er þann brunnlæk hafa haft. En ef hann gjörir öðruvís, bæti skaða allan þann sem af því gjörist, ok landnámi með þeim er brunn átti, ok óheilagar

[1] Útgáfan 1709 hefir viðarvöxt.

stíflur hans allar við broti, þó at á sjálfs hans landi sè. Nú eiga menn merkivötn saman, ok vill annarr veita því á engi sitt eðr akr. En ef hinum þykir mein at, þá skal skipta sem fyr segir, utan vatn sè svá lítið at þeim vinnist eigi báðum; þá skal sína viku hafa hverr. Mönnum er rètt at sæja eikjum sínum á sumar í annars manns landi, þar sem eigi hefr áðr slegit verit. Hverr maðr á vöxt á sinni jörðu. Ef þar brjóta merkivötn svarðfast land af jörðu manns, þá á sá hólm sinn, er áðr átti, ok nýti sèr sem hann vill, ok lögfesti eigi fyri búfè hins. Rètt er honum at fella vatn í hinn forna farveg. Eigi skal hinn reka þangat fè sitt. En ef þat er engi, þá skal hann þar svá við varða sem engi annars manns sè á hans jörðu. Eigandi skal ok svá vinna láta, ef engi vex í hinum forna farveg, þá á þat hverr sem land á at þar.

## 25. Hversu hey skal þurrka á annars landi.

Ef sjár, eðr vötn, eðr veðr rekr hey manns saman, þá skal sá er hey á á annars manns jörðu kveðja mann þann til skiptis, er hey á með honum. Vill hann eigi skipta, lögfesti heyit ok leggi á fimmtarstefnu, hafi þat hverr sem dómr dæmir. Þeir menn er þat hey eigu saman, sem á annars jörðu rekr, skulu at frjálsu þurrka þar heyit, en eigi burt færa áðr skipt sè. Hann má þat ok vinna á jörðu hins, þar er hvárki spilli akri nè eng, at gjöra löggarð um heyit. En ef hey rekr á engi manns, þá bæti sá þann skaða allan sem metinn verðr er heyit átti.

Ef hey rekr í haga manns, þá á sá at gjöra lög-
garð um heyit er þat á, ok þurrka þar ef hann vill.

## 26. Um lögfestur ok fimmtarstefnur.

Allt þat er menn skilr á um áverka á akri eðr engi, holti eðr haga, skógi eðr reka, eðr svá um landamerki, þá skal lögfesta fyrir, ok leggi sá fimmtarstefnu er heldr þykist þurfa. Hann skal svá mæla: „Ek lögfesti hér í dag eign mína þessa, er N. heitir, eðr þat liggr, bú ok lóð, ok allt þat er þar má til gagns hafa, þar til er dómr fellr á milli um okkar at lögmáli réttu. Gef ek þér þat at sök N. at þú sitr á ótekinni jörðu, eptir eign eðr umboði, eða eignar þér þat er ek þykjumst eiga, fyrirbýð ek þér héðan af at yrkja eðr gagn af at hafa, nema mitt sé lof eðr leyfi til, at vitni þínu N., ok þína N., ok allra þeirra er orð mín heyra. En eptir lögfestu mína legg ek fimmtarstefnu við þik á fimm nátta fresti á þessari jörðu, sem nú lýsti ek lögfest, eiga hvárt er ek vil úti eðr inni,[1] ok skal allr dagr til stefnu, þar til er ek hefr málum mínum lokit. Beiði ek þik lagabeiðslu ok lýzittari at þú leggir fimmtarstefnu í móti lögfestu minni. Býð ek þér enn at gjöra heimildarmanni þínum stefnu til varnar í móti sakargipt minni eptir lögum", ok nefna vitni við. Sex skynsama menn skal hvárr þeirra í dóm nefna á stefnu at virða vitni þeirra ok málaefni. En allt þat er maðr vinnr á akri eðr eng til fimmtarstefnu, ok færir eigi undan lagadómi, þá sekist hann eigi. Sá skal fyrri tjá sína vátta fyrri dómsmönnum, er fyrri lagði lög ok dóm fyri, ok

verjandi síðan, ok skal sá sverja láta sína vátta, er dómsmönnum þykir líkara at sannara segi, ok þeir vilja svára fyri guði eptir sinni samvizku at réttara hafi. En eigi skulu þeir báða sverja láta. En ef þeim semr eigi, er í dómi sitja, leggi til lögmanns. Nú hefr maðr skóg, eng eðr hagu, reka eðr aðrar landsnytjar 20 vetr eðr lengr átölulaust, þá á sá þat er haft hefr, nema hinn hafi löglig vitni til þess at hann á, ef hann skal órænt vera.

## 27. Um váttaleiðslu á fimmtarstefnum.

Allar þær eignir, er menn skulu fimmtarstefnu til leggja, þá skal sakaráberi lögfesta fyri, ok nefna vátta tvá, ok leggja fimmtarstefnu eptir, ok skal þeirri stefnu eigi spilla mega. En ef nokkurr spillir, gjaldi sá 6 aura, hálft konungi en hálft sakarábera. Váttar hans skulu svá bera, ok halda á einni bók, þeir skulu svá mæla: at þeir skjóta því til guðs, at þeir váru því nær, er fimmtarstefna var lögð, ok sveri eigi framar. En ef þá skilr á, er í dómi sitja, ok verða eigi samdóma, þá gjaldi sá 6 aura, er rangara hefr at mæla, hálft konungi, en hálft sakaráþera, nema hann sveri þess eineiði, at hann vissi eigi annat sannara fyri guði.

## 28. Um umboð yfir jörðu eðr reka.

Hverr maðr skal hafa sèr umboðsmann innan fjórðungs þess, er jörð hans liggr eðr reki, nema hann sè sjálfr innan þess fjórðungs, ok þó má hinn hafa umboðsmann, ef hann vill. Sá maðr, sem umboð hefr, sæki landnám ok allan jarðar á-

verka sem hann eigi sjálfr, hálft landsdrottni til handa, en hálft sjálfum sèr. En ef hann sækir eigi, hafi af alls ekki. Umboðsmaðr má jarðir byggja öðrum, en eigi sjálfum sèr, ok leigu af taka, ef landsdrottinn vill; hann er ok skyldr at svara fyri at lögum af landsdrottins hendi, ef nokkurr kærir á þá jörð, eðr gjöra orð landsdrottni. Nú dylr umboðsmaðr, at hann hafi umboð tekit, þá hafi landsdrottinn til 2 manna vitni, at hann hafi honum umboð fengit. En ef landsdrottinn dylr, at hann hafi honum umboð sitt fengit, þá hafi sá, er umboð tók, 2 manna vitni til, at landsdrottinn eðr hans umboðsmaðr fèkk honum þat umboð, ok hafi svá lengi sem vitni bera, ef landsdrottinn er innanlands. En þá er landsdrottinn vill umboð af honum taka bjóði um þeim, er hann vill, at af honum taki þat umboð. Svá má ok skeyti gjöra um sínar heimtur. En sá hafi vitni til, at eigandi bauð honum um, at taka af þeim umboð, er áðr hafði, ok fá þeim er hann vill þat umboð at jafnfullu sem eigandi sjálfr. Ef landsdrottinn er utanlands, eðr andaðr, eðr andast umboðsmaðr hans hèr, þá haldist ábúð jarðar til næstu fardaga, en eigi lengr, þó at lengr hafi byggt verit, nema þeim semi annat, er byggir ok hinum er á jörðu býr. Ok svá skal vera, ef maðr andast utanlands, þó umboðsmaðr lifi, síðan erfingi hefr sannspurt andlát hans. Ef maðr er utanlands, hvárt sem hann fer konungs erinda eðr sinna, þá skal umboðsmaðr hans eðr lögarfi svara rèttindum af hans gózi um þau mál, sem hann hefr aflaga gjört, áðr hann fór í burt.

## 29. Um ábyrgð á eldi.

Sinn eld skal hverr ábyrgjast, frjáls maðr ok fulltíða. Þann eld á hverr maðr, er á heldr ok kveikir síðan. Nú brennir maðr ok eigi með heiptugri hendi, þá skal sá ábyrgjast, er með eld fer, ok bæti skaða allan, er þar verðr af, sem 6 skynsamir menn meta, nema mein verði af þeim eldi, er menn hafa til þarfinda sèr, þá ábyrgist landsdrottinn þriðjung húsa, ok leiguliði tvá hluti. Engar liggja þar sektir við, það heitir váðaeldr. Ef maðr vísar ómaga sínum eptir eldi, þá skal sá ábyrgjast öll ómagaverk, er ómagann á. En ef fulltíða maðr vísar ómaga annars at gjöra þat, sem öðrum er mein at, þá skal sá bæta skaða þann, er ómaganum vísaði, en sá sè liðugr, er ómagann átti, ok svá ómaginn. Brenna má maðr sinu af jörðu sinni þar sem hann vill, ok bæti skaða þann allan, er aðrir menn fá þar af, ok landnám með, ef hann hefr eigi orðlofs at beðit, þá er næstir búa.

## 30. Um brennivarg.

Engi maðr skal fyri öðrum brenna með heiptúgri hendi hús nè heyhlaða, sætr, búð nè skip. En ef hann brennir, ok verðr at því kunnr ok sannr, þá er hann útlægr ok óheilagr ok heitir brennivargr[1], ok hefr fyrigjört hverjum peningi fjár síns í landi ok lausum eyri, en tvígildi þeim aptr, er hann brendi fyri slíkt, sem 6 skynsamir menn meta, ok rètt sinn á ofan eptir lagadómi áðr en undir konung falli eðr frændr, með því skipti sem segir í ó-

1) Aðrar bæta við: ea síðan.

bótamálum á manhelgi; en ef með öðrum hætti verðr, fari eptir skynsamri manna virðingu eðr dómi eptir atvikum. Nú kveðr sá maðr nei við, er brenna var kennd, þá skal sakaráberi fara til heimilis hans, ok stefna honum þing fyri brennu ok útlegð; þá skal sá, er synja vill, festa tylftareið þar á þinginu, ok hafa þann unnit innan 10 vikna særra daga, fellr til útlegðar ef fellr. Ef maðr ræðr brennu, ok verðr at því sannr, þá skal hann þat allt tvígjalda aptr, er brennt var at hans ráðum. En ef hann segir nei fyri, synji með séttareiði. Ok skal sá eiðr fram koma innan 10 vikna særra daga, fellr til hálfra gjalda ef fellr. Ef maðr brennir fyri manni viðarköst, timbr, eðr grindr, eðr sleða, eðr önnur amboð [1], þau er mönnum þykkir betra at hafa en missa. Nú hverr er þat gjörir, sekr mörk við konung, en tvígildi þeim, er hann brenndi fyri, ok öfundarbót með eptir dómi. Landsdrottinn á jafnan landnám, ef þat er brennt, er hann skaðar.

## 31. Um löggarða ok garðastefnur.

Nú skal görðum skipta ok öllum áverka eptir jarðarhöfn. Garðr skal granna sættir. Hverr maðr skal löggarð hafa um töðuvöll sinn, þó at eigi hafi fyr verit, ef svá nær er annars landi, at minnr sé frá en 2 hundruð faðma tólfræð, ok svá [2] fyri þá völlu alla, sem áðr hafa löggarðar um verit, ok svá engjar. (R. B. E. K. Fulla skaðabót skal greiða fyri beit töðu, akra ok engja, landnámslaust, fyri

[1]) Aðrar; andvirki, [2]) Aðrar bæta við: þó at lengra sé frá.

ok tvá aura með í bokkabót, þeim er fyri skaða verðr.

## 32. Um löggarð bæja í milli.

Ef menn vilja löggarð hafa bæja[1] í milli, þar sem eigi hefr fyr verit, þá gerði hverr at jarðarmagni sá sem hafa vill. Ok svá skal hverr er til móts á at jarðarhefð halda síðan. En sá er eigi vill garð gjöra, eðr halda honum síðan, gjaldi at öllu skaða þann allan sem þar gjörist af. Eigi er maðr skyldr að gjöra þenna garð, þó at hann verði beiddr, ef torf þarf á eikjum til at bera. Ef þar verðr höggskógr, eðr eggver, eðr töðuvöllr fyri, þá skal fyri nes gerða en eigi gegnum. En ef rifhrís er fyri, eðr engjar, þá skal þar eigi fyri nes gerða nema vili. En bæta skal þá þeim, er átti, öðru engi jafngóðu ok jafnmiklu. Fimmt skal gjöra til görðum at skipta, ok hluta, ok hafa vátta við, hvárt sem hinn vill eðr eigi, ok ábyrgja honum síðan garðinn ok allan usla þann sem fènaðr gjörir þar, hverir sem þann fènað eiga. Ef þjóðvegr liggr at garði manns, þá skal hlið á vera, hálfu fimmtu álnar breitt, ok hjarðgrind fyri, ok rimar í, svá at fènaðr megi eigi smjúga, okar tveir á endum, en krossband í miðju; þá er grind gild. Svá skal grind setja, at hún renni sjálf aptr, ef maðr tekr af hrossi til. Ef maðr skýtr upp grindum, ok gengr fènaðr í akr eðr eng, bæti skaða þann, er gjör var þeim er korn eðr gras á, sá er þat gjörði, ok landnám með. Svá ok ef maðr höggr grindarhæla í

[1] Aðrar: búla

maðr, eðr veltir steini fyri eðr frá, ok stendr fyri þat hlið opit. Nú liggr þjóðvegr um bæ manns eðr garða, þá má hann færa götu af bæ sínum ok svá frá garði, ef hann gjörir aðra jafngóða utan garðs at fara í þurru ok votu, eigi lengra frá þjóðhliði en 2 hundruð faðma, tólf ræð, ok skal þá þann veg fara, þó at sá sè lengri. Ef maðr ríðr, eðr gengr yfir töðuvöll, akr eðr eng, ok vill eigi fara vegu rètta, hann er sekr mörk við þann lóð á, ok bæti skaða þann allan sem þar verðr. Ef maðr brýtr garðinn, þá liggja 2 aurar við hliðbroti. Hlið er þar til hálfrar fimmtu álnar er breitt. En ef lengra brýtr, þá sekist sá mörk við þann er garð á, ok gjöri garð jafngóðan, ok bæti skaða þann allan sem af gjörist, nema girt sè um þjóðbraut þvera, eðr gata sè lengra af þjóðveg færð en fyr segir, þá er sá garðr óheilagr við broti fyri þeim er þar þurfa at fara, hvárt sem þeir fara virkan dag eðr helgan, ok svá lóð sú er af því spilliat.

## 33. Hvernig fènað skal inn setja.

Ef einn maðr á akr, töðu eðr eng, annarr fènað, þriði garð ógildan. Sá er lóð á skal eptir mönnum ganga, ok láta sjá at fènaðr er kominn í akr, töðu eðr eng. Þá skal hann með váttum úr taka, ok láta þá 6 menn meta usla þann er gjörr var, ok setì síðan inn fènað þann allan, ok reki lausan í hús inn eðr tröð, ok leggi hvárki á bast nè band. En þó at hvert stangi annat til bana, þá er þat í ábyrgð eiganda, en eigi þess er inn setti. Þat skal hann ábyrgjast, ef treðst undir af húsþröng, eðr

ok stefni sá er bú á kirkjusóknarþing, ok beiði bændr atfarar at taka út bú hans ok sektina með. Hverr maðr er sekr eyri við konung sá er eigi fer. Umboðsmaðr konungs er skyldr til at fara, ef hann er nær, ok öðlast með því konungi hálfa mörk til handa fyri búrán. Þeir eru allir friðhelgir, er til sækja, en hinir ógildir, er fyri standa, hvárt sem þeir fá ben eðr bana. Ef sá maðr, er fyri beit verðr, rekr eða reka lætr bú hins aptr í akr eðr töðu, eng eðr andvirki þess er fè á, bæti skaða þann allan, sem af verðr, ok landnám með, ok hafi ekki fyri þann skaða, er hann fèkk. Nú rekr maðr eðr reka lætr bú annars manns svá at máls missir, bæti búmissu sem 6 skynsamir menn meta, ok mörk með þeim er bú á. Þá missir búfè máls, er þat kemr heim um aptna, er um morgin skyldi, en þat um morgin, er um aptna skyldi, nema sá er á vanræki, ok vili eigi leita láta.

## 35 Um hálfgildi ok algildi á hestum.

Ef maðr á graðan hest, þá skal hann kaupa hross til hans eðr fá at láni. Ok ef honum er lèð, þá skulu þat váttar vita. Ef þeir hestar bítast, er svá eru varðveittir, ok fær annarr hvárr bana af, þá skal þann meta, er dauðr er, ok gjalda þann hálfum verðaurum, nema sá sè verri allr, er lifir, en hinn hálfr, er dauðr er. Þá skal eigi meira bæta en sá er verðr er lifir, því at eigi mátti hann meira fyrigjöra en sjálfum sèr. Ef maðr á þann hest, er ekki fylgir hross, ok bítist hann til stóðsstæðu annars hests, á þeim hesti er algildi, en ef

hann fær bana af er til hleypr, þá liggr hann dauðr á áverka sínum sjálfs, ok ógildr eiganda. Ef hestr bítr hross til dauðs, þat er algildi. Ef hross bítr hest til dauðs, þat er hálfgildi. Ef graðr hestr bítr eðr lýstr jálk til bana, þat er algildi. Ef jálkr bítr hross til bana þat er hálfgildi. Ef hross liggr úti dautt, þá skal sá, er þat hross á, leiða menn til at sjá, ok ef þeim sýnist hestverk á vera, þá má eigandi gefa þrem mönnum sök til jafns rèttar þeim er hesta eiga í grennd. Því at eins hinum fjórða, at hann gjöri þess hest vitnissannan at. Syni hverr eineiði fyri sinn hest eptir sinni samvizku. En ef einhverr vill eigi synja fyri sinn hest, gjaldi sá hest verðaurum Ef hross er rekit í bekk eðr dý fyri fjall eðr í forað, ok má sjá tveggja hrossa far til, en eins frá, þá skulu þeir menn, sem hesta eiga í grennd, svara hinum sama rètti sem fyr váttar. Ef hross eðr naut drepa smáfènað, þat er algildi, ok á öllu því fè, sem ofríki gengr at.

## 36. Um hestavíg ok taglskurð.

Hvervetna þar sem menn etja hesti manns, at óleyfi þess er á, bæti skaða þann allan, sem af verðr, ok öfundarbót með, eptir dómi, þeim er hest á. En ef hálfrar merkr skaði verðr á, bæti fullrètti eptir dómi eiganda þeim er hest á, eptir því sem með heipt eðr öfund væri gjört. Hverr maðr skal ábyrgjast sik sjálfr á hestavígum, hverir sem etja. Ef maðr lýstr hest manns á hestavígi nauðsynjalaust, gjaldi eiganda öfundarbót eptir dómi. En ef hestr spillist af, bæti fyri spjöll, ok fullrètti

þeim er hest á eptir lagadómi. Ef maðr sker tagl úr stóðhesti manns, eðr þinghesti, eðr þeim hesti, er maðr hefr í brúðferð, bæti fullrètti þeim er með hest fer, nema hann hyggi annat, þá bæti sem síðarr segir. Ef maðr tekr hopting af hrossi manns ólofat, gjaldi eiganda fyri eptir dómi, ok ábyrgist hross at öllu, ok svá verk þess, þar til er eigandi kemr höndum á, ella syni einseiði fyri, utan maðr seti inn til uslagjalda. En ef hross eðr annarr fènaðr rennr eptir manni, þá seti hann inn á fyrsta bæ, er fyrir honum verðr á leið, ella ábyrgist hann at öllu þann fènað eðr hross, ok bæti skaða þann sem eigandi fær af. Nú vill sá eigi taka með honum, er fyri sitr, eðr inn láta, þá ábyrgist hann at öllu þann fènað.

## 37. Um leiguhross.

Ef maðr leigir hross at manni, eðr er honum lèð til þings, ábyrgist sá er með fer, utan þat ef halt verðr eðr sárt, ok verðr heilt innan næstu 14 nátta, er heim kemr. Nú deyr hross fyri manni, bæti sem þá er vert, er hann tók, ok þá enga leigu með. Nú verðr riðit hrossi því, er maðr fer með at leigu eðr láni, þá á hann sókn á því. Alin skal kaupa gæzlu á hrossi hverju á alþingi. En gæzlumaðr skal svá með fara ok varðveita hross sem hann eigi sjálfr, ok vili þó vel með fara ok geyma, ok ábyrgist hann þá eigi. Ríða má gæzlumaðr, ef hann vill, ok reka hross til þings, ok svá frá þingi, ok skal hann skipta því at jafnaði, ok ábyrgist hann hross þat í þessa sína nauðsyn. Gæzlumaðr skal sýna hross hvert at þinglausnum hverjum eiganda; annathvárt

lífs eðr dautt, ella ábyrgist hann við eiganda. Ef gæzlumaðr geldr eiganda verð fyri hross þat eð hverfr frá honum á þingi, þá á hann sókn á því, ok heimtu á þeim er í burt tók. Eigi skulu þingmenn heldr en aðrir menn æja í engjum bænda. En ef þeir vita eigi engjamark manna, þá skulu þeir eigi æja þar sem stakkgarðar eru nær. Ef menn reka frá mönnum hross á áföngum, bæti öfundarbót eptir lagadómi.

## 38. Um ábyrgð á hrossi.

Ef eigandi sendir mann með hross sitt, eik eðr annan grip síns erindis, þá ábyrgist sá þat eigi er með fer, utan hann fari aðra leið, eðr lengra, eðr fari eigi svá með sem eigandi kveðr á, þá ábyrgist sá er með fer. Nú kemr hross þat í land manns, er maðr veit eigi hverr á, þá skal hann lýsa at kirkju eðr á þingi, ok ef engi kemr eigandi eptir innan hálfs mánaðar frá því er lýst var, þá er honum rètt að láta virða hrossit. Síðan má hann með fara sem hann eigi, ok ábyrgist at öllu. Svá skal virða, sem þá var vert, er lýst var. Nú kemr eigandi eptir því hrossi, kjósi sjálfr, hvárt er hann vill, hross eðr hrossverð. Nú mistrúir hinn, at hann eigi, þá láti eigandi bera tveggja manna vitni, at þat er hans eign, ef hann skal óræntr vera. Sömuleiðis skal fara, ef lögligr umboðsmaðr eiganda kemr eptir hrossi.

## 39. Um skaðabót á fènaði.

Aldri gengr fènaðr sèr til ógildis. Nú drepr maðr fènað manns, ok gengr við, ok segir sjálfr eiganda, hafi sá hit dauða ok hit lamda, er drap óviljandi,

en hinn heilt fyri. En ef maðr drepr fènað manns eða meiðir vilja hendi, ok segir eigi eiganda, bæti fullrètti eptir dómi, ef hálfrar merkr skaði verðr, en öfundarbót eptir dómi, ef minna verðr, hálft konungi, en hálft þeim er fè á, ok at auk bæti löstu á fènaði sem 6 skynsamir menn meta. Eigi skal sárabót á fènaði, ef heilt verðr. Verkafall ok nytfall skal bæta sem menn meta. 2 aurar liggja við auga á nauti, svá við horn, svá við hala. En fjórðungr verðs við auga á hrossi. Ef maðr höggr tagl af hrossi, svá at rófa fylgir, sekist 12 aurum, hálft konungi, en hálft þeim er hross á, ok gjaldi hrossverð aurum. Hafi sá stöku, er stýfði, ok heiti maðr at heimskari, en hinn heilt hross fyri jafngott er átti, eðr annat fè, ef eigi er hross til. Ef maðr höggr tagl af hrossi fyri neðan rófu, bæti mörk, hálfa konungi, ok hálfa þeim er hross á, utan þá hesta, sem áðr váttar, fari sem fyr segir. Nú sker maðr hala af þrem nautum eðr færrum, bæti hálfri mörk, hálft konungi, en hálft þeim er naut á. En ef maðr sker af fleiri nautum en þremr, sekist mörk við konung, annari við þann er naut á. Nú er ein sök á öllum öfundarrètti þeim, er fènaðr er barðr eðr drepinn, þá skal eigandi stefna honum þing þrínætt í því hèraði, sem sá er, er fènað hefr drepit eðr særta[1]. Þar skal hann sækja, ok láta sátt gjöra með tveggja manna vitni, at þeim sýndist manna handaverk vera á fènaði þeim, nema hinn viti við ganga. Ella skulu þingmenn dæma honum lýrittareið, þann skal hann unnit hafa

[1]) Aðrar sleppa: „sem sá er .... sært".

innan mánaðar særra daga. Ok ef sá eiðr fellr, gjaldi fènað verðaurum, ok þat meira sem fyr segir.

## 40. Ef naut banar nauti.

Nú fer allt saman hjörð ok hirðir, þá skal hirðir vita, hvat af hjörð verðr, ok bera þar um bókarvitni, ef hann er váttbær um þat mál. Ef uxi stangar uxa, þat er hálfgildi. Ef uxi stangar kú, þat er algildi, ok öllum þeim nautum, sem yngri eru en þrevetr utan graðungr, þá er algildi á þeim, ok svá á öllum kollóttum nautum. Nú ef naut er stangat, þá skal sá er á menn til leiða at sjá, ok ef þeim sýnist, at naut hafi stangat, þá skal hyggja at nautum ok hornum nauta þeirra, er með hafa gengit, ok ef eitthvert naut hefr ben á hornum, blóð eðr gor eðr hár, þá er þat líkast til, ok bæti sá þann fènað aptr þeim er á, sem þat þat naut átti, eptir lögum sem áðr segir. Ef hundr bítr fènað manns, eðr eltir á forað, fyri björg eðr á sjó, bæti sá er hund á hálft fyrsta sinni, en allt jafnan síðan, ef vitni eru til. En ef eigi eru lögleg vitni til, haldi fyri einseiði fyri sèrhverja grein þessa at sinni vitund.

## 41. Um eyðijarðir.

Engi maðr skal bólstað sinn í eyði leggja, ef hann fær byggt. En ef hann fær eigi til leigu byggt, þá skal hann bjóða þeim með váttum þá jörð at leigja er næstir búa, eptir því sem 6 skynsamir menn meta. En ef þeir vilja eigi leigja, þá sekjast þeir þar svá á beit sem á byggðu bóli, ok svá

skulu þeir við varða. Sá má ok lögfesta þá jörð er á, ef hann vill. En ef hann vill eigi byggja landið eðr bjóða grönnum sínum, þá sekist hann hálfri mörk við konung, en land óheilagt við beit granna hans, ef fè þeirra gengr misgöngum þangat. En eigi skulu þeir reka láta þangat fè sitt.

## 42. Um sætr ok selfarir.

Hvervetna þar sem sætr eru til bæja manna, þá skulu menn fara með búfè sitt yfir annars land til sætra, ok hafi fornar götur, ef til eru, ok hafi í togi laus hross, ef yfir eng er að fara. En ef keldr eru á leið hans, þá má hann gjöra þar brúar yfir, ok vinna þann áverka á jörðu hins. Menn skulu fara úr húshaga með fè sitt, þá tveir mánuðir eru af sumri, utan þeim þyki öllum annat hentara, er burtfærslu eigu. En ef einhverr sitr lengr niðri, þá skal sá er at telr fyribjóða honum þar setu. Nú sitr hinn heima eigi at síðr, þá skal hann stefna honum hèraðsþing fyri grasrán ok þrásetu. Þá eiga þingmenn at dæma konungi hálfa mörk fyri grasrán, en grönnum hans hálfa mörk fyri grasverð, þeim er gras missa. Nú skal hann sæta svá marga bændr liðs, sem hann þarf at færa fè hins úr haga[1] sínum. Sekr er sá hverr 2. aurum við konung er eigi fer, ef hann er til krafðr. Slíkt hit sama liggr við, ef maðr fer heim í húshaga fyri tvímánað.

## 43. Um almennings vegu.

Nú skal til sætra á fjöll upp vera merki, sem at

[1]) Aðrar: húshaga.

fornu fari hefr verit. Ok færa sætr eigi úr stað, utan hann færi engum manni til skaða. Ok svá skulu þeir hit sama sætrum halda. Engi maðr skal setja sætr sitt við annars land eðr haga, þar sem eigi hefr at fornu verit. Þar skal mæta horn horni ok hófr hófi.

## 44. Um þjóðgötur.

Þjóðgata ok sætrgata, ok allir rekstrar skulu vera sem at fornu fari hafa legit, utan færa má götu ef vill sem fyr segir. Nú skal þjóðgata vera 5 álna breið. En ef hann spillir víðar akri eðr eng, þá skal hann bæta sem 6 skynsamir menn meta, skaða þann, ok landnám með. Nú rænir maðr annan mann þjóðgötu [1], þá skal hann gjalda konungi hálfa mörk, ok svá fyri handrán, en þeim fullrétti eptir dómi er ræntr var. *(R. B. E. K. Skylt er bændum at gjöra vegu færa um þver hèruð ok endilöng, þar sem mestr er almanna vegr, eptir ráði lögmanns ok sýslumanns. Sekr er hverr eyri, er eigi vill gjöra, ok leggist þat til vegabóta. Nú brýtr maðr brú af þjóðgötu eðr sætrgötu, gjöri aptr aðra brú jafngóða sem áðr var, ok bæti þeim mörk er brú átti. Ef maðr rænir annan mann sætrgötu eðr rekstri, þeim sem at fornu fari hefr verit, bæti konungi hálfri mörk fyri vegarán, ok hafi hinn þó götu sem áðr.

## 45. Um brúargjörð ok ferjur.

Ef á skilr lönd manna, þá skal sá er brú vill gjöra bjóða þeim er til móts eigu land við hann

---

[1]) Aðrar bæta við: eðr rekstrargötu.

öðru megin at gjöra brú, ef hann vill. En ef hann vill eigi, þá má hann grafa báðum megin torf til at frjálsu. Nú verðr hinum mein at gröfum þeim, er þar gjörast af brúargjörð þeirri, þá skal sá, er brú gjörði, þar sem eigi hefr fyr verit, bæta skaða þann allan, sem þar verðr af gröfum þeim, landnámslaust þeim er til móts á. Nú vill sá brú gjöra, er hvárigu megin á land, þá bjóði hann þeim fyrst at gjöra brú, er þar eigu lönd tveim megin við. Ok ef þeir taka eigi til innan næstu 12 mánaða, þá má hann at ósekju brú gjöra, ok taka torf ok grjót báðum megin, ok bæti landnámslaust þeim er jörð á, ef mein verðr at gröfum þeim. Hann skal gjöra skilorð á brúnni þat sem hann vill, ok lýsi því á hèraðsþingi, ok sekist sá eptir lögum, er af bregðr. Hvárrgi má banna öðrum þeirra manna, er land eiga við ána at hafa skip á. Rètt er ok þeim manni, er hvárigu megin á land við, at hafa skip á ánni, ef hann vill, at þar sè jafnan skip meðan áin er þíð, ok meta eigi leigu. Svá er þar um götu sem fyr segir. Ef maðr varðveitir brú eðr skip þat, er fè er til lagit, þá sekist hann, ef hann efnir eigi þann máldaga, sem þar var á gjör. Nú fyrnist skip þat sem fè var til lagit, svá at eigi er fært, fái til annat innan þriggja nátta sá er ferju varðveitir, ella sá, er skipinu skal halda. En ef ferjan brotnar fyri vötnum eðr veðrum, fái til aðra sem fyrst má hann. Eigi skal sá ábyrgjast almennings far, er flutt er. Nú mètr farhirðir þar leigu, sem leigulaust skal flytja, þá er synjat fars. Nú neyðir hann vegferla til meiri leigu en skilt er, þá er

synjat fars. Sú er hin þriðja sök, ef hann synjar manni fars, er fulla leigu býðr. Sú er hin fjórða sök, ef þess fars missir dægri lengr, þar sem skylt er at flytja. Ok ef farhirðir verðr at þessu kunnr ok sannr, þat heitir vegafall, ok er hann sekr hálfri mörk við konung, ok bæti þeim fyri farartálma, er fars missir, ok skaða þann allan, er hann fær af, ok 2 aura í þokkabót. Ef maðr lætr flytja naut á skipi, komi kaupi sem hann getr. En ef hann gengr á skip farhirðis ólofat, eðr tekr fyri hendr honum, þat er fornæmi, sekr mörk sá er þat gjörir, hálfri við konung, en hálfri við farhirði. Nú er farhirðir eigi skyldr lengr at flytja á sumar en til þess at sól er sett, ok eigi fyrri en sól kemr upp, því at sól skal um sumar flutningi ráða, en dagr um vetr. Ef farhirðir flytr sekan [1] þjóf yfir á óduldr, þá hefr hann fyrigjört húð sinni, ok heitir þjófsnautr. Ef brúarhald er skilt á hendr manni, ok skilt er gjörr, þá skal hann at gjöra svá, at brú sè örugg, ok hún haldist fyri fyrnsku sakir, ok gjöra skal hann aðra sem fyrst má hann, ef áin brýtr brú af.

## 46. Um afrètt ok rekstr.

Allir þeir menn, sem afrètt eigu, skulu reka fè sítt í miðjan afrètt. Um geldfjárekstr á várum til afrèttar ok fjallgöngur á haustum, hvern tíma vera skal, þá gjöri eptir því sem hreppstjórnarmenn gjöra ráð fyri, ok hverju byggðarlagi hæfir. Því at þat hæfir eigi öllum byggðarlögum einn veg til. Nú er eigi svá gjört, þá er hann sekr 6 aurum er þann af-

[1]) Aðrar sleppa: sekan.

rètt á, hálft konungi, en hálft þeim er næstir búa[1]. (R. B. H. K. Lofat er at geldfè sè í heimalöndum, ef hreppstjórar eða grannar lofa ok gefa enga sök á. Eigi skulu menn málnytu sína í afrètt reka, nema þeir eigi ítölu. Eigi eiga menn at lofa afrètt, nema ítala sè, þá má hverr fylla sína ítölu. En ef sumir lofa en sumir eigi, taki þeir er eigi lofa slíkt grasverð sem menn meta, ok fullt landnám með. En ef einn hefr óleyft, hafi sá grasverð í sinn hlut, ok fullt landnám með. Eigi skal sætr gjöra í afrètt, en ef gjörir, þá eru þau óheilög við broti fyri þeim, er þann afrètt eigu, ok bæti þó fyri skaða sá er sætr gjörði, ok landnám með þeim er þann afrètt eiga. Ef maðr rekr eða reka lætr fè sitt í afrètt utan orðlofs frá því er 6 vikur eru af sumri ok til sunnudags[2] þess er laugardaginn áðr eru 4 vikur til vetrar, þá bæti fullt grasverð hverjum er þann afrètt eiga, ok landnám með. Sá maðr má beita afrètt á vetr er hlut á í henni, ef hann þarf eigi at reka fè sitt yfir annars land til. Þat heitir afrèttr, er tveir menn eðr fleiri eigu saman, hversu mikit sem hverr á í. Ef maðr slær í afrètt utan orðlofs þeirra er eiga, þá eigu þeir heyit, er afrèttinn eiga, ok landnám með hverr þeirra.

## 47. Um einkennu ok mark.

Menn skulu einkenna fè sitt allt utan hross, ok hafa einkennt, er 8 vikur eru af sumri allt þat er hann má á henda. Eitt mark skal hverr maðr hafa á

[1]) Sbr. Rèttarbót Eiríks konungs Magnússonar, 15. júlí 1294.
[2]) Aðrar: mánudags.

öllu fè sínu. Ef hann gjörir eigi svá, þá er hann sekr hálfri mörk við konung. Eigi er maðr sekr, þó at eigi verði rètt hans mark á því fè, sem hann hefr af öðrum til. En færa skal hann sem hann má næst sínu marki. Erfðamark skal hverr maðr hafa, ef hann á. Skipta skal marki sem öðrum arfi, ef fleiri standa til en einn. Nú vill maðr gjöra sèr mark, þá skal hann lýsa því á hèraðsþingi áðr hann markar fè sitt, hvert mark er hann vill hafa. Eigi skal hann þat mark hafa, sem annarr hefr áðr í því hèraði, eðr svá nær at fjárgangr þeirra komi saman. Af skal hann láta marki, þó at hann hafi á þingi lýst, ef nokkurr verðr síðarr eigandi til þess marks. (R. B. E. K. Um kálfa ok lömb, kið ok grísu, þá sekist maðr eigi, þó at ómarkat sè, meðan í sjálfs hans landi gengr). Nú er fè ómarkat, þá er átta vikur eru af sumri, þá má hverr bóndi er vill, ok þess kyns fè á, leiða til skilríka menn at sjá þat fè, sem ómarkat hefr gengit í landi hans, hvat fè sem þat var, ok skylt var at marka, ok leggja á sitt mark ok eignast, nema hinn hafi vitni, at þat er hans fè, ok hann mátti þat fè fyri nauðsynja sakir eigi marka. Ok ef hann fær þessi vitni, þá á hann sjálfr fè sitt, ok er þá hvárrtveggi sýkn saka. En ef hann vill þá eigi laust láta, sæki sem vítafè. Ef maðr færir búnað sinn hreppa á meðal, þá skal hann segja til einkunnar sinnar í þeim hrepp, sem hann hefr bú sitt í fært, ok láta skrá með einkunnum þeirra manna, er þar búa áðr fyr. Ef menn verða eigi fyrri varir við, at mark ber saman með þeim, en fè er á fjall rekit þar sem þeir

eiga samgengt, þá skulu þeir taka fè þat allt, er þeir lètu reka í afrètt ok reikna, ok sverì hverr at sínu fè eineiði, at svá mart var, sem þá hefr hann hann talt, ok þess kyns fè ok svá gamalt. Nú skal hvárr þeirra sýna á haustit grönnum sínum 6 þat fè, er þeir heimta, ok þeir skipta sem þeim þykir jafnligast eptir fjárfjölda, hversu margs hvárr þeirra skal missa, ef þeir heimta eigi allt, nema annarrhvárr hafi til tvá lögliga kennendr, at þat er hans fè, ok eigi gaf hann nè galt, nè sölum seldi, ok þat er hans eign, ef hann skal óræntr vera. Ok ef þeir sverja þetta, þá skal hann taka þat fè af námi. En því færra á hann eptir at heimta. Nú þykir svá öðrum hvárum, sem eigi sè allt til skiptis látið, þá sverì hinn fyri lýrittareið, ella greiði honum slíkt, sem hann sver eigi fyri. Rètt er manni at ljá öðrum manni mark, ef hann er sauðlaus, ok hafi sjálfr, þegar hann á fè til at leggja, ella á hann eigi heldr en aðrir, þó at þat hafi áðr hans erfðamark verit. En ef dilkær eru, þá er mönnum eigi skylt at marka dilka undir þeim meðan móðir ber þar vitni um, ok svá kýr um kálf, gyltur um grís.

## 48. Ef menn eiga sammerkt.

Ef 2 menn eiga mark saman, þá skal sá af bregða, er eigi á erfðamark, nema sá sè þangat kominn í hèrað, er erfðamark á, þá skal hann af bregða, en hinn haldi marki er fyri sitr, þó at honum sè eigi erfðamark. Nú á annarr kaupamark en annarr gjafamark, eðr gjörðarmark, þá skal sá af bregða,

er gjörðarmark á. Nú eiga báðir erfðamark eðr hvárrgi, þá skal sá af bregða, er færri sauði á, ok skulu þeir skipta á næsta hausti, er þeir vita, at mörk ber saman með þeim. Skal sá, er mark á at hafa, beiða hinn með váttum at bregða marki, ok ef hann vill eigi af bregða, þá skal sá, er mark á at hafa, eignast svá mart fè sem hann á ván hvert haust síðan, er fè kemr af fjalli, en hinn er þó sekr hálfri mörk við konung, ok hafi þá eina sauði, er hinum gengr af tölu sinni, er mark á at hafa. Ef sauðir eru goldnir[1] manni, þá skal hann af marki bregða sama dag, ok færa sem næst sínu marki, ok þótt þá verði annars manns mark á, þá á hann, en eigi sá, er mark á. Svá ok ef naut verða goldin manni, þá skal af bregða marki innan hálfs mánaðar sem gefit er eðr goldit, utan hross. En ef eigi er svá gjört, þá eignast sá þat fè sem mark á, ef eigi er af brugðit innan hálfs mánaðar síðan hann bannaði lögliga með vitnum. Eyrnamörk skulu vera á öllu gangandi fè en engi önnur. Skilr mörk þó at eyrnaskipti sè á fè. Nú verðr lamb mismarkat í stekk, þá skal sá er markaði gjalda annat lamb fyri jafngott, ómarkað eðr verð lambs, nema hinn vili heldr eiga lamb sitt, ok færa sem næst má hann sínu marki. Ef maðr markar fè annars manns utan orðlof þess er á, gjaldi fyri spjöll sem menn meta, ok ófundarbót með eptir dómi, þeim er fè á. (R. B. E. K. Ef maðr leggr sitt mark á annars fè með leynd, ok villir svá heimildar á, þá er hann þjófr,

[1]) Aðrar bæta við: eðr gefnir.

ef fè er svá mikit at þjófssök nemr). Nú verðr maðr vitnisfastr at því, at hann markar fè manns annars manns marki, til þess at rægja þá saman, gjaldi fullrètti hvárumtveggja eptir 6 manna dómi, en konungi 4 merkr.

## 49. Um fjallgöngur ok fjárheimtur.

Hverr maðr, er sauði á, skal ganga á fjall eitt sinn, ok um landeign sína hvert sinn, er lögrètt skal vera á haust, en skipta svá öðrum göngum sem hreppstjórar gjöra ráð fyri. Sekr er sá maðr hálfri mörk við konung, er eigi gengr um landeign sína, ok ábyrgist sauði við þá er eigu, alla þá sem í hans leit váru sènir, þá er hann átti gönguna. Þar skulu rèttir vera sem at fornu hafa verit, ok svá langt ok víða til reka. Nú villast dilkar í rètt, ok verða þeir er til kalla eigi ásáttir, þá skulu þeir sýna 6 grönnum sínum þeim er næstir búa rètt, ok skal þar sýna þá sauði, er þess væri ván, at þá dilka mundi leiða, ok skulu þeir menn skipta dilkum með þeim, er til kalla, öllum þeim er ær kannast eigi við. Nú verðr nokkrum dilkum óskipt at síðustu rètt, þá skal bóndi sá, er rèttina varðveitir, sýna grönnum sínum dilka þá, áðr hann leggr sitt mark á, ok eignast hann þá. En ef þaðan af ganga dilkar ómerktir, þá má svá gjöra hverr maðr í sínu landi, hvar sem þeir kunna fram at koma, sá er sauði á. Sama mál er um eldri sauði ómarkaða eðr annat fè þat sem engi telst til, utan maðr mætti eigi marka. Nú finnr maðr fè ómarkat í almenningi eptir, síðustu rètt. þat sem

móðir mörkuð ber eigi vitni um, þá eignist sá þat fè er finnr. Ef hrútr eða hafr kemr í fè manns fyri vetrnætr, ok þykir honum mein at, þá má hann inn setja, ok ala sem sitt fè, ok segja grönnum sínum, hvert mark á er. Rètt er honum at láta sauma fyri. Nú verða hrútar eðr hafrar ótýndir at vetrnóttum, þá má sá, er rèttina varðveitir, sýna þá sauði grönnum sínum [1]. Ok ef þeir vita eigi hverr þá sauði á, gjöri hvárt er hann vill, skeri, eðr leggi á sitt mark, ok eignist at allra heilagra messu, vetrgamlan hrút eðr hafr fyri lambgimbri eðr 18 álnir, en tvævetran fyri hálfan fimmta eyri, hrútlamb eðr hafrkið fyri eyri, ok skal hann láta skrá mörk sauða þeirra, lýsa at kirkju sinni á hverjum tveim mánuðum til sumars, ok eitt sinn á hèraðsþingi hit næsta sumar, annat ok hit þriðja, ok ef þá verðr nokkurr eigandi at, þá lúki hann þeim þetta verð, ella eignist hann á þriðja hausti, ef hann hefr at lögum lýst. Nú kemr sá hrútr eðr hafr til fjár manns, er hann veit hverr á, setì inn ok fæði, ok gjöri orð eiganda. En eigandi láti fara eptir sem fyrst má hann, ok þó at hinum hafi mein þar til af orðit, þá skal eigandi þat eigi ábyrgjast, utan hann hafi heimt áðr, þá bæti[2] sá er átti fyri skaða, þeim er fè þat átti, er hrútr eðr hafr kom til.

## 50. Um þat fè, sem eigi finnst eigandi at.

Ef at síðustu rètt verðr fè þat eptir, er eigi verðr eigandi at, þá skal bóndi sá, er rèttina varðveit-

---

[1]) Aðrar bæta við: 6. [2]) Aðrar hafa: tvígildi.

ir, ok 5 aðrir þeir er næst búa réttum, ok þangat eiga sauðum til at safna, skipta þeim sauðum ok annast sem sitt fè, ok segja til at sóknarkirkju sinni eðr samkundu, hversu margir sauðir þar eru at hans, ok með hverju marki þeir eru. Ok svá skal hverr bóndi gjöra, er á jörðu býr. Ef sauðir koma í fè manns eptir vetrnætr, þá skal hann hafa sagt til innan næsta hálfs mánaðar. Nú kemr sá til, er sauði á, eðr hans lögligr umboðsmaðr áðr 2 mánuðir eru af vetri, þá skal hann sauði í burt hafa fyri enga fúlgu, ok sýna þeim áðr er á jörðu býr. En ef hann tekr svá í burt, at hann sýnir eigi áðr þar, gjaldi hálfa mörk, hálft konungi, en hálft þeim er á jörðu býr. En ef maðr kemr síðar eptir fènu en tveir mánuðir eru af vetri, þá skal hinn hafa slíka fúlgu sem þar væri til sumars, ok láta eigi laust fè fyrri en hann hefr fúlgu í hendi eðr vörðslu fyri, ef hann vill. (R. Þ. E. K. Nú kemr engi eptir fè því fyri miðjan vetr, er bóndi veit eigi hverr á, ok hefr þar verit hálfan mánuð síðan sagt var til, þá er honum rètt á fyrstu viku þorra at láta virða fè þat 6 skynsama menn. Þeir skulu svá virða fèt sem þá er vert er þeir virða. Eigi skal þess kyns fè virða fyr nè síðarr. Standa skal þá fè með marki hinu sama. Hann skal segja til fjár ok marks 3 sumur hin næstu á þingi; hann eignast á þriðja hausti, ef áðr kemr eigi eigandi eptir, nema hann lýsi eigi áðr at lögum, þá tvígildi þeim er fè á, en konungi hálfa mörk. Nú kemr eigandi eðr hans umboðsmaðr eptir því fè áðr þrjú sumur eru úti,

ok eigi er virt, þá hafi hann í burt fè sitt, en hinn skal hafa fyri fúlgu mjólk ok kálfa undan kúm, lömb ok ull af sauðum, kið ok nyt undan geitum, ok bæti engu fyri, þó at þat sè meira vert, ok annist sem sitt fè, en ábyrgist at engu.

## 51. Ef mönnum semr eigi um afrètt.

Ef tveir menn eðr fleiri eigu afrètt saman, sumarhaga eðr vetrhaga, þann er fè gengr sjálfala í, ok sá er mishaldinn þykist af, stefni þeim öllum til afrèttar, eðr haga, er til móts eigu, svá miklu fyrr, at um lið megi sýsla. 12 bændr þeir er næstir búa skulu telja fè í afrètt, eðr haga, svá at þeir ætli, at eigi muni feitara þó at færra sè. Þeir skulu þetta gjöra, þó at eigi komi allir þeir er stefnt var. Þeir skulu svá í haga telja, at þeim þyki til fulls skipat. Sína ítölu má hverr maðr fylla, hvárt sem hann vill fè sínu eðr annars manns. En sá þeirra er síðarr lætr fleira fè í haga reka en ítölu sína, tvígildi þeim fyri grasverð er í móti eiga. Menn skulu kúgildum telja fè í afrètt eðr í haga sem í búlandi. Eigi skal svín þangat reka. (R. B. E. K. Landnám ok skaðabætr skal sá bæta, er þau svín á, er skaða gjöra, sem fyri annan fènat.

## 52. Um almenninga.

Svá skulu almenningar vera sem at fornu hafa verit, bæði hit efra ok hit ytra. En ef menn skilr á, ok kallar annarr sèr almenning eðr afrètt, þá festi sá lög fyri, er sèr kallar, ok stefni þing, þar er menn eiga því máli að skipta, ok skeri upp þing-

boð fyri fimmt. En ef hann gjörir eigi svá, þá er ónýt lögfesta hans at því sinni. En á þingi skulu þeir nefna 12 bændr hina skynsömustu, 6 hverr þeirra, í þinghá þeirri, ok hafa þá 2 af þeim 12 at bera megi ok sverja, hvárt sá afrètt er hans eign eðr almenningr. En af því þingi leggi sá fimmtarstefnu, er sèr kallar þá jörð, ok njóti þar vitnis þess, er á þingi var nefnt. Ef fimmt ber á helgan dag, þá sè fimmtarstefna hinn næsta rúmhelgan dag eptir, ok færi þar þá vitni fram at jafnfullu sem á fimmtarstefnu. En svá skal þann eið sverja, at því skýtr hann til guðs, at þat hefr hann sèr eldri skynsama menn heyrt segja, at þar skilr mark millum eignar bónda ok almennings, eðr afrèttar, ok eigi veit ek annat sannara fyri guði í þessu máli. En síðan sè sett fimmtarstefna, ok dæmist þá hverjum þat sem hafa skal.

## 53. Ef fè gengr úr afrètt.

Ef fè gengr úr afrètt í land þess manns er næstr býr afrètt, þá má hann reka fè þat aptr í afrètt miðja. Rètt er honum at hafa þat fè í sínu landi, svá ok at láta reka heim til þess er á. En ef hann rekr fè í annars manns land, bæti þeim fyri skaða sem menn meta, ok landnám með. Sama mál á sá, er þá er fè í land rekit, ok svá hverr þeirra manna, er þat fè kemr í land. Rètt er mönnum at láta ganga fè þat hvert er vill. Ef maðr rekr fè [1] manns úr afrètt, ok hvaðan sem hann rekr, svá at hann þykist eigi fyri góðu gjöra, ábyrgist

[1]) Aðrar: fènað; aðrar: geldfè.

sá at öllu, ok öfundarbót með eptir dómi, þeim er fè á, ella sveri fyri lýrittareið, at hann þóttist eigi fyri illu gjöra, þá falli niðr öfundarbót, en bæti þó fyri skaða, utan hinn hafi honum um boðit, þá er sektalaust.

## 54. Um garðlags stefnu.

Rètt er þeim manni, er næstr býr afrètt, at gjöra stefnu á sinnmánaðar samkomu við sik til garðlags þeim mönnum, er þann afrètt eigu. En þat er afrètt er 2 menn eðr fleiri eigu saman. þeir skulu gjöra garð þann at jarðarmagni, svá sem hverr þeirra á í afrètt til, svá at þeir gjöri hálfan, en sá hálfan er garðlags beiddi, ok haldi svá hverr síðan. En sá er eigi vill girða, tvígildi þeim fyri skaða þann allan, er gjörir þeirra fè, ok svá allra þeirra manna fè, er þeir hafa lofat þann afrètt. Sú er hin fyrsta lagastefna til þessa garðlags, þegar torfuþítt er, ok þar til menn vinna völlu sína. Sú er önnur, þá lokit er forvirki, ok til þess er heyslátta tekr til. Sú hin þriðja, þá hey er hirt til þess er jörð frýs. þetta eru lagastefnur til þennan garð at gjöra, ok svá bólstaða í milli, þat heitir anna í milli. Allt þat er þar í milli spillist at þessum görðum, þá skal í þessum stefnum bæta. Ekki skal vinna á meðan garðönn er annat en reka smala heim ok heiman, ok færa heim eldibranda. Eigi er maðr skyldr at gjöra þenna garð, þó hann sè til krafðr, þar sem eigi hefr áðr verit, nema hann fái gjört sinn hlut á 3 sumrum. Svá at hann taki eigi fyri þat fleiri vinnumenn

## 55. Ef maðr leiðir berfé til graðfjár.

Ef maðr leiðir kú ólofat yxna til graðungs, eðr bross álægt til hests, sýr æða til galtar, á blæsma til hrúts, geit til hafrs, þá eignast sá þat, er undir elst, er þat gráðfè átti, er til var leitt. (R. B. E. K. Ef graðungr eltir fang úr kúm, svá at skaði virðist af, sá er heima er gætt með búi, bæti fjórðungi bóta, ef sannprófat er, en engu, ef hann lèr. En ef eigandi eðr sá er lèð var, vill eigi varðreita graðúng, eðr reka hann í afrètt, bæti skaða sem menn meta þann sem hann gjörir).

## 56. Um vatnsföll ok veiðistöður bæja í milli.

Hverr maðr á vötn ok veiðistöður fyri sinni jörðu, ok á svá sem at fornu hefr verit, nema með lögum sè frá komit. Vötn öll skulu svá renna sem at fornu hafa runnit, veita á þeim engi maðr á bæ eðr af bæ annars, nema þau brjóti sjálf. En ef þat er veitt, þá skal sá veita aptr vatn, ok gjalda eiganda jarðarspjöll, ok landnám með. En ef á eðr bekkr, er rennr í milli bæja manna, ok eru fiskar í, þá eiga hálfa hvárir, ef þeir eiga svá jörð tveim megin til. En ef á eðr bekkr rennr rètt ok brýtr á hvárkis land, þá gjöri svá hvárr veiðivèl af sinni jörðu, sem at fornu hefr verit. En ef á brýtr af annars þeirra jörðu, þá skal sá er jörð átti, þá hún braut, á eiga, en hinn granda eðr eyri, þangat sem hún var mið meðan áin fèll rètt at fornu. En ef hún brýtr meira, þá á sá er jörð átti bæði á, ok granda þangat til sem hún var mið, meðan hún

rann rètt. Engi skal fyri öðrum veiði spilla eðr banna þá sem hann hefr áðr at fornu haft. Hvervetna þar sem menn eiga fiskiá saman, þá skal hverr þeirra veiða sem vill á meðan ánni er óskipt, ok draga voðir at hváru landi sem hann vill. En eigi skal hann öðrum veita nè veiða, En ef nokkurr þykist mishaldinn af vera ánni, þá beiði sá skiptis á, ok skipti 6 grannar þeirra ánni. þeir skulu skipa vikum eðr smærrum. þeir skulu ráða er lengsta vilja skipta ef þá greinir á. Svá má ok skipta fleirum veiðistöðum. þat skipti skal haldast með þeim þat sumar, ok má þá hverr er vill veita sinn hlut. Hverr maðr má gjöra veiðivèl í sinni á, ok gjöra þó svá, at fiskar megi fara upp at á hverri. Ganga skal guðs gjöf til fjalls sem til fjöru, ef gengit vill hafa. En ef einhverr girðir, þá skulu þeir er ána eigu fyri ofan gjöra honum fimmtarstefnu til af þingi úr at brjóta. En ef hann kveðr nei við, þá skal sá er at telr æsta bændr liðs til úr at brjóta. Bóndi hverr, er synjar honum tilfarar, er sekr eyri við konung. En þeir er garð gjörðu í at ólögum gjaldi mörk hverjum þeim, er fyri ofan býr, ok þeir meinuðu veiði fyri. Engi skal í annars á fara ólofat, nema hann vili veiða þeim er á á, ok gjaldi honum þó landnám með svá sem veiðr er mikil til. Svá er ok ef maðr eltir fugla eðr fiska úr annars manns veiðistöðu, hvar sem hann veiðir þá. Engi skal öðrum veiðistöð banna fyri sínu landi, ok engi annars veiðistöð spilla. En ef menn spilla þeirri veiðistöð, ok brjóta úr garð, utan þvergarðar sè, þeir

sem fyriboðnir eru, eðr spilla veiðigögnum, sekr höfðingi mörk við konung, en annari við eiganda í öfundarbót. En hverr annarr, er honum veitir lið til, sekr hálfri mörk við konung, en annari hálfri mörk við eiganda í öfundarbót, ok bæti garð aptr ok veiðigögn öll ok spillvirki sem 6 skynsamir menn meta:

## 57. Um fuglaveiði.

Vali alla, elptr ok gæss, ok alla aðra fugla ómerkta á hverr maðr á sinni jörðu, leiguliði sem landsdrottinn, nema frá sè skilt í kaupi þeirra, utan þernur, æðar ok andir skal engi maðr veiða nær annars landi, en 2 hundruð faðma tólfræð sè til eggvers annars manns, ok eigi skal maðr þá fugla veiða, svá mjök í sínu landi, þó at firr sè eggveri hins, ok skynsömum mönnum 6 þeim er næstir búa þyki þess ván, at eggver spillist af því. En ef hann veiðir annan veg, en nú er mælt, tvígildi fyri fugla þá, er hann veiddi þeim er eggver á, en konungi hálfa mörk. Nú tekr maðr merktan fugl í sínu landi, þá skal hann gjöra orð eiganda innan hálfs mánaðar, ef hann er samhèraðs, ok varðveita svá fuglinn, at hann spillist eigi. En ef hann fær eigi svá varðveitt hann, hafi sjálfr fuglinn eptir virðlugu granna sinna 6, ok gjaldi þeim verð, er fuglinn átti, ok svá, ef hann veit eigi hverr á, þá láti hann virða ok lýsa at kirkju eðr á þingi innan halfs mánaðar, ok svá hvert mark á er. Á fitjum skal fugla merkja, ok sýna mark þat 6 grönnum sínum, eigi er lögmark ella. Ef maðr nýtir sèr merkta fugla óvirta, þá tvígildi þeim

er á, en þjófr verðr hann, ef hann lýsir eigi. Í hvers landi sem elptr verpa, þá eignast sá er mark á, ef hann veitir í sínu landi atróðr í fyrstu. Ok svá er þat um alla fugla ok fiska, ef þeir róa í sínu landi at fyrst, þó at hann taki við annars land eðr á, ok er fyrst í hans landi at róit, eðr í þeim hluta vatns, er hann á. Nú drepr maðr vísvitandi merktan fugl, gjaldi þeim fugl verðaurum er átti, ok öfundarbót með eptir dómi. Nú hafa þar vorpit elptr 3 sumur í sama landi sámfleytt, þá eignast sá þat er land átti, í hvers landi er hann kreppir, eðr merkir, ok þó at annarr marki, þá eignast hinn, ef grannar hans vilja þat með eiði sanna, at þeim þyki þat líkast, at þær elptr hafi í hans landi vorpit. En hinn hafi fyri starf sitt.

## 58. Um veiðar fugla, fiska ok dýra.

Konungr má láta veiða vall alla á hvers manns jörðu er hann vill. (R. B. H. K. Ef maðr tekr fálka á annars manns jörðu, eigi sá þriðjung verðs er tók, en jarðeigandi tvá hluti, eðr leiguliði er á jörðu býr). En hverr sá maðr er fugla veiðir eðr tekr egg undan á annars jörðu, bæti fugla ok egg fullu verði, ok landnám með þeim er á jörðu býr. Utan rètt er at veiða á annars jörðu, hverjum er vill, örnu, hrafna, smyrla, lær ok spóa, ok alla smáfugla, þá er eigi fljóta á vatni, nema rjúpur. Melrakki er á hvers manns jörðu óheilagr. Ef maðr fer yfir annars manns land, þá er honum rètt at taka fugla ómerkta, er á götu hans eru, eðr egg undan, ef þat er ekki í veiðistöð annars, ok svá fiska, ef liggja á leið hans á

brotum, ef þat er eigi í veiðistöð hins. Ekki skal maðr víðara fara yfir landeign annars til þess. Björn er óheilagr á hvers manns jörðu, ok á sá björn, er fyrst kemr banasári á hann. Rosmhval eigu menn at veiða á hvers manns jörðu eðr netlögum, er vill, ok á landsdrottinn hálfan, en sá hálfan, er veiðir. Engi maðr skal lesa ber á annars manns jörðu, nè grös til heim at bera, utan sá lofi er á. En ef hann les, tvígildi ber ok svá grös.

## 59. Hvat almenningar skulu kallast.

þat eru almenningar, er at fornu hafa verit. Sætr má hverr maðr gjöra er vill, er þann almenning eigu, ef hann vill þar sitja í sumarsetri, ef þat er úr búfjár gangi. En ef 2 menn ganga í eina sláttu báðir senn, hafi báðir þat er þeir slá, en ef þá skilr á, hvárr þeirra fyr orti á, hafi sá sitt mál, er sannar með eineiði, nema hinn leiði vátta[1] í mót. Fiskivötn öll í almenningi eru öllum jafnheimil. þar eigu menn at taka fiska ok fugla. Engi maðr skal beita í almenningi frá krossmessu á vár ok til Bótólfsvöku. þar eigu menn at telgja við ok færa til skips eðr búðar, ok er þá viðrinn heilagr. Nú koma menn þar á öðru skipi, ok fá eigi farm á sitt skip, en hinir hafa meir en farm sínu skipi, hvárt þat er viðr eðr hvalr, ok þá er rètt, at þeir taki farm sínu skipi, ok bæti hinum fyri starf sitt. (R. B. E. K. Ekki á jörð í viði þeim er fluttr er úr almenningi nema hann liggi lengr en lög vátta). Nú kemr hvalr þá er

1) Aðrar hafa: fleiri vátta.

menn eru í almenningi, þá skal boð upp skera sá er næstr býr, ok láta fara alla vega sem dagr endist. Sekr er hann 6 aurum við konung, ef hann sker eigi boð upp, en eyri hverr er fellir, nema nauðsyn banni. Í almenningi skal hval skera hverr sem vill, ok burt færa hvert sem vill á skipi eðr eikjum. En svá skal fara um þann sem eigi verðr burt fluttr sem áðr skilr. En ef skot finnst í hval þeim, þá skal sá varðveita járnhval er næstr býr. Nú brennir maðr sætr í almenningi, veiðibúð eðr andvirki, þat sem þar er, þá sekist sá er þat gjörir 3 mörkum við konung, en tvígildi þeim er hann brenndi fyri þat sama aptr jafngott, ok rètt sinn á ofan eptir lagadómi.

---

## Hèr hefr rekabálk, ok segir um reka viða ok hvala ok annara hluta.

---

**1. kap.** Hverr maðr á reka allan fyri landi sínu, viðar og hvala, sela ok fiska, fugla ok þara, nema með lögum sè frá komit. Ef við rekr á fjöru manns, þá skal hann marka viðarmarki sínu, því sem áðr hefr hann sýnt 6 grönnum sínum, eigi er lögmark ella. Rètt er honum at vaða til ok marka þar viðinn, ef hann kemr eigi úr flæðarmáli, ef þat er við þá fjöru hans, er festa má reka á. Ok á hann þá, þó at á annars fjöru komi sá viðr. En hinn er fjöru á skal gjöra orð þeim er við á, ef hann veit hverr á. Lýsa á maðr at kirkju markinu, ella

er hann sekr þrem aurum við konung. En ef hinn gjörir eigi eptir innan 12 mánaða, síðan hann frèttir, þá lýsi hann út með fullu landnámi sem sá er maðr til er land á þar er viðr liggr á. Ef við eðr hval rekr í gegnum merkiósa á land upp, þá á sá, er land á fyri ofan. Ef vötn eðr lón ganga fyri ofan fjöru manns, ok kastar þar hval eðr viði yfir malarkamb eðr eyrartanga upp í vatnit þá á sá maðr þat er land á fyri ofan, ef á land rekr. Helgar þar festr hval en mark við sem annarstaðar. Ef nýja ósa brýtr upp í gegnum fjöru manns ok rekr þar hval eðr við upp á jörðu, þá á sá þat sem fjöru á fyri utan. En þó at brjóti nýja ósa upp í gegnum fjöru manns, þá skal hinn forni ós ráða. Ef hval eðr trè verpr á jörðu, upp, þá á sá maðr bæði er reka á. En ef þat er jörð gróin yfir viði eðr beinum, þá á sá maðr bæði, er jörð á. En þar sem trè eðr bein finnast í jörðu, hálfu ofar en nú gengr flóð yfir, þá á sá maðr, er jörð á fyri ofan, hvárt sem er bein eðr viðr. Ef trè eðr bein eðr tálkn eru í flæðarmáli, þó at sandi sè vorpin eðr grjóti fest, þá á sá maðr þat allt, er reka á. Nú eru ósar at merkjum, þá á hverr þeirra reka til miðs óssins. Ef reka festir í miðjum ósnum, þá á hálfan reka hverr þeirra. Nú rekr hval eðr við upp eptir miðjum ósnum, ok kastar á svarðfast land eðr festir í vatnsbökkum fyri ofan rekamark, þá á sá er jörð á eðr eyrar, ef þar festir á, nema festi í miðjum ósnum, þá skal rekinn jafnt hverfa til hvárs landsins, ok allt þat er þar festir. Ef birkivið rekr út um merkiósa, þá á sá þat, er jörð á fyri of-

an, reka þann, er við rekr á. Ef við rekr at ósum ofan ok festir í eyrum, eðr rekr á land upp, þá á sá þann við, er jörð á nema einn maðr eigi skóg allan, þá á sá.

## 2. Um flutningar.

Hverr maðr má fènýta sèr við þann allan er hann finnr fljótandi fyri annars landi út frá rekamarki. Taka má maðr þá hval ok við fyri annars landi at flytja, er engi er ván at festi, nema svá sè nær þeirri fjöru, er reka má á festa, at þaðan megi sjá fiska af borði, ef eigi bæri land fyri, ok svá á allar flutningar at taka. Ef maðr flytr við sinn á annars manns fjöru, þá skal sá viðr þar eigi lengr liggja en 3 nætr, ef þat er rekafjara, nema nauðsyn banni, ella bæti sá er við flutti fullu landnámi ok skaðabót þeim er reka á. Rètt er honum at færa á land upp úr fjöru ok hafa þaðan flutt innan 12 mánaða þaðan frá. Allir menn eiga at veiða fyri utan netlög at ósekju. En þat eru netlög, yzt, er selnót stendr grunn 20 möskva djúp at fjöru, ok komi þá flár upp úr sjó. Ef maðr kaupir reka af landi manns at lögmáli rèttu, ok skilja þeir þat eigi gjörr en svá, þá á landeigandi af fjöru þeirri álnar löng kefli öll ok þaðan af smærri, en rekamaðr á þar við allan ótelgdan, þann er þar rekr upp, ok svá hvali þá alla, er þar hlaupa kvikir á land, nema menn valdi. Ok svá á hann þá hvali alla, er þar rekr upp. Sá maðr, er land á, á þar þara allan, ok fugla alla ok rostunga, sela alla, ok svá ef maðr drepr þar sel. Hann á þar ok hrífsur allar ok háskerðinga, ok fiska alla, nema þar

reki fleiri senn á land en 5[1], þá á rekamaðr. Landeigandi á þar flutningar allar ok vágrek allt, ok hvali þá alla, er fyri mönnum hlaupa á land upp, ok veiðar allar í netlögum ok í fjörunni. Ef viðr flýtr í netlögum, þá á rekamaðr þann. En ef utarr er viðr, ok má þá sjá fisk á borði, þá á sá maðr er jörð á, ok allt þat er þar flýtr, en fjörumaðr á allt þat sem í netlögum flýtr, hvárt sem net er á landi eðr skeri. Ef sker eðr eyjar liggja fyri landi manns, þá á sá þat, ok reka þann allan, er því fylgir, er meginland á næst, nema með lögum sè frá komit.

### 3. Hverr festa skal hval, ef rekr.

Ef hval rekr á fjöru manns, þá skal sá er á landi býr þar næst festa hval þann, hverr sem fjöru á, ok hafi slíkt fyri starf sitt sem fyr skilr leiguliða, þótt landsdrottinn búi sjálfur á jörðu. Hann skal festa hval þann festum, at eigi sè ósterkari en reip þau 10, at tveggja manna afli haldi hvert, ok sè þá borinn annarr endir um stokk eðr stein. Rètt er honum at skera festar af sjálfum hvalnum. Ok ef svá er festr, þá ábyrgist hann eigi, þó at út taki hvalinn. Ef sumr er festarstúfr á landi, en sumr í hval, þa á sá hvalinn er áðr átti, þó at á annars fjöru komi. Hann skal í burt flytja hvalinn, hvárt sem hann vill á skipi eðr eikjum, ok neyta þar einskis, nema vatns og haga. En ef 6 skynsamir menn sanna þat með eiði, at hvalr sè verr festr en nú var talt, þá á sá ekki í, er festi,

[1]) Aðrar bæta við: með einu sjávarfalli.

þó at út taki, ok ábyrgist at öllu, ef annarr á hval. Hann á þegar er hvalr er kominn at senda mann þann, er fari fullum dagleiðum, at segja þeim er reka á. En landbúi skal skera hval til fjórðungs, ok þeir menn er hann fær til, þar til er rekamaðr kemr, eðr hans lögligr umboðsmaðr, þá skulu þeir ráða þeim, er óskorinn er, en ef fleiri menn eiga þar í reka, þá skal þeim orð gjöra er mest á í, en hinna hlut skal hann varðveita[1] sem hann eigi sjálfr, ok ábyrgjast við handvömmum sínum. Nú skér maðr hval á fjöru, ok tekr þjósir út, tálkn eðr bein, ok rekr á annars fjöru, þá á sá þat er fjöru á, ef þat er lengra frá fjörumarki hins en 2 hundruð faðma tólfræð. Svá er ok um garnir ok seymi, ok allt þat er fémætt slítr út af hval. En ef urgur eru í þjósum þeim er út slítr, þá helga þær þeim, er hval átti í fyrstu. Nú þó at hvalr sè minni en festingar hvalr eigi at takast, þá er sá jafnskyldr er á jörðu býr, at festa hinn minna sem hinn meira, Allt þat er fèmætt rekr á þá fjöru, skal hann úr flæðarmáli færa sem hann eigi land ok reka, ella ábyrgist hann at öllu við rekamann. Laus er sá maðr við reka varðveizlu, er á jörðu býr, ef rekamaðr hefr öðrum umboð fengit at lögum, ok skal sá þá fyri sjá ok ábyrgjast svá sem hinn skyldi. Ef nokkurr maðr kallar sá til meira hvals en fyr hefr haft, sem menn vita at nokkut á í reka, þá skal honum þó til handa skipta, yfir þat er rekamaðr veit at hann á, hálfu minna hval en hann kallar til, en sá þeirra sem at telr skal

[1]) Aðrar bæta við: ok selja.

setja fimmtarstefnu, ok fara svá at þeirri stefnu sem fyr váttar, Nú prófast svá, at annarrhvárr hefr logit, gjaldi sá tvennum gjöldum þeim er á, ok kostnað sinn allan, þann er hann hefr fyri haft, ok konungi hálfa mörk í ránbaug. Nú kemr hvalr eðr trè á rekamark, þá eigi svá hverr sem reka á undir.

## 4. Ef skot finnst í hval.

Ef hval rekr á fjöru manns, ok á fjörumaðr þann allan, ef eigi er skot í. En ef skot finnst í hval, þat er þingborit mark er á, þá á skotmaðr hálfan, ef hann kemr til, áðr hans hlutr er allr virðr ok veginn, ok af fjöru fluttr. En svá skal maðr skots leita sem hann ætti skots ván í hval á annars fjöru. Sá maðr á vætt spiks af skotmannshlut er fyrstur finnr skot. Ef fjörumaðr veit hverr skot á, þa skal hann gjöra honum orð, ef hann er svá nær, at fara megi þann dag[1], er þá er, ef hann færi árdegis. En svá mikit skal hann hafa af síðara degi sem var þá af hinum fyrra, er hann var sendr. En ef hann gjörir eigi orð skotmanni, þegar skot finnst, þá er hann sekr mörk, hafi konungr hálfa, en skotmaðr hálfa, ok slíkan hval sem honum væri at lögum orð gjör. Landeigandi á at skera til fjórðungs skotmannshlut, þar til er skotmaðr kemr til, ok ábyrgist hann þá þann hval við skotmann. Síðan skal skotmaðr ráða hinum óskorna, ok ábyrgist sjálfr þann, þá er hann kemr til. Ok ef hinn dylr, at hann eigi þat skot, þá

[1]) Aðrar bæta við: tvívegis.

skal skotmaðr láta bera tveggja manna vitni með svörnum eiði, at þat er hans skot, ok eigi gaf hann nð galt, ok eigi sölum seldi, svá þeir vissi. En ef hinn vill þá eigi þann hval lausan láta, sæki sem vítafè. En hverr er leynir skotinu, þá er hann þjófr útlægr, ok skiptist fè hans eptir því sem segir í óbótamálum. Nú sker maðr hval undan festum um nátt, ok fara þeir til sem eigi eiga í, þá sekist sá hverr er þat gjörir 13 mörkum við konung, en þeir hafi hval sinn sem eigu.

## 5. Ef skotmaðr kemr eigi til hvals.

Hvervetna þar sem skotmaðr kemr svá til skothvals, at sumr er óskorinn, þa skal hann ráða hinum óskorna jafnan, en hinn hafi fjórðung af þeim er hann skar. Ok svá skal jafnan fara, ef skotmaðr kemr fyr til hvals, en hans hlutr er allr virðr ok veginn, ok af fjöru fluttr. Nú kemr engi til at kalla til skota þess, er þar er fundit, þá á landeigandi at varðveita skotið, ok hafa skotmanna hlut hálfan, hversu sem hann kemr kaupi við skurðarmenn. Skotmannshlut skulu virða 6 skynsamir menn til vaðmála. Nú eru fleiri skot í hval en eitt, þá á sá hval, er fyrstr kom banaskoti á hann, ok þingborit mark hafði. Ekki sakar ef í spik kemur. Ef maðr veiðir hval þann, er áðr er banvænn af þingbornu skoti, þá á sá skotmannshlut er skaut fyrri, en hinn fyri starf sitt eptir 6 manna dómi. Þeir skulu skothval virða er skynsamir menn eru, ok næstir búa því er skot finnst. Sá maðr á at varðveita skotmannshlut er

land á, ef annarr á reka, en hálft á hvert bein ok tálkn. Landeigandi á heimting við rekamann, ef hvalr er seldr áðr en skot finnst, en skotmaðr við hann. Ef hval slítr út þann er menn hafa skorit, ok finnst skot í, hvar sem á land rekr, þá á skotmaðr heimtu af öllum þeim, er þá fjöru áttu, er sá hvalr kom. Ok sva ef menn finna eðr skera hval á floti, þá skeri til helmingar, ef lögligá er virðr, en til fjórðungs, ef eigi er virðr. Sá maðr er skot hefr at varðveita, skal sýna þat ok segja til marks á skotinu á alþingi, ok svá til nafns síns, eðr umboðsmaðr hans, ok hversu mikit fè fylgir skoti, ok lúka þar á þinginu þeim er taka á, eðr fá fullar vörðslur. Ef fleiri menn hafa þat fè at varðveita, þá skulu þeir svá gjöra, þegar hann hefr sagt til skots. En ef nokkurr vill eigi greiða skotfè, sæki sem vítafè, hvárt sem sækir skotmaðr eðr hans umboðsmaðr, eðr landsbúi sá er hval seldi. Nú verðr hvalr eigi virðr, þá skal skotmannshlutr til fjórðungs skorinn hafa verit, ella til helmings, ef skeyti kemr eigi til áðr hans hlutr er allr virðr ok veginn, ok af fjöru fluttr. Hvalskyti hverr skal sýna grönnum sínum 6 mark á skoti því er hann vill hafa, ok síðan í lögrèttu, nema hann hafi keypt þingborit mark, eðr honum sè lèð, gefit eðr goldit. ok hafi hann þar vátta til, þá er honum þat jafnheimilt sem hitt. Nú kemr skotmaðr eigi til hvals áðr hans hlutr er virðr ok veginn, ok af fjöru fluttr, en umboðsmaðr hans kemr til, þá skal skotmannshlutr til helmingar skorinn hafa verit, ok skal hann því at eins burt hafa þann hval, er skotmaðr hlýtr,

nema hann láti bera vitni um at hann er umboðsmaðr hans, eðr landeigandi lofi ella.

## 6. Ef maðr finnr hval á floti.

Ef maðr finnr hval á floti, þá skal hann flytja hvert er hann vill, ef hann er utar fyri annars landi en fisk sèr á borði, þat skal vera þorskr flattr álnar í öxarþærum á því borði er til lands veit, skal út leggja til sýnar, ok þaðan til at sjá sem lengst fjarar. Ef menn koma til, þá er hann hefr festar borit í hval, þá er hann eigi skyldr við þeim at taka, ef hann fær fluttan. Ok þó at þeir beri festar í hval, þá eiga þeir ekki at heldr. Nú koma þeir eigi hval til lands, er neittu liði hinna, þá skulu þeir ábyrgjast hvalinn við þá, eptir því sem 6 skynsamir menn virða.

## 7. Um flutningshval.

Þess hvals er fluttr er eigu flytjendr þriðjung, en landeigandi tvá hluti, nema skot finnist í, þá á skotmaðr þriðjung, ok skal sá skotmannshlutr at öllu svá fara sem um rekahval skilr. En þeir menn, sem fyrst bera festar í hval eiga at hafa finnanda spik [1], af honum þat er 30 átta fjórðunga vættir, hálft hvárt, spik ok rengi. Ef hvalr er tvítugr eðr lengri óskertr eðr svá skertr, at hann sè eigi minni þess kyns hvalr, þat á allt af flutningar-þriðjungi at taka; en ef þeir hafa nokkut skorit á skip sitt, en flytja þat sem eptir er, þá skulu þeir þat fyri finnanda spik hafa, en skipta sem öðrum hval því sem

[1]) Aðrar bæta við: þó at fleiri sèu at flutningu.

meira er. Ef landeigandi er at flutningi, þá á hann kost at flytja hvalinn á sitt land. Ef þangat er lengra, þá ábyrgist hann hvalinn við sína lagsmenn, ef þeir missa fyri þat. Ef landeigendr eru fleiri at flutningi, þá skal á þess land flytja sem land á næst. En ef skynsamir menn bera, at hvalr sè á annat land fluttr en lög segja, þá á sá landshlut í hval, er þat land átti, at hvalr væri rètt fluttr á. En hverr þeirra sekr mörk við hann, er at flutningi var. Ok ef þeir menn láta lausan hvalinn, er hönd hafa at, þá skulu þeir til fjórðungs skorit hafa. Ef griðmenn manns finna hval á floti, ok á bóndi verk þeirra allt, þá á hann hvalinn. En ef hann á fiski þeirra at eins, þá á hann ekki meira en sýslan dvaldist sú er hann átti, eptir því sem 6 skynsamir menn meta, ok skiphlut sinn at auk, ok ábyrgist þeir svá skip sem áðr. Nú flytja menn hval úr almenningi, þá eignast þeir eigi, nema þeir beri fyr festar á land, en þeir láta hval lausan, ok festi, sem fyr váttar, ella er þat rekhvalr. Nú rekr hval svá fyri veðri eðr straumi, at hann ræðr skipinu, en skipit eigi honum, þá er sem þeir hafi ófundit hval.

## 8. Enn um flutninga.

Ef menn flytja hval þaðan frá landi manns, er sjá má fisk á borði, þá á sá hval er áðr átti, en hverr þeirra sekr mörk við hann, ef þeir vissu. Í fjörðum eðr sundum, þar sem hvalr flýtr svá at sjá má fisk á borði af fleiri löndum en einu, þá eiga þeir allir jafnt hval, er land eigu svá nær, þó at

einhverr þeirra flytí á sitt land, nema af einhvers landi standi svá mikit veðr, at þangat mátti eigi flytja. Ef menn reka hval á land manns, þá eiga þeir tvá hluti, en landeigandi þriðjung. Ef menn finna hval í vökum utar en fisk sèr á borði, þá á sá er fyrstr finnr allan þann, er hann kemr á ís upp. Nú koma menn at ok bera vápn á hvali þá ok festa við ísbrún, svá at eigi má sökkva, þá eiga þeir er veiða. En þeir sem síðarr koma til, ok neita hinir liði þeirra, ok sökkr hvalr fyri þat, þá ábyrgist þeir er fyrri komu til eptir manntali við þá þann hval. En hvat sem þeir fá af, þá skulu þeir þar á land bera, sem þeir vilja. En ef landsdróttinn telr at, ok segir, at þeir spilli þar engi hans eðr haga, bæti sem 6 skynsamir menn meta skaða, ok landnám með, þeim er gras á eðr jörð. En ef hann leggr á hólkn eðr holt, eðr fjöru, þar sem engi er skaði at, flyti burt at ósekju. Nú finnr maðr hval á ísum, nær landi, ok þó fyri utan netlög, þá á hann hálfan, ef kvikr er, en landeigandi allan, ef dauðr er. Nú gengr vök allt at landi sú er menn særa hvali í fyri utan netlög, ok renna þeir kvikir á land upp, þá á svá at fara um eiginorð þeirra sem menn reka þá upp með skipum. En þó at menn skjóti hvali í vökum með þingbornum skotum, þá eiga þeir eigi heldr en aðrir menn, nema dauða reki á land, þá eiga þeir skotmannshlut. Hverr maðr á veiði sína, fyri utan netlög. Þat er veiði, er maðr flytr á skipi til lands, en flutningr ella. Ef maðr veiðir hval í rekamarki,

ok þó fyri utan netlög, þar er fisk sèr á borði, þá á sá allan er veiðir.

## 9. Um selaveiðar fyri annars manns jörðu.

Ef maðr hittir net í látrum sínum ok sel í, þá á hann sel ok svá net, þar til sem hinn leysir út með landnámi. Nú má maðr skjóta sel af skipi, ef hann fer rèttleiðis, hvárt sem selr er á sjó eðr landi, nema selr liggi á látri því, er stilli er til hlaðit, þá veiðir hann þeim er látr á. Nú skýtr maðr sel af landi, ok er eigi stilli til hlaðit, þá skal sá sel hafa, er látr átti. Nú ef stilli er til hlaðit, þá skal hann hafa bæði sel, ok landnám með. Nú lýstr maðr sel, ok finna þann aðrir menn, þá á sá hálfan er laust, en sá hálfan er fann á floti, en sá skutul sinn er skaut, ef skutill fylgir. Ef rekr á land manns háfr, hval, björn, rostung, hnísur ok sel, ok finnst skot í, þá á sá þriðjung er skaut, ef hann hefr vitni til skots síns, ef eigi er þingborit, þá skal sá maðr er á landi býr, því er á rekr, lýsa því skoti at kirkju eða á þingi innan hálfs mánaðar. Ef maðr hittir á sel eðr hnísu eðr aðra fiska utan hval fyri ofan marbakka, ok færir þeim er á jörðu býr, hafi hann fimmtung af, en jörð 4 hluti. En ef hann færir burt, færi aptr ok leggi á landnám.

## 10. Um hvalflutninga á helgum dögum.

Ef hvalr er fluttr eðr skorinn á helgum degi, þá

skal gefa af hinn fimmta hlut þeim er flutir er, ok af svá miklu sem skorinn er á helgum degi, en eigi er meira skylt. Af selaveiði, ok allri þeirri sem lögheigan dag er veidd, skal gefa hinn fimmta hlut fátækum mönnum þar innan hrepps sem á land kemr, þeim er eigi gjöra tíund. Ok skulu hreppstjórnarmenn þessu skipta milli fátækra, því at svá hefr forn lög verit ok vani. En hverr maðr, er þetta vill eigi greiða, er sekr 6 aurum við konung.

## 11. Um flutning hvals úr almenningi.

Ef menn flytja hval úr almenningi, þá skulu þeir fylgja festum til lands, ef þeim er óhætt fyri stormi ok brimi. Nú skiljast þeir fyri þat við, at þeim er eigi óhætt, þá eigu þeir þó hvalinn, ef á þat land rekr er þeir vildu á flytja. En ef annarstaðar kemr, þá er þat rekhvalr.

## 12. Um vágrek.

Þat heitir vágrek, er rekr á land manns, lík eðr vara, ok allt þat er fèmætt er ok menn hafa átt, þó at þat sè viðir telgdir, hvárt sem því kastar á land með líkum eðr öðruvís. Landeigandi skal vágrek varðveita, hverr sem reka á. En sá er á jörðu býr skal allt færa úr flæðarmáli, og gjöra orð landsdrottni. En sá þeirra færir lík til kirkju sem betr kemst við, ok hafi af fènu til þess kostnaðar slíkt sem þarf. Sá er á jörðu býr skal ábyrgjast fèt, ef af hans vanrækt slítr út. Vágrek skulu virða 6 skynsamir menn. Síðan skal landsdrottinn hafa þat er við spjöllum liggr, eðr

selja öðrum, ef hann vill, ok varðveita sem sitt fè, ok ábyrgist hann þá eigi. Ef sá maðr kemr til vágreks, er rèttar heimildir þykist á eiga, ok hefr til þess skilrík vitni, ok sver hann til lýritt-areið, hvárt sem þat er arfr manns eðr öðruvís, þá skal hann hafa sem hann kallar til, en verð fyri hitt sem lógat er. Nú koma eigi eigendr til, þá skal láta segja til á þingi, hvat fè þar er rekit. Hann skal svá jafnan laust láta sem eigendr koma til, annathvárt fè eðr verð. En þat sem engi verðr eigandi til, þá eignast hann þat. En ef landsdrottinn lætr eigi virða vágrek eðr fer öðruvís með, en nú var talt, þá skal hann gjalda tvennum gjöldum, er eigandi kemr til, ok er hann þó sekr mörk við konung. En ef hann leynir því fè, eðr villir heimildir at vágreki, þá er hann þjófr; ef þat fè er svá mikit at þjófssök nemr.

---

# Hèr hefr hinn sjöunda hlut lögbókar, ok heitir kaupabálkr.

## 1. Um grip.

Þat er nú því næst, at várr skal engi fyri öðrum taka. Ekki skulum vèr oss at gripdeildum gjöra; dóms er hverr maðr verðr fyri sínu at hafa. En sá er fyri öðrum tekr, skal þat aptr færa, ok bæta þeim fullrètti, er hann tók fyri [1], en konungi 3 aurum fyri þat, er hann tók rangliga, en

---

[1]) Aðrar bæta við: eptir lagadómi.

sæki sitt eptir lögum síðan. Ef lendr maðr eðr konungs umboðsmaðr tekr upp bú bónda ótalt eðr ódæmt, eðr veitir honum aðra fjárupptekt ólögliga, þá skal hann þat allt aptr færa, ok þó sekr 10 mörkum við konung. En hverr sá mörk, er honum veitir lið til þess, en þeim er fèt átti fullrètti eptir lögligum dómi.

## 2. Hvernig maðr skal krefja fjár síns.

Ef maðr krefr mann til fjár síns, þá skal hann svá kröfu verjast, at kveðast þá skuld öðrum goldit hafa, ok nefna vátta sína þá er við váru, stund ok stað. Nú ef váttar eru innan hèraðs, en þá er svá, ef vatnsföll deilast í milli til hèraða, þá skal skapa þeim leiðarlengd til. En ef váttar eru utan hèraðs, þá skal gjöra þeim lagastefnu, at þeir komi þar, ok beri vitni þat sem þeir váru við. Nú bera þeir svá vitni, at þeir váru þar við, er hann lúkti þeirri skuld sèr af hendi þeim í hönd er átti, eða hans lögligum umboðsmanni. En sá er lögligr, er hann hefr til þess umboðs 2 löglig vitni, þá hefr hann rètt varða kröfu þá. Þat heitir ályktarvitni, þar skulu ekki andvitni í móti koma. Þessir menn megu eigi vitni bera: Sakaðr þjófr[1], meinsærismaðr, eigi yngri en 15[2] vetra, fjórmenningr at frændsemi og mægðum, nema þeir sè báðum jafnskyldir. (R. B. H. K. 15 vetra gamall maðr skal vera vitnisbærr, ok eiga sjálfr rètt á sèr, ef honum verðr með öfund misþirmt, ok svá skal fjár-

[1]) Aðrar hafa: sakaðr, þjófr. [2]) Aðrar: 16.

haldsmaðr hans fullu fyri svara af hans gózi, ef hann kann brotligr at verða). Rètt er, at þeir menn beri vitni, er verit hafa mágar manns, ef þá er eigi mægð, er vitni þarf at bera. Taka mega tveir við eins manns vitni, ok er sá frumváttr er við var í fyrstu, ok er hann eigi færr annarr er við var, ok hafi hinir áðr heyrt hans vitni, þá er þat vitni jafnfullt sem þeir hafi allir við verit fyri öndverðu. Fegðar tveir eðr bræðr tveir eru sem einn maðr í hverju vitni, nema tveir menn nefni þá til, utan þeir sè staddir við deild manna, eða vígaferli. Allar þær skuldir, er eiðar koma til, þá skal einn eyris synja, en 2 tveggja, 3 þriggja. En þó at skuld [1] sè meira, þá kemr eigi meiri eiðr til en lýrittareiðr. Hvervetna þar sem menn kaupa saman at lögum, þá skal aptr ganga oftalt, en fram vantalt, þar til sem þeir hafast rèttar tölur við.

## 3. Hvernig krefja skal vitaskuldar.

Ef maðr á fè at manni þat er váttar vita, eðr við er gengit, þá skal sá, er skuld á at heimta, krefja fjár síns við vátta 2, hvar sem hann hittir þann er gjalda á. (R. B. E. K. Nú krefr maðr mann fjár síns í rèttan gjalddaga, þess er váttar vitu, eðr við er gengit, þá er vel, ef hann geldr, ella stefni honum heim á 14 nátta fresti, ok krefi hann þar fjár síns. En ef hann vill eigi greiða, þá stefni honum þing, ok krefi þar enn skuldar sinnar. Nú vill hann eigi greiða, þá sekist hann 2 aurum fyri hverja kröfu. En þaðan af þinginu skal sækjandi

[1]) Aðrar hafa: fè.

nefna svá marga menn sem hann þykist þurfa, ok fara til heimilis þess manns, er skuldina átti at gjalda, ok virða honum þar fè sitt, ok fullrètti eptir lagadómi af fè þrjóts). Ok eru allir bændr skyldir til þessarar ferðar. Sekr er hverr bóndi 2 aurum við konung er eigi vill fara. Umboðsmaðr konungs er skyldr til at fara, ok öðlast með því hálfa mörk konungi til handa. En ef hann vill eigi fara, þá fellir hann með því konungs sekt. Nú standa menn fyri ok verja með oddi ok eggju, þá falla þeir allir útlægir ok óhelgir, er fyri standa, en hinir allir friðhelgir er til sækja, ok laga vilja gæta. En þó at þeir falli eigi, er fyri standa, þá er sá þó sekr 13 mörkum við konung, er skuld átti at gjalda, en hverr hinna mörk, er fyri stóð með honum.

## 4. Um eindagat fè.

Nú er lánsfè ok dæmt fè, ok allt þat fè er vitni 6 vita, eðr sá gengr við er lúka á, þá skal svá sækja sem nú var mælt. En allt þat fè er vitni veit at eindagat er, þá skal maðr svá njóta vátta sinna í eindaga sem hann hafi honum heim stefnt. Nú kemr sá eigi til, er fèt skyldi taka, en hinn kemr til er lúka á, þá skal hann bjóða fè í eindaga, ef nokkurr er sá þar kominn, er um sè boðit með váttum at taka þat fè, ok ef sá er þar, þá skal honum í hönd selja. En ef engi er sá þar, þá skal sá segja fèt úr sinni ábyrgð er lúka á, ok virða lèt lögliga, ok hafi síðan sjálfr, ok ábyrgist við sínum handvömmum, þar til er sá kemr til, er þá skuld á at taka at lögum, þá skal þeim

í hönd selja.. Eigi er maðr skyldr at taka við kvikfè fyr en 6 vikur eru af sumri. Sex skynsamir menn skulu virða kvikfè allt. Nú kemr sá maðr eigi til, er heimta á kvikfè, innan hálfs mánaðar forfallalaust, þaðan frá er goldið var lögliga, þá skal hinn hafa þat kivikfè leigulaust til annara fardaga, er þá skuld á at lúka, ok láta laust er eigandi kemur eptir eðr hans umboðsmaðr. Ef maðr sendir annan mann til gjalddaga fyri sik með fè, þá er hinn eigi skyldr til við at taka, nema hann viti, at sá maðr hefr jafnmikit fjè sem hann geldr. Ok eigi er maðr skyldr at greiða umboðsmanni fè, nema hann láti sverja 2 skilrík vitni þat umboð áðr þar sem fè er goldit. Nú á maðr fè at manni, þar sem eigi vitu váttar, þá skal sækjandi stefna honum heim til kvöðu, ok kveðja hann þar þess fjár, er hann kallast eiga at honum. Hinn skal annathvárt festa fè eða synja slíkum eiði sem fyr segir. Nú vill verjandi hvárki eið vinna, nè fè festa, þá sannar hann sèr skuld þá á hendur, ok sæki at fyrri sókn. Nú kaupast menn við, ok er eigi ákveðit nær gjaldast skal, þá gjaldist at næstum fardögum eptir.

## 5. Hvat lögaurar eru.

Ef mæltir eru lögaurar með landsmönnum hèr, ok þó at maðr mæli svá við annan: at þú skalt mèr vaðmál fá, en skylr eigi frá aðra aura, þá neitar hinn eigi lögaurum, ef eigi eru vaðmál til. Nú er lögeyrir 6 álnir vaðmáls, nýtt ok ónotið, tveggja álna breitt, ok eigi því lengra at jaðri en

hrygg, at muni alin í 20 álnum, ok skal stika hvárt er vill at hrygg eðr jaðri, ok svá kosti sem tekit er á alþingi. At skemmra jaðri skal stika ef skakkt er. Mórent vaðmál, 6 álnir fyri eyri; geldinga klippingar 6 fyri eyri; haustlamba gærur 6 fyri eyri; eyrir gulls þess er stenzt elding fyri 60 aura; eyrir brennds silfrs fyri 6 aura; járnketill nýr ok óeldr, ok vegi 4 fjórðunga, ok liggi í 8 skjólur, fyri 15 aura. Þat er katlamáls skjóla, ef trè er sett í lögg, ok tekr öðru megin á þröm upp, 12 þumlungar meðalmanni í naglrótum. Stæltur ljár eggeiningr, ok vegi 18 aura, heill ok stálsleginn. Þeir skulu véru 3 fyri 2 aura. Átta fjórðunga vætt blástrjárns fyri 5 aura; vætt fellijárns fyri 6 aura.

## 6. Um fjárlag.

Þetta er enn fjárlag svá sem lagt er dýrt á vár í því hèraði: kýr 8 vetra gömul, ok eigi yngri en at öðrum vetri, ok hafi borit 2 kálfa, heil ok heilspenut, ok hafi kelft um vetrinn eptir Pálsmessu, eigi verri en meðalkýr, hèraðsræk at fardögum. Þrjú vetrgömul naut við kú; tvö tvævetr naut við kú; kýr geldmjólk eðr kvíga at fyrsta kálfi 2 aurum verri en kýr; uxi 4 vetra gamall geldr eðr gráðr við kú; uxi þrevetr tveir hlutir kúgildis, ok kýr geld með sama lagi; uxi 5 vetra þriðjungr annars kúgildis; uxi 6 vetra tveir hlutir annars kúgildis; uxi 7 vetra fyrir kýr 2, ok svá þó at eldri sè landgenginn. Arðruxi gamall á vár, hann er metfè. Sex ær við kú, 2 tvævetrar ok 4 gamlar, ok fæði lömb sín, órotnar, loðnar ok lembdar

at fardögum; sjö lambskotur við kú; átta ær algeldar, þriggja vetra ok eldri, við kú; átta lambgimbrar, ok fæði lömb sín, við kú; átta geldingar tvævetrir við kú; sex geldingar þrevetrir við kú; fjögra vetra gamall geldingr ok annarr tvævetr við 2 ær; hrútr tvævetr algildi; 12 vetrgamlir sauðir við kú. Allt þetta fè skal vera gilt, ok í ullu. Þrèvetr forustugeldingr ok eldri, þat er metfè. Geitr 6 með kiðum, ok svá farit sem ám með kúm; en átta algeldar við kú, þrevetrar ok eldri. Sjö lambskotur við kú[1]; átta hauðnur, ok fæði kið sín, við kú; átta tvævetrir hafrar við kú; fjórir kjarnhafrar, en fjórir algeldir við kú; 6 þrevetrir við kú; þrír hverir, fjögra vetra gamall hafr, ok annarr tvævetr fyri geitr 2; tvævetr[2] hafr jafn geit. Ef hafrar eru eldri en nú eru taldir, þat er metfè. Tólf vetrgamlir geitsauðir við kú, hálft hauðnur ok algeldingar, en hálft kjarnhafrar ok geldhafrar; hestr fjögra vetra gamall ok eigi eldri en 10 vetra, heill ok lastalaus, jafn við kú; hross með sama aldri, heilt ok lastalaust, fjórðungi verra en kýr; hestr þrevetr jafn við hross; hross þrevett tveir hlutir kúgildis; tvævett hross ok hestr tvævetr við kú: þrjú vetrgömul hross, ok eitt hestr í, við kú. Ef maðr geldr eitt hross vetrgamalt fyri þriðjung kúgildis, þá skal fylgja eyrir. Þetta skulu vera meðal hross. Stóðhestr ok sè verði betri fyri vígs sakir. Geldr hestr ok sè verði betri fyri reiðar sakir. Ok fylhross í stóði, þat er allt metfè. Sýr tvæ-

[1]) „Sjö . . . við kú" vantar í flestar bækr. [2]) Aðrar hafa: þrevetr.

vetr ok eldri með 9 grísum við kú. Albreitt lèrept 3 álnir fyri 2 aura. Enskt lèrept tvíelnt, 2 álnir fyri eyri. Mörk vax fyri eyri. Skrúðklæði nýskorin ok óskorin, hafnar vaðmál ný ok ónotin, kattaskinn ný ok lambaskinn, flatsmíði nýtt ok vörusmíði nýtt, teint járn, eyrkatlar nýir, þat er allt metfè, ok þó rèttgoldnir lögaurar. Allt metfè skulu virða 6 skynsamir menn, 3 af hvera hendi. Þrjár átta fjórðunga vættir gamalla sauða ullar við kú. Þrjár vættir mjölvægs matar við kú. Vætt vetrgamalla sauða ullar ok öldungs húð, þriðjungr kúgildis, ok bæti eyri hvárt; kýrhúðir 2 við öldungshúð. Rètt er ef snöggvar ær eru goldnar, at láta fylgja vætt ullar 20 ám.

## 7. Um öreiga skuldir.

Ef öreigi á manni skuld at gjalda, sá er látið hefr peninga sína fyri eldi eðr skipbrotum, eðr öðrum misferlum, sveri eineiði, at hann skal lúka þá skuld, þegar guð gefr honum efni til, ef eigandi heimtir, ok hefr hann eigi áðr við óskil kenndr verit. Nú krefr maðr skuldar þann öreiga, er eigi eru slík tilfelli er fyr voru töld. Varðveiti hann í gæzlu ok kveði þings, ok láti fara lausan á þing fram, ok bjóði frændum hans at leysa hann undan skuld þeirri, er hann á at lúka. En ef þeir vilja eigi leysa hann, þá dæmi þingmenn, at hann vinni af sèr þar sem hann fær sèr vinnu, ok er hann vinnufærr þeim til skuldar er á. En ef hann hleypr burt, hafi refsing eptir lagadómi, nema skynsömum mönnum virðist meiri miskunnar vert, ok

skipi þeir sem þeir vilja fyri guði svara, eptir atvikum. (R. B. H. K. Um þá lausamenn, sem óskil gjöra, ok skuldir eiga at gjalda, þá taki sýslumaðr góz þeirra meðr vitorði skilríkra bænda, ok lúki hverjum sína skuld, ef til vinnst. Ella missi hverr maðr, sá er skuld átti hjá honum, eptir því sem tala rennr til. Svá skal gjöra hverr sýslumaðr í sinni sýslu).

## 8. Um skuld eptir dauðan mann.

Nú er sá dauðr, er skuldina átti at lúka, en hinn lifir, er heimta á, þá kemst hann eigi til skuldar nema með váttum, því at engi skal eið sverja fyri brjóst hins dauða. Erfingi skal þann eið sverja, ef hann er fulltíða maðr, ella fjárhaldsmaðr hans lögligr, at eigi var sú skuld svá at hann vissi, þá sver hann fyri sitt brjóst, en eigi hins dauða. Nú stendr skuld 20 vetr eðr lengr, þá fyrnist sú skuld fyri váttum, en hann má koma hinum til eiða, ef hann vill, því at í salti liggr sök, ef sækendr duga. (R. B. H. K. Engi maðr skal ábyrgjast vitni um skuldalykningar lengr en 5 ár, ef skuld er minni en 6 hundruð. En ef skuld er meiri, ábyrgist eigi lengr vitni en 5 ár).

## 9. Um fjársóknir utan hèraðs.

Nú kemur sá maðr í hèrað, er þú villt sóttan hafa um eitthvert mál, ok á engan erfingja í því hèraði, ok var eigi þar náttina helgu, þá skal hann spyrja hann at heimili sínu, ok ef hann nefnir heimili sitt, þá skal hann stefna honum þangat. Eigi skal hann segja at valdsmanns, nema þar sè. En

ef hann vill eigi segja, þá skal hinn lýsa undir vátta, ok stefna honum hvert í garð er hann vill[1], nema sjálfum sèr, ok sækja hann þar síðan. Þá er ok rjett stefnt hverjum manni, er stefnt er á kauprein, þar er þeir keyptust við. Svá skal ok einhleypum manni heim stefna sem bónda, þangat sem erfingi hans er innan hèraðs. Ella skal hann spyrja hann at heimili sínu. Þar skal vera sem hann segir[2], nema hann segi at valdsmanns. Engi maðr skal sök gefa á annars fè.

## 10. Um fjársókn innan hèraðs.

Nú skulu hèraðssóknir standa um alþing, ok 7 nætr fyr ok eptir, ok um langaföstu. Kristins dóms rètt má jafnan sækja, ok ný verk þau er verða, Ekki má at sóknum gjöra á löghelgum dögum, nema stefna manni heim at eins, ok til lögmanns. Maðr má stefna manni heimstefnu annars manns sem sjálfs síns, ef hann hefr umboð til þess með váttum, ok svá til lögmanns. (R. B. E. K. Eigi er umboð fullt at lögum, nema með váttum ok handsölum). Sjálfr skal hverr sína sókn sækja innan lands, frjáls maðr ok fulltíða, ef hann er innan lands. En ef hann hefr eigi kunnáttu til eðr menning, þá sæki konungs-umboðsmaðr honum til handa, ok öðlist svá þá sekt, sem við liggur at lögum, ok ekki framar. Ef maðr fer af landi í burt, þá skal sá halda fè hans um 3 vetur, er hann hefr um þat boðit með váttum at halda skyldi, ok skal sá

[1]) Aðrar bæta við: innan hèraðs. [2]) Aðrar bæta við: innan hèraðs.

hafi sókn ok vörn fyri hann. En ef hann er lengr í burt en 3 vetr, þá skal sá hafa sókn hans ok fjárhald, er arfi er næstr, ok eyða engu af. En ef hinn kemr aptr, luki honum slíkt er hann tók, ok váttar vita, at hann átti. Svá skal konu sækja sem karlmann, ef hún er ein fyri sèr, en hún á kost at selja hverjum er hún vill sókn sína ok vörn. Eigi skal hún selja valdsmanni eðr ofríkismanni þeim er við hana á. Maðr má sækja hennar sókn sem sína, ef hún hefr honum lögligt umboð til þess fengit með váttum. Nú vill maðr sækja annan mann um eitthvert mál, en honum hefr annar maðr fyrri sókn á hendi, þá skal sá af láta fyr, er síðarr tók til, því at eigi má hann tveimr senn svara, nema þat sè vèlasókn við hinn gjör.

## 11. Um lagakaup ok falskaup.

Hvervetna þar sem menn kaupa jarðir, eðr skiptast við húsum, skipum eðr öðrum gripum, þá skal kaupa meðr handsölum, ok meðr váttum tveimr eðr fleirum, ok með heimildartökum. En öll önnur kaup, þau skulu haldast, ef handsölut eru, ok svá öll þau, er váttar vitu, ef þeir menn kaupast við, er kaupum sínum eigu at ráða, nema maðr seli óheimilt, eðr sè fals í, þá skal þat kaup aptr ganga, en hinn hafi andvirði sitt. Ef maðr selr gull eðr brennt silfr, smíðat eðr ósmíðat, þat er skírt skal vera, ok fyri skírt var selt, þat skal skírt vera. Svá ok ef maðr selr hunang í tunnum eðr verplum, malt eðr korn í pundum, mjöl í sekkjum, smjör eðr salt í laupum, eðr nokkurn þann hlut, sem í

belgjum eðr böndum er, þat skal jafngott utan sem innan, því at engi skal öðrum selja fox eðr flærð. En ef sá gjörir fals í er seldi, bæti rètt sinn þeim er keypti, en konungi 13 merkr, nema meir eðr minna virðist at lögum. En ef hann seldi slíkt er hann keypti, ok vissi þó at fals var í, ok vildi þó eigi úr taka, gjaldi þeim mörk er keypti, en konungi 6[1] merkr. Svá ok ef maðr selr klæði. lèrept eðr vaðmál, ok allt þat er fals er í, svari slíku fyri sem áðr váttar, sá er seldi, nema því at eins, at hann vissi eigi, at fals var í, ok hafi fyri sèr sèttareið. Síðan hafi hverr fram sinn heimildarmann, þar til er til prófs kemr, ok svari sá fyri fals, er at lögum á fyri at svara. Þat er allt fals, er skynsamir menn meta til fals, en eigi skal þat sýslumaðr meta, nè hans umboðsmaðr; því at þá má virða til ágirni. Nú eru kaup handsölut, ok eru engi vitni til, synì eineiði sá er seldi, eðr kaup haldist.

## 12. Hverr kaup at brèfa skal.

Öll þau skilorð, sem menn gjöra í kvennagiptingum, ok svá ef menn kaupa jarðir, ok fyri hvert sex hundraða kaup eðr meira, þá skal hvárrtveggi gjöra brèf eptir kaupi sínu ok skildaga, ok nefna vátta sína, þá er við váru, stund ok stað, ok hafi fyri lögmanns innsigli, eðr sýslumanns, eðr nokkurra skilríkra manna, þeirra er við váru kaup þeirra. En ef eigi fær innsigli, gjöri chirographum, ok beri þat vitni kaupi þeirra, ef eigi eru váttar til, hvárt sem þat mál dæmist fyri lögmanni eðr öðrum rèttum dómara þess máls.

[1]) Aðrar: 5 merkr.

## 13. Ef maðr vill eigi vitni bera.

Hvert þat mál, er vitnat verðr undir mann, svá ok þó at eigi sè vitnat, hvárt sem heldr hefr maðr sèð eðr heyrt á, þá skal hann vera skyldr at bera þat vitni, lögliga til kvaddr af rèttaranum. En ef hann vill eigi bera, þá skal sakaráberi krefja hann þess úrskurðar. En ef hann vill þá eigi bera heldr en áðr, þá er hann sekr mörk, hálft konungi, en hálft þeim er sækir. Svá skal hann ok bera þat vitni, sem hann er eigi nefndr til, at hann skal bera viðrvist sína, eptir því sem framast sá hann ok heyrði. Síðan dæmi lögmaðr eðr dómsmenn, hversu fullt þeim þykir þat vitni. En sá er vitna þarf skal standa þeim kost allan.

## 14. Hver kaup at haldast skulu.

Nú skulu haldast öll handsölut mál þau sem haldast eiga at lögum, ok lögbók mælir eigi í mót. Þat má eigi haldast, ef maðr selr þat öðrum, er hann hefr áðr öðrum selt. En ef sá hefr hönd at, er síðarr keypti, þá má hann halda skiladómi fyri kaupi sínu til lögmanns úrskurðar. Nú á sá kaup at hafa, er fyr keypti, ef honum fullnast vitni at skiladómi. Þá er hinum kaupfox, er síðarr keypti; þá skal hann lýsa undir valinkunna menn. Þat er kaupfox, ef maðr kaupir þat, er hinn átti ekki í, er seldi, nema at þess ráði væri selt, er átti. Nú skal hann hitta þann mann, er honum seldi, ok heimta sitt af honum. En ef hann vill eigi honum í hönd selja, þá skal hann honum heim stefna, ok njóta vátta sinna, at hann lèt at lögum laust, ok

kreli hann fjár síns ok leggi honum rán við. En ef hann selr öðrum síðan[1], þá er hann sekr hálfri mörk við konung. Nú ef hann fær eigi hinum fengit þat sama kaup eðr annat jafngott, þá gjaldi hann eyri af merkrkaupi hverju þeim er keypti, ok þó eyri at kaup sè minna, ok sè þeir þá sáttir. En sá er vísvitandi keypti, þat er annarr hefr fyr keypt, sekr eyri við konung fyri merkrkaup hvert. Nú kaupir maðr við útlægan mann, þá á konungr þat fè, er hann keypti at honum, ok þó sekr 6 aurum við konung, eðr synì með lýrittareiði, at hann vissi eigi, at hann var útlægr.

## 15. Um leigufè.

Nú af því, at í þessu landi þurfa margir menn við leigufè at hjálpast, því skal engi dýrra selja málnytukúgildi á leigu en 2 fjórðungum smjörs, eðr ala 4 lömb eptir kúgildi, ok ábyrgist sem fúlgufè. (R. B. E. K. En 6 skynsamir menn meti hvárt sá er leigði hefr til fóðr eðr smjör, ok ef eigi er til, gjaldi hann annan mat jafnvirðan, ef hann þarf eigi úti til at kaupa. Ella leysi tólf álnum vaðmáls). En sá er dýrra selr skal eigi meira hafa en lögleigu, ok tvígildi þat sem hann eykr lögleiguna. En geldfjár kúgildi eptir samkomulagi er rètt at byggja 12 álnum. En af því at hverr maðr verðr skyldr at hjálpa jafnkristnum sèr afrkostalaust, allra helzt, er þeir taka sva mikinn ávöxt á sínu gózi, þá skulu þeir allir skyldir at byggja sína málnytu á vár, at þessari leigu þeim er þurfa, ok skynsöm-

[1]) Aðrar bæta við: þat er hinn kærir á.

um mönnum virðast óhættir skuldunautar, utan slíkt sem hver vill hafa sjálfr at sínu búi[1].

## 16. Um ábyrgð á leigufé.

Nú selr maðr kýr á leigu eðr annat búfè, þá skal sá ábyrgjast við öllu, er leigir, nema við bráðasótt ok lungnasótt, kelfing eðr lambburð, aldri eðr lystrreið, ok þó at alla ábyrgð skili þeim á hendr, er leigir, þá skal þat eigi haldast. En ef kúgildi eðr kýr deyr fyri fátækum manni, þá gjaldi hann á 3 árum verðit, eptir því sem 6 skynsamir menn meta, en enga fèmissu með. Engi maðr skal kú eðr annat kvikfè leigja lengr en lifir, nema sjálfr hann drepi, eðr þeir menn, er hann á at halda orði eðr eiði fyri, eðr þeir menn, er hann býðr um. Nú skal hann kú hafa eðr kúgildi at leigumála rèttum til fardaga at öðru vári, nema þeir hafi annan máldaga á gjörvan sín í milli, þá er hann tók kú. Nú er sú kýr dauð, en hann átti veð í annari, þá skal hann þá hafa fyri sína kú, því at kýr skal í kýrstað koma jafnan. En ef sú lifir er hann á, þá skal hann þá hafa, þó at sú sè eldri en lagagjald, en ef lestir eru á orðnir, þó at horn brotni, eðr hali slitni, þá skal hann þá löstu bæta eptir lögum, Nú vill hann kú eigi lengr leigja, þá skal hann hitta þann mann, er kú á, ef hann er innan hèraðs ok bjóða honum

[1]) Aðrar bæta við: Engi skal með dilkum fleira ganga láta eða hafa en eina tíundu hverja á. En ef fleira hefr dilkfè, sekist eyri við konung fyri á hverja á 12 mánuðum, nema þeir eigi minna fè en 5 hundruð tíundarvirt; þeim er rètt þó at fleira sè. Rètt er at gimbrar gangi með dilkum svá margar sem eigandi vill.

kú við vátta; en ef hann er utan hèraðs, þá skal hann færa kú heim, ok leiða menn til at sjá ok meta kú, at hún er heil, ok hinum tæk er á, ok segi þar af sína ábyrgð, ok veiti vörð sem nautum sínum, ok þiggi nyt af, ok hafi þat fyri gras ok gæzlu, ok ábyrgist við handvömmum sínum einum. Nú ér sá af landi farinn, er kú átti, ok hefr manni um boðit um fjárhald sitt, þá á hann honum kú at bjóða, ef hann er innan hèraðs, en erfingja ef eigi er umboðsmaðr til, ef hann vill eigi lengr leigt hafa. Svá skal fara um annat leigufè sem um kýr skilr. Nú drepr maðr vilja hendi leigufè, utan orðlofs þess er á, bæti hálfri mörk fyri kúgildi hvert eptir rèttri tiltölu, hvárt sem er meira eðr minna, hafi þat hálft konungr, en hálft sá er leigufè átti, ok sæki sem vítafè, ok hafi eigandi fulla leigu af því fè sem lifandi væri.

## 17. Um handvammir.

Nú felr maðr búfè sitt inni með manni at fálgumála rèttum, þá skal hann ábyrgjast við handvömmum sínum öllum. Þat er handvömm hans, ef hann sveltir eðr drepr, eðr þeir menn sem hann skal orði eða eiði fyri halda, ok svá ef hans fjárhaldsmaðr hittir eigi fyr en önd er úr, eðr fellr fyri berg, ok fylgir eigi fjárhirðir. En ef hann sýnir þat fè áðr[1] búð er af flegin, ok fylgir höfuð, þá er þat eigi handvömm hans. Þat er handvömm hans, ef drukknar í brunni, eða kirkir klafi, en ef hes

[1]) Aðrar bæta við: en hann hefr höfuð af skorit, eðr húð af flegit, ok fylgir vindr.

er í bandi, eðr rennr staur fyri, þat er eigi handvömm hans. Þat er handvömm hans, ef af megri verðr dautt. Nú skal hann fæða fúlgufè til krossmessu á várit, þá skal hann hitta þann er fè á, ok bjóða honum at taka við fè sínu, ok sýna honum at fært er at mat sèr, ok segja af sína ábyrgð. Nú tekr maðr hross á fúlgu eðr beit, þá á hann at ábyrgjast við sínum handvömmum. En þat eru handvömm hans, at grannar hans virða til þess, ok vilja þat með eiði sínum sanna, nema hann segi þat þá er hann tók, at hann vill at engu ábyrgjast. Nú tekr maðr naut á fóðr, ok skal hann svá ábyrgjast sem fúlgunaut. Þat skal maðr eigi ábyrgjast, þó at kýr fái eigi kálfs, ef hann hefr graðung með nautum sínum.

## 18. Hvat lögglld kýr er.

Nú hefr maðr kú mælta í skuld sína, þá er hvárki skerði verð nè leigu, þá skal sú eigi eldri vera en 8 vetra, ok eigi yngri en at öðrum kálfi, heil ok heilspenut, ok hafi kelft um vetrinn eptir Pálsmessu, ok slík at öðru sem fyr segir. Nú kaupir maðr at manni hross eðr naut, eðr annat búfè, þá er þess ábyrgð á, er keypt hefr, þegar hann fer í burt með. Kvikfè allt þat er maðr selr öðrum, þá skal engi avik selja nè með leynandi löstum. Þat er leynandi löstr á hrossi, ef þat er dauft, blint, kviðdraga, vammhalt, stjarft, statt, en á öðru kvikfè, ef þat lekr eða drekkr sig sjálft. Sá skal sverja er seldi, at hann

vissi eigi leynanda löstu á, eðr hafi sjálfr ella, ef hinn finnr á fyrsta mánaði.

## 19. Ef maðr kaupir ósèð.

Nú kaupir maðr grip ósèðan af manni, þá er þess ábyrgð á er seldi, þar til at þeim kemr í hönd er keypti, eðr þeim er hann bauð um fyri váttum við at taka, nema þeir skili öðruvís fyri váttum.

## 20. Um þá gripi, er eigi má skipti á koma.

Alla þá gripi, er menn eiga saman, hvárt sem þat er akr eðr hús, eðr teigar, eðr aðra hluti, þá er skipti má á koma, svá at eigi verði skaði af, þá skal sá skipti ráða, er skipta vill, sem segir í eignarskiptum. En þar sem 2 menn eðr fleiri eigu einn grip saman, þá er eigi fær skipti á komit, svá at eigi verði skaði at, eða þann, er annarr vill gagn af hafa, en annarr órækir eðr vill eigi gagn af hafa, bjóði þeim fyrst er til móts á við hann. Nú vill sá eigi kaupa þá hluti, hverr kaupa skal, ok leysi sá er hlýtr sem skynsamir menn meta. Nú vilja þeir eigi leysa, þá seli hverjum, er hann vill, ok lúki þeim sinn hluta verðs. Vili þeir eigi við taka, hafi at ósekju þar til er hinir heimta, ok ábyrgist sem sitt fè. Engi skal annars selja framar en í lögum er mælt.

## 21. Um ábyrgð á lánsfè.

Sá skal lán ábyrgjast, er lèð er, ok komi heilu heim, en ef hann vill þat eigi, þá sæki sem vítafè. En þat er allt vítafè, er váttar vitu, ok svá

allt þat, er dómr dæmir manni, eðr lögmaðr segir á hendr manni, með lögligum lagaúrskurði at gjalda öðrum. Nú lèr maðr eðr selr þat sem honum var lèð, ok misfer með, þá skal eigandi heimta at hvárum sem hann vill þeim er seldi, eðr hinum er keypti, ok svá skal hvervetna þar sem maðr selr eðr lèr annars gagn.

## 22. Um veðfè.

Nú leggr maðr öðrum manni veð fyri einhvern hlut, þá skal sá ábyrgjast veð, er tekr. En ef þeir hafa gjört eindaga til, nær út skal leysa, þá skal hann bjóða honum eðr hans umboðsmanni í eindaga, ok hafa vátta við. En ef sá leysir eigi út, gjöri hvárt er hann vill (at skynsamra manna virðingu) hafi sjálfr, eðr seli öðrum. Hafi sá skuld sína er við tók, en hinn þat sem at auki er. Nú er eigi eindagi á settr, leysi innan 12 mánaða, eða fari sem fyr skilr. Nú á maðr fè at heimta at öðrum manni, ok tekr hann veð fjár síns í einhverjum grip, hvárt sem þat er í jörðu eðr öðru fè, þá skal þat veð virða. Nú selr maðr veð í burt öðrum manni, þá skal sá hafa vátta til veðs síns, er veð átti, ok hafi leyst út á fyrstu 12 mánuðum, ef hann er innan hèraðs, en ef hann er utan hèraðs, þá skal hann hafa leyst innan 12 mánaða, er hann kemr í hèrað, nema nauðsynjar banni, þær sem í lögum eru taldar. Vitni skal hann hafa til þess, at þær sè sannar, ella á hann þess máls aldri uppreist. Nú selr maðr tveim mönnum eitt

veð, þá á sá veð at hafa, er fyr tók[1], en hinum veðfox, er síðarr tók, ok þat vitu váttar.

## 23. Um skuldskeytingar.

Nú heimtar maðr skuld at manni, ef hann er innan hèraðs, ok skuldskeytir hann við annan mann, þá hefr hann[2] lokit þeirri skuld sèr af hendi, ok ef þar eru váttar við, at hann tók þann skuldarstað, ef sá vill játa at gjalda er lúka skal. En eigi er hann skyldr at gjalda öðrum en þeim er fyrst átti fè at honum, nema hann sè utan hèraðs, eðr eigandi hafi áðr heimt í rèttan gjalddaga, ok fengit eigi, þá á sá er síðarr tók þá skuld at[3] kaupi eðr gjöf, ok er rèttr heimtandi þess fjár, ok eignarmaðr, ef hann hefr löglig vitni til, at hinn heimtaði af honum þat fè, ok er hinn þá við skildr. (R. B. E. K. Með handsölum skal jarðir byggja, ok í borgun ganga). Svá ok ef maðr fær manni löglígt umboð til at heimta fè sitt, svá til komit sem fyr segir, þá skal gjaldandi umboðsmanni svara ok lúka þat fè, en eigi eiganda, nema hann hafi með váttum sjálfr aptr tekit af honum þat umboð.

## 24. Um kaup ómaga ok kvenna.

Ómagi skal engum kaupum ráða. Þat skal ok vita, hversu miklum kaupum konur megu ráða. Bónda kona eyriskaupi á 12 mánuðum. Riddara kona 2 aura kaupi. Lendsmanns kona hálfrar merkr kaupi, nema bóndi hennar sendi hana til skipa at

[1]) Aðrar hafa: tók eðr keypti. [2]) Aðrar bæta við: rètt.
[3]) Aðrar bæta við: skuld, kaupi eðr gjöf.

kaupa þeim báðum þarfindi, þá skulu haldast kaup hennar öll ófölsut, ok þat allt er hún þarf í bú at kaupa, ef bóndi hennar er í burtu, hvárt sem hann er innan lands eðr utan. En jarðir skal hún engar selja. En ef kona kaupir annan veg, þá skal hann rjúfa á fyrsta mánaði forfallalaust, er hann kemr heim, ok hann veit, ef honum þykir hún ofkeypt hafa. Ella á hann þess máls aldri uppreist.

## 25. Um verkamanna kaup ok skilorð.

Nú kaupir maðr verk at frjálsum manni með handsölum, þá skal þat allt haldast sem þeir verða á sáttir. En ef bóndi vill eiga halda mála við leigumann sinn, ok vísar honum úr vist, þá skal hann krefja með vátta tvá vistar sinnar, ok bjóða verk sín slík sem þeir urðu ásáttir. En ef bóndi vill eigi við honum taka, þá er hann sekr hálfri mörk við konung, en hinn skal hafa kaup sitt ok matarverð, þat sem óneytt er. Ef leigumaðr vill eigi halda kaup sitt ok mála við bónda, þá skal bóndi krefja hann verka slíkra sem hann handsalaði honum, ok bjóða honum vist með váttum. En ef hann vill þat eigi, þá er vinnumaðr sekr hálfri mörk vil konung, ok á þó bóndi at heimta at honum slíkt sem hann skyldi reiða honum, en matarverð fær hann ekki, því at hinn hafnaði því sjálfr. Nú tekr leigumaðr á hönd sèr eins manns verk, ok getr eigi unnit, þá skulu 6 menn meta, hvert leigufall þat skal honum verða. Ef maðr tekr vísvitandi annars vinnumann, sekr hálfri mörk við

konung (R. B. E. K. Ef verkamaðr liggr sjúkr 3 náttum lengr um heyannir, en hálfan mánað utan heyanna, meti skynsamir menn, hvert leigufall þat er), nema hann hafi ákvæðisverk, þá gelzt eigi leiga fyri þat er óunnit er. En bóndi skal halda honum kost sem áðr er skilt. En ef maðr liggr lengr, þá skulu skynsamir menn meta verkatjón hans, ok mat þann er hann neytir, ella færi á hendr frændum. Eigi er lagakaup við verkmenn nema með vitnum ok handsölum.

## 26. Um vágir, stikur ok mæliker.

Svá er mælt, at menn skulu eigi hafa ranga stiku, pundara nè mælikeröld. En sá er rèttr pundari, er 20 merkr sè í fjórðung hvern, ok megi á vega 2 níu fjórðunga vættir, en eigi meira, ok rísi at fjórðungi. Sá er annarr pundari [1], at rísa skal at hálfri mörk, ok eigi meira á vega en hálfan annan fjórðung, þat skal vera tungupundari Stika skal sú vera, at tvær álnir gjöri stiku, sem verit hefr at fornu. En þessi skulu vera mælikeröld til búnytjar, ok til þeirra hluta sem í keröldum skal mæla: er þat fyrst búskjóla sú, er í liggr hálfr annarr fjórðungr, þat er fjórðungr, er gjörir á vág 20 merkr rúgar, ok hrista tvisvar í keraldi, ok draga trè yfir. Kvenna askar eru 4 í fjórðungi, hálfr annar kvenna askr í karlaski. Skulu þessir pundarar, stikur ok mælikeröld liggja á þingvelli undir lögmanns lási. Skal þar eptir hverr sýslumaðr rètta sína pundara ok stikur ok mælikeröld, en

[1]) Aðrar bæta við: er heitir handpundari.

bændr eptir þeirra pundurum, stikum ok mælikeröldum í hvers sýslu. En hverr sem eitthvert í þessari grein hefr rangt, sekist mörk við konung, ef hann veit, ok hafi hann mátt eptir sýslumanns pundara marka eðr stiku. En eigi eru allir bændr skyldir mælikeröld at eiga. (R. B. H. K. Björgvinar askr mótmarkaðr skal ganga hèr til lýsis ok hunangs, ok sá sem lögmaðr lætr þar eptir gjöra. En hverr sem í röngum aski mælir, svari fullri sekt sem lögbók váttar, en hinum fyri skaða sinn, er síns missir rangliga. Einar vágir ok ein mælikeröld skulu ganga um allt land. Ef maðr verðr sannprófaðr at því, at hann stikar rangt með rèttri stiku, eðr vegr rangt með rèttum vágum, eðr mælir rangt með rèttum mælikeröldum, ok verðr þat eyris skaði, svari slíku fyri sem hann hefði stolit jafnmiklu).

---

# Hèr hefr hinn áttunda hlut lögbókar, ok kallast farmanna lög.

---

## 1. Um lögliga fartekju.

Sú ein er löglig fartekja en engi önnur, at í hönd skal taka stýrimanni eðr hans lögligum umboðsmanni, ok nefna vitni við 2 eðr fleiri, ok segi sá til athafnar sinnar, er far tekr, en hinn til leigu er skip byggir. En ef þá skilr á um kaupmála, þá hefr sá sitt mál, er vitni fylgir, ok þeir sveri svá: vit heyrðum orð ykkar, ok váru þit þá sátt-

ir ok samkaupa um fartekju, svá um lest[1] ok leigu; þá er þat vitni lögliga borit, ok at fullu far tekit, eptir farmanna lögum rèttum.

## 2. Hversu skip skal fært vera.

Skip þat er ausa þarf þrisvar á tveim dægrum, er talt fært í allar farir, nema hásetar vili hlíta lekara skipi. En ef stýrimenn láta ausa skip um nætr á laun fyri hásetum, þá heyrir þat til svika við þá, ok eiga stýrimenn at bæta þann skaða allan, er af því gjörist, hvárt er þat er um fè manna eðr fjör eðr hvártteggja, því at þat fals á hverr at bæta, er sjálfr gjörði. Nú er farmr á skip kominn, föt ok matr ok drykkr, hann skal eigi minni en 2 menn hafi 3 bjórverpla með vatn, ok allt annat þat sem til er ætlat, ok ef þá sýnist hásetum skip sè ofhlaðit undir þeim, en stýrimenn kalla mundangi hlaðit vera, þá skulu þeir nefna 2 stýrimenn af öðrum skipum, ef til eru. Ok ef þeir vilja því til guðs skjóta, at þeir vildu fara á svá hlöðnu skipi jafnlanga leið, þá eiga hásetar eigi at vanda um þá hleðslu, ok fara þá við svá búit. En ef stýrimönnum af öðrum skipum þykir ofhlaðit skip, þá skulu stýrimenn af bera alla sína vöru aðra en þá, er þeir höfðu ætlat sèr til reiðakaups, því at skip er hvergi fært ef reiða skortir. En ef skip er þá enn ofhlaðit, þá skal sá fyrst af ganga ok af bera, er efst tók fari, ok hverr at öðrum, er tekit hefr, til þess er þeim þykir mundangliga skip hlaðit, er þessu máli skulu skipta, ok

[1]) Aðrar hafa: kost.

til váru nefndir. En ef stýrimenn af öðrum skipum eru eigi svá nær, at þeir megi tilkoma, þá skal bændr til nefna, þá er næstir búa, ok helzt hafa vit til, ok vanir eru í kaupferðum at skíra þetta mál, eptir því sem fyr segir. En hverjum manni, er af skipi gengr með föt sín ok fè, þá eru stýrimenn skyldir at fá þeim föruneyti jafngott til þess lands sem þeir höfðu sik til ætlat. En ef þat fæst eigi, þá greiði stýrimaðr þeim slíkt fè sem þeir skyldu taka af þeim, ef þeir færi þangat sem þeir höfðu sèr far tekit, ok gjaldi aptr leigu slíka sem hinir höfðu áðr af hendi greitt.

## 8. Um skips uppsátr.

Þá er stýrimenn vilja skip sitt fram setja eðr upp, þá skal hann skera boð upp 7 náttum fyri, ok svá víða bera láta sem hann þykist þurfa. En hverr sá bóndi, er þat boð kemr til, er skyldr til at fara ok húskarlar hans, nema sauðamaðr. En hverr er eigi kemr forfallalaust, er sekr 2 aurum við konung. En ef bóndi dvelr húskarl sinn frá þessari ferð, þá svari hann þeirri sekt er við liggr, en griðmenn skulu sjálfir fá sèr eiki, ef þeir hafa til. En ef þeir eiga eigi til, þá skulu bændr fá þeim eiki, ef þeir eiga til. Eigi eru bændr skyldir at fá griðmönnum eiki fyr en 6 vikur eru af sumri, ok eigi síðarr en 4 vikur lifa sumars. En þegar boð kemr, þá eru allir skyldir at fara. Ef skip er í öræfi komit, þar sem firðir eru fyri eðr sund, þá er bóndi skyldr at fá þeim skip, ef hann hefr til. Enda eru þeir skyldir at fara, þó at stýri-

maðr fái þeim skip. Eru ok stýrimenn skyldir at ala þá menn í 2 mál, er eigi megu fara tvívegis heim frá skipdrætti, eðr heim at kveldi. Stýrimenn eigu at gjöra hróf, ef þeir vilja, svá ok at skjóta hlunni, ok festar til at fá, ok um skip at búa at öllu með háseta fulltingi. Stýrimenn eigu ok at ferja þá menn heim, er fara eigu yfir fjörðu eðr ár ófærar[1], ella eru þeir sekir hálfri mörk hverr, hálft konungi, en hálft þeim, er til skipdrátta váru kvaddir, ok hafi þó skip at ósekju, ok ábyrgist at engu. Þá skulu menn á festum taka, er stýrimaðr vill, ok leiti við þrisvar af öllu afli, ok ef þá gengr eigi skip upp eðr út, þá eru þeir allir ósekir, er þar eru við, þó at ekki gjöri þeir þar meira at, ok sè menn til kvaddir í öðru sinni, ef þarf. En þeirra ábyrgð er á skipi, sem heima sátu, lögliga til kvaddir, ok þó sekir sem fyr váttar.

## 4. Nær skiparar skulu til skips komnir.

Á þeim degi, er stýrimaðr vill út leggja, þá skulu allir skiparar til koma forfallalaust. En þat eru forföll, sem lög vátta. En þegar þar kemr skutstafn sem áðr var framstafn, ok horfir skip á leið, þá á stýrimaðr skipleigur allar, nema hann vill betr gjört hafa, hvat sem af skipi verðr síðan, nema þau skip setist hèr upp, sem ætla til Noregs, þá skulu þeir bíða byrjar til Maríumessu síðari, því at hèðan skal eigi síðarr sigla. Nú þó at skip

[1] Aðrar hafa: ár ok ófærur; sumar bæta einnig við: ok svá opt.

sétist þá upp, þá skal öllum víst far at vári þeim er tekit hafa fyri þá leigu, er þeir greiddu fyrra sumarit. Deyja ok nokkrir þeir, sem sèr hafa far tekit, eðr fara eigi, þá eignast stýrimaðr þá leigu alla, er þeir skildu hit fyrra sumarit greitt hafa. Engi íslenzkr maðr skal hèðan fara með minna fè, en hann hafi til tíu hundraða, sekr mörk við konung sá er við þeim tekr, en annari mörk sá er fari tók, nema hann þjóni eðr fari til skóla, eðr fari fyri nokkra nauðsyn, þá er rètt at flytja, þó at all-lítið fè hafi.

## 5. Um hafnir.

Þar skulu menn til hafna halda, sem skipa uppsát eru fyri, ef þeir megu komast. Þar eigu þeir at grafa fyri hlunni, ok gjöra hróf, ok hlaða vegg fyri skip sitt, vatns at neyta ok haga, ok svá þeir menn er þangat koma til kaupa við þá, nema þeir sèu lengr en 3 nætr þar með eiki sína, þá bæti landnámi þeir er til kaupa koma. Engan toll skulu kaupmenn greiða fyri þetta.

## 6. Ef stýrimaðr segir tvennt til hvert hann sigla vill.

Ef menn taka sèr far af stýrimanni, ok segir hann sitt hverjum, hvert hann vill farit hafa. Nú þar sem leið skilr, ok vill hverr þangat fara sem sèr tók fari, ok hefst upp þræta með þeim, þá skulu þeir sitt mál hafa, er fleiri eru, þó at einum auki, en stýrimaðr skal engu um ráða. En ef hverir verða jafnmargir, þá skulu þeir bera hluti í skaut,

ok hluta, ok skulu þeir ráða er hlutr fylgir. Nú vilja þeir af skipi ganga, er lygð var fyri borin lausungarorð, þá skal stýrimaðr gjalda mörk hverjum þeirra, er af gengr skipi, ok skipleigur um fram, er hann tók af þeim, en þær hinum, sem eptir eru á skipi, skal hann fá svá marga menn, at þeir sè vel liðfærir, ok halda þá með sínum kosti þangat til kaupstaðar, sem þeir hafa sèr far tekit.

## 7. Um stýrimenn.

Einn skal vera stýrimaðr á skipi hverju, nema á Íslandsförum, þar mega fleiri vera. Stýrimaðr skal þriðjungi meiri lest hafa en hásetar, ok þó ekki meira upp leggja en hásetar, fyri því at hann á þriðjung at hafa til reiðakaups sèr, ef hann þarf, þat eiga allir hásetar at flytja. Því skal hlaða í klofarúmi við siglu. Stýrimaðr skal leiðsögumann til fá, en allir túlk. Allar lestir skulu jafnstórar vera at fullu fari, nema sumum hásetum sè skild meiri lest, en sumum minni. Svá skal hverr maðr hafa margra punda þunga í lest sína, ok svá mikla vöru, sem hann hefr sèr far undir tekit, ok leigu fyri fest. Hverr maðr skal húðir fá yfir vöru sína, svá at jafnmargir sekkir skulu vera undir jafnmikilli húð.

## 8. Ef háseti rýfr skipan.

Ef háseti rýfr skipan undir stýrimanni, ok verðr hann at því vitnissannr; rýfr hann innanlands, þá er hann sekr mörk við stýrimann fyri lest hverja, er hann ber af. En ef hann rýfr skipan undir

stýrimanni í Danmörku eðr í Gautlandi eðr Svíþjóð, gjaldi 2 merkr, aðra konungi, en aðra stýrimanni fyri lest hverja, er af berst. En ef maðr rýfr skipan í Gottlandi eðr Smálandi eðr sunnar á Saxlandi, sekr 4 mörkum, hálft konungi, en hálft stýrimanni. Rýfr hann skipan í Englandi eðr Skotlandi eðr Orkneyjum eðr Dýflinni, Færeyjum eðr Hjaltlandi gjaldi 8 merkr, hálft konungi, en hálft stýrimanni. Nú rýfr maðr skipan á Grænlandi eðr hèr á Íslandi, sá er útlenzkr er, eðr austr í Görðum, sekr átta ortugum ok 13 mörkum silfrs, hálft konungi, en hálft stýrimanni. Nú heitir þegar skipan rofin, er skipari kemr eigi til skips með varning sinn í þær stefnur, er aðrir skiparar koma, ok stýrimaðr gjörir ráð fyri, ok hafa slík lög öll í heimferð sem þeir höfðu í heimanferð, ok skip í allra þeirra ábyrgð þar til sem upp er sett, nema stýrimaðr vili betr gjört hafa.

## 9. Um bið eptir stýrimanni.

Nú kemr byr á, þá skulu hásetar bíða stýrimanns síns um 3 sjóarföll, en síðan megu þeir fara hvert er þeir vilja at ósekju. Nú kemr byr á, ok er háseti genginn frá skipi utan leyfis stýrimanns ok háseta, þá skulu þeir bíða hans 2 sjóarföll, þá megu þeir fara at ósekju. Nú gengr háseti frá skipi, ok kemr byr á, þá skulu 3 menn ganga á land upp, ok skal einn þeirra standa við bryggjusporð, ok annarr upp frá honum, ok hinn þriði lengst upp, svá at hverr megi heyra annars kall, ok æpi þrisvar sinnum, ok gangi síðan til skips. En ef hann kemr

þá eigi, þá megu þeir fara at ósekju, ef hann er á kristnu landi staddr. En ef hann er á heiðnu landi, þá skal bíða hans 2[1] sjóarföll, ef þeim er óhætt fyri heiðnum mönnnm. Nú stendr maðr eptir í byggðri ey, þá skulu þeir leigja honum far til meginlands með fè hans. En ef hann stendr eptir í óbyggðri eyju, þá skal leggja honum eptir 7 nátta vist ok eldfæri, hát ok bolöxi, hversdags skikkju. Nú stendr maðr eptir, en mötunautar hans bjóða manni á lest hans, ok hafa við þat vátta, en stýrimaðr ok hásetar kveðast eigi þurfa, þá frjálsar þat fè hans við stýrimann ok háseta, hvat sem í hverju gjörist. Nú koma hermenn at þeim, ok kemr eitthvert hervápn innan borðs af ófriði, ok verða menn sárir eðr drepnir, ok hafa þeir eigi boðit manni á lest hans, er eptir stóð, þá hefr hann fyrigjört hverjum peningi fjár síns þeim er hann átti þar í skipinu. Nú fara menn frá skipi með ráði stýrimanns ok háseta, ok kemr ófriðr at þeim, þá hafi þó fè sitt þeir er fjærri váru staddir, ef hinir fá varit, er á skipi váru.

## 10. Ef kasta þarf fyri borð.

Ef menn hitta storma eðr válk eðr þann vanda, at þeir þurfa at lètta skip sitt, þá skal öllum yfirburð fyrst kasta. En ef meira þarf fyri borð at kasta, þá skal því fyrst kasta, er þyngst er ok fèminnst, hverr sem þann varning á, ef því má ná. Ok skulu allir þeir er innan borðs eru gjalda þeim verð fyri er átti, svá mikit sem þeir mættu fyri

[1]) Aðrar hafa: 3.

fá í þeim kaupstað, er þá koma þeir til, svá at allra þeirra skaði verði jafnmikill at jöfnu fè, því at eptir fjármegni skal fè kasta, en eigi eptir mannmergð eðr lestatali En ef þeir koma með heilum búlka til kaupstaðar, ok hafa engu kastat, þá skal yfirburð kasta, at jafnt skulu allir af hafa, jafnt stýrimenn sem aðrir hásetar; nema þeir skulu meiri [1] skipleigu hafa fyri þá lest en fyri aðrar þær er þeim váru vegnar út í skip, svá margar sem þær verða. En þat er yfirburðr, er þar liggr eptir, er hverr hefir vegit sína lest fulla.

## 11. Um sjóválk.

Ef menn hitta í válk eðr þann vanda, at þeir lesta skip sitt svá mjög, at farm þarf af at bera, ok er þó bætanda, þá skulu allir hásetar bíða hálfan mánuð virka daga. En ef nokkrir skiljast fyr við skip, en nú er skilt, fyri utan ráð ok leyfi stýrimanns, þá eru þeir sekir 13 mörkum við konung ok stýrimann, er fyrst rjúfa skipan, en hverr hinna mörk er síðan gengr af at þar til þeir eru svá fámennir eptir at skip er ófært eptir fyri liðleysis sakir. En þeir eru ekki sekir, er síðarr ganga af. En ef skip brýtr í spón, ok eru menn á friðlandi, þá skili menn eigi fyrri við, en reiða er borgit þeim er þá má ná, ok svá skiphræi.

## 12. Um skipbrot.

Hvervetna þar sem menn brjóta skip sitt, ok þykjast eigi sjálfir fá borgit sèr, þá skeri þeir boð

[1]) Aðrar hafa: hálfu meiri.

upp þeim er nærstir búa svá mörgum, sem þeir þykjast þurfa, með eikjum sínum, þeim er því megu við koma. Þeir skulu hafa 6 aura [1] fyri lest hverja, er þeir vinna upp, ok kost til fæðu sèr um fram. Þeir eigu ok at bjarga skipi ok reiða fyri jafnaðarleigu. En hverr er eigi kemr eptir boði forfallalaust, er sekr 6 aurum, hálft konungi, en hálft skipbrotsmönnum.

## 13. Ef maðr leigir af háseta.

Ef maðr leigir eins punds far af háseta, ok byggir hann at lögum, ok sæ meðan hann á eins punds rúm innan borðs, þá á sá þat er leigði. En ef maðr leigir 2 punda far at haseta, ok svá þó fleiri sè, þá á hann slíkt at hafa sem hann keypti at hinum, hvárt sem þat er far hans eðr færing, eðr annat fè þat, er sá á er seldi, sæ meðan sá á til. En ef háseti vill eigi fara þar sem hann tók sèr fari, ok hefr ekki áðr á skip borit, þá skal hann greiða stýrimanni slíka leigu sem hann festi honum, ok færi þangat sem hann hafði far tekit. En ef stýrimaðr rýfr skipan undir háseta, þá svari hann slíku fyri við háseta sem háseti ætti við stýrimann, ef hann hefði slíkt við hann rofit. Nú tekr maðr sèr far, ok ber áhöfn sína á skip, ok ber þær nauðsynjar til, at honum er sýnn fjárskaði í, ef hann fer, þá fái hann stýrimanni annan háseta jafngóðan í stað sinn, ok jafnmikla lest ok leigu, En ef hann fær engan, þá fari hann sjálfr eðr svari slíku fyri, sem fyr segir, nema stýrimaðr lofi honum.

[1]) Aðrar: 7.

## 14. Ef menn berjast í kaupferðum.

Ef menn berjast í kaupferðum, ok sættast þar eptir með stýrimanns ráði ok háseta, þá á hvárrgi at rjúfa þá sætt. En Noregs konungr á sekt þá, sem við liggr, ok sæki sá konungs umboðsmaðr, sem þar hefr lèn, er þeir rjúfa búlka sinn ok bera af skipi. En ef Noregs konungs menn berjast eðr gjöra önnur þau verk, er sekt liggr við, í Danmörku eðr öðrum löndum, ok bæta þeir þeim konungs umboðsmönnum, er þar hafa lèn yfir, þá eru þeir ósekir við Noregs konung, er þeir koma heim, ef þeir hafa til þess tvegga manna vitni, at þeir bættu þar slíkt er þeir brutu, ef þeir hafa við útlenzkan mann átt. En ef Norðmenn berjast sín í milli, bæti Noregs konungi friðbrot, er þeir koma heim, því at á hans þegn var unnit, ok sjái þess meir við sundurþykki síðan sín í milli.

## 15. Hverr höfn kal hafa.

Sá á höfn er ræer, en hinn lægi, er fyrstr kemr landfestum um festarhæl. Ef maðr rænir mann höfn, þá sekist hverr þeirra mörk er á skipi því er, jafnt stýrimenn sem hásetar; þá sekt á hálfa konungr, en hálfa þeir er hafnarrán er veitt, ok skipti at mannmergð. Þat heitir hafnarrán, ef maðr höggur eðr leysir festar manns, eðr bægir þeim úr lægi er áðr lágu fyri. Nú eru margir menn á skipi saman þeir er síðarr koma ok búa eigi allir um eitt lyndi, ok segja sumir svá, at eigi mundi at róit, ef þeir rèði, þá syni með einseiði vilja síns hverr þeirra, ok sè þá saklausir. En ef þeir vilja

eigi gjalda, er hafnarrán veittu, þá sekt er við liggr, sæki sem vítafè, þar sem þeir rjúfa búlka sinn til uppskipanar.

## 16. Um hafnarrán.

Þat heitir hafnarrán, ef menn sigla í atkerislægi í höfn, ok sigla aðrir eptir svá nær, at eigi er skipa hinna sveifrúm. Nú tala þeir um, er fyr komu til hafnar, ok beiða hina í burt leggja, er síðarr komu, svá at skip þeirra hafi sveifrúm, ok eigi liggi skip á strengjum þeirra. Nú vilja þeir eigi í burt leggja, þá er þat hafnarrán. Svá ok ef skip brýtr undir þeim, þá liggr hèr við þetta hafnarrán slíkt sem hit fyrra. En ef þeir brjóta skip undir mönnum, er síðarr koma, hvárt er þeir brjóta í atkerislægi eðr landfestum, eðr gjöra reiðaspjöll, þá skulu þeir bæta sem vert er, ok öfundarbót með eptir lagadómi. Ef maðr höggr skýlihögg á hafskip manns, ok hvatki sem hann meiðir af skipi eðr reiða eðr viðum, bæti spjöll sem vert er, ok öfundarbót með eptir lagadómi. En ef þeir vilja eigi bæta, þá liggr hin sama sök við sem áðr var nefnd.

## 17. Um skipsbát.

Nú skal stýrimaðr báti ráða, ok ef þeir leggja um atkeri, þá skal hann láta flytja háseta til lands eitt sinn um dag ok út aptr, en matsveina 3, eitt sinn at taka vatn, tvisvar at matbúa. Sá skal bát festa, er síðarst gengr úr báti. En bátfesti skal taka fram at bálkabrún, þá er bátr er heimtr at skipi. Nú ef brestr úr borði eðr barði, eðr brestr

röng eðr viðjar slitna, eðr bátfestr, þá ábyrgist stýrimaðr sjálfr bát sinn, ok fái hásetum annan bát, ella ábyrgist allt þat er á skipi er, ef nokkut kann at borði at bresta fyri bátleysis sakir. En ef knútr losnar, gjaldi sá bát, er þann knút knýtti, ef eigi kemr aptr, eðr fá annan bát. En ef hann vill eigi ábyrgjast bát, þá sæki stýrimaðr sem vítafé. En ef nokkurr tekr bát at óvilja stýrimanns, þá lýsi hann rán undir 2 vátta á hendr honum, þá er hann sekr hálfri mörk við stýrimann[1]. En ef hann tekr bát leyfislaust, ok rær í burt svá langt at leita þarf, þá er hann sekr mörk við stýrimann, ok færi jafngóðan aptr bát sem hann tók. En ef nokkurr grandar skipi eðr mönnum fyri bátleysis sakir, meðan bátr er í burtu, þá er hann sekr 13 mörkum, hálft konungi, en hálft stýrimanni, ef í spón brýtr, ok bæti skaða allan eptir því sem menn meta. En ef skip er bætanda, þá láti sá bæta, er báti reri burt, ok gjaldi 5 merkr, hálft konungi, en hálft stýrimanni. En fyri mann hvern er týnist fyri bátleysis sakir, gjaldi sá er báti reri í burt slíkt þegngildi ok slíkar bætr, sem konungs umboðsmaðr leggr til með beztu manna ráði.

## 18. Ef menn sigla á aðra fyri nauðsyn.

Ef menn sigla með landi fram í samfloti, þá skulu þeir vægja er ytra sigla, svá at eigi bægi hinum at landi er nær sigla. Ef menn beita þrá-

---

[1]) Aðrar bæta við: ok færi jafngóðan bát aptr.

beiting, ok sigla hinir á veðr þeim, ok bægja þeim at bergi eðr boða, eðr nesi, ok lestist skip þeirra fyri þá sök, eðr brýtr í spón, bæti hann spjöll, er hinum bægði af leið at landi, eptir því sem 6 skynsamir menn meta, ok öfundarbót með eptir lagadómi. En ef menn beita þrábeiting, ok ber þá at boðum, er á hlè sigla, ok vilja þeir heldr á þá sigla en í boða brjóta. Nú ef skip þeirra brotnar, eðr reiði slitnar, er á veðr sigldu, ok eigi vildu vægja, þá koma þar engar bætr fyri, því at hinum var ærin nauðsyn til. Nú sigla menn til mjórra sunda, með miklu samfloti, þá skulu þeir sigling minnka, er skarr sigla, þar hverr sem staddr er, svá at engum verði farartálmi at. Minnka skal sigling með hálsan ok heflaskurð. Heldr skal niðr leggja en á aðra sigla

## 19. Ef menn sigla eðr róa á aðra nauðsynjalaust.

Ef menn sigla á aðra nauðsynjalaust, hvárt sem þeir sigla til hafna, eðr með hafi, eðr með landi, ok gjöra þar mönnum spillvirki, í hverju sem þat verðr, þá bæti sem 6 skynsamir menn meta, nema menn rói fyri borð þeim. Ef maðr siglir upp á mann, ok brýtr skip hans, svá at eigi er bætanda, bæti skip sem menn meta, ok svá farm allan þann sem á er, ok öfundarbót með eptir lagadómi, hverjum sem skaði var gjörr ok á var, ef hann braut at vild sinni. En ef váðaverk verðr, þá sanni með eineiði, ok falli þá niðr öfundarbót. Engi maðr skal á annan róa heldr en sigla, eðr þat gjöra sem

öðrum er skaði at, en ef hann rær, þá liggr hin sama sekt við ok áðr var sögð.

## 20. Um samflot.

Nú leggr maðr úr lægi, ok fer erinda sinna, ok lætr bryggju eptir liggja, þá á sá lægi, þegar hann kemr til, er bryggju lèt eptir liggja. Ef menn leggja samflot sitt saman at farmanna lögum rèttum, þá skal engi frá öðrum sigla lengra en sjá megi ás af borði. En ef þeir sigla lengra, gjaldi mörk þeim er frá var siglt, jafnt stýrimaðr sem hásetar. En þær eru nauðsynjar, er skipsháski liggr við, fjörs eðr fjár. En ef þessar nauðsynjar liggja við, þá má sektalaust frá sigla, ef hinir vilja þat sverja er í samfloti váru með þeim aðrir. En ef engir eru aðrir til, þá sanni sjálfir sögu sína með sèttareiði. En ef eiðr fellr, gjaldi sem fyr segir.

## 21, Ef menn draga upp atkeri.

Ef menn draga upp atkeri með sínu atkeri ok fylgir hvárki strengr nè hnakkmiði, þá á stýrimaðr hálft, en háseti hálft, nema nokkurr maðr kenni sèr, ok kalli til tveggja manna vitnisburð, ok leysi út af þeim er fundu með hálfvirði, þá er vitna er notit. Lýsa skal fundi hverjum samdægris fyri váttum, ef menn liggja þar sem byggt er. En ef eigi er svá lýst, þá má sá þjófssök á gefa er á. Ef ef maðr dregr upp atkeri með sókn, eðr kafar til, ok kemr reipi í hring, þá leysi af honum með hálfvirði. En ef eigandi kemr eigi til eðr hans umboðsmaðr, þá eiga þeir atkeri er upp drógu.

## 22. Um samfèlag.

Nú leggja menn fèlag sitt saman, þá skulu þat váttar vita, þat fèlag má við engan auka sektalaust, nema hinn lofi. En ef hann eykr, þá skal sá, er fyrri lagði fèlag, taka mörk silfrs í Noregi af óskiptu, en hundrað á Íslandi. En eigi skal hann fara lengra nauðsynjalaust en skilt var, nema hann vill ábyrgjast við hann hvern pening, ok eigi skal hann höggva í burtu þat fèlag nè ljósta, ok eigi legorðssakir af gjalda, ok engar aðrar óskuldir eðr ofneyzlur, nema beggja sè vill til. En ef þeir skipta fè sínu ok fèlagi, þá leggi hann fram slíkt fè er hann vill, ok mæli svá: hèr er nú allr ávöxtr ok innstæða, er vit eigum báðir saman, ok sveri síðan eineiði at, ok slíkan klæðnað skal hann hafa þá, er þeir skipta fèlagi sínu, sem þá hafði hann, er þeir lögðu saman, ok eigi verra. Nú leggja menn hjáfèlag, þá skal sá er við tekr klæðast ok fæðast af sínu fè; en eigi af hins fè taka, er hjáfèlag lagði við hann, nema skipleigu, ok uppburð ok útburð fyri þat er í fèlag var lagt, þat skal hann ábyrgjast sem sitt fè. En hálfan ávöxt skal hverr þeirra hafa, en sá innstæðueyri sinn fyrst af, er hjáfèlag lagði. Nú skilja þeir sem þeir verða ásáttir, hvert hann skal með fara, en ef hann flytr þat eðr færir á annan veg, þá ábyrgist hann þat fè at öllu. En ef hann hittir í harða kaupstefnu, ok fær eigi svá dýrt selt sem virt er í hendr honum, þá skal hann heim fara, ok færa þeim fè sitt er á. En ef hann selr ódýrra, þá skal þat þess skaði er með fer, en eigi þess er fè á.

## 23. Ef annarr fèlagsmaðr deyr eðr sýkist.

Nú leggja menn fèlag sitt saman ok verja úr einum sjóð, ok bera föt sín á skip ok fara þangat sem þeir tóku fari. Nú leggst annarr sjúkr ok gjörist hættr við dauða, þá skal fèlagi hans ganga til stýrimanns ok háseta, ok biðja þá ganga til hins sjúka manns, þá skal hann segja til fjár síns ok til fèlags þeirra. Nú ef hann andast síðan, þá skulu þeir vera vitnismenn, er þá váru þar við staddir, ef nokkurr verðr fortryggð þar á, ok skal fè virða þegar á land kemr, ok skal sá virt taka, er við tekr, ok færa framleiðis sèr til ávaxtar, ef hann flytr innstæðueyri til arfa rètts eðr hans umboðsmanns. Nú kemr hann eigi þeim váttum at sèr, er fè virtu, þá auki hann vitni sín með þeim mönnum, er þangat fara, sem arfi sitr fyri. Nú andast fèlagi hans síðan búlki var bundinn, ok áðr þeir sèu á ferð komnir, þá skal hann setja mann á lest hans þann er upp haldi róðri ok austri, tjaldan ok öllum kostnaði af fè hins dauða. En ekki á hann fleira af at hafa, nema erfingi lofi honum.

## 24. Um varðhald á skipum.

Nú ef þeir eru á leið komnir, ok þurfa þeir varðhalds við ok varygðar, eigi síður um daga en um nætr, þá skulu þeir bergvörð halda ok hefja í stafni fram, ok fara aptr eptir skipi á stjórnborða, ok fara fram eptir skipi á bakborða. Hafnaraustr skal hefja aptr á búlkabrún á bakborða, ok fara fram

eptir skipi, ok fara svá aptr á stjórnborða. Siglingaraustr ok rávörðr á at hefjast hjá siglu á bakborða ok fara fram eptir skipi, ok svá aptr á stjórnborða. Þau embætti eru nú töld í farmanna lögum, er vera eigu á hverju löglöngu skipi. En þat er löglangt, er sessum má telja eðr áhöfnum skipa.

## 25. Ef fleiri menn eiga skip saman.

Ef menn eiga hafskip saman, og vilja sumir fara, en sumir eigi, þá skal sá er fara vill stefna þeim öllum til skips er móti eigu, svá löngu fyri at um lið megi sýsla, ok fara svá at þessu skipti sem segir í jarðaskiptum, ok um aðra gripi ferí kaupabálki. En ef þeir menn eigu hafskip saman, er hverrgi hefr kost til at kaupa, ok vilja eigi aðrir kaupa, haldi sá til gagns er vill, ok greiði þeim sinn hluta skipleigu, er til móts eigu við hann, ok taki af honum þat er hann þurfti til kostnaðar at hafa á hans hluta. Svá skal ok fara, ef menn eigu minni skip saman en hafskip, ok vill annarr halda til fiskjar eðr fengjar skipinu, en annarr vill eigi, þá skal svá um þat skip fara sem fyr segir um hafskip. Hvervetna þar sem menn skulu með mönnum einhverjum grip skipta eðr virða, þar sem þeir eru at lögum til kvaddir, þá skulu þeir jafnan til skipta koma, fyri miðjan dag, eðr virðingar, ella sekr tveim aurum, hálft konungi, en hálft þeim, er virðingar kvaddi lögliga, nema nauðsyn banni. En um skipreiða allan ok vatnskeröld, er þeir áttu báðir saman með skipinu, þá skulu skynsamir menn

meta, ok skal þat allt skipi fylgja. Nú vill hvárrtveggi halda skipinu til fiskjar eða fengjar á sinn veg hvárr, þá skal svá at fara sá er eigi vill skipta [1] um skipit við annan, sem áðr váttar, fyri utan þat, at þá skulu skynsamir menn hluta, hvárr þeirra hafa skal skip eðr verð, ef þeir verða eigi sjálfir ásáttir. Ok ef annarr heldr skipinu til fiskjar eðr fengjar, svá at annarr veit eigi, eðr er eigi at spurðr, þá ábyrgist sá skip er hefr, eðr hafa lætr, en hinn hafi þó fullan hlut af sínum hluta skipsins, er engu rèð fyri, eðr leigu slíka sem 6 skynsamir menn meta, ef skipit er undir farma lagt. En ef beggja þeirra ráð váru til í fyrstu, þá ábyrgist hvárr at þeim hluta skipit, sem hlut hefr af því tekit. En af eigi gelzt þeim verð fyri skipit, er hafa á, þá sæki sem vítafè. En ef menn eigu vatnsbáta saman, eðr þau skip, at svá eru vánd, at eigi eru sjófær til fiskjar at halda, ok vilja þeir þó skilja eign með sèr, þá skal svá at þessu skipti fara at öllu, sem fyr segir um meira skip. Ef maðr setr fram hafskip manns, ok þó annarr maðr eigi með honum, at óvilja þess er á með honum skipit, ok svá ef hann fer í burt með, svá ok ef maðr höggr skýlihögg á annars manns skip, ok hvat er hann meiðir á skipinu, reiða þess eðr viðum, svari slíku fyri, sem 6 skynsamir menn dæma, lögliga til nefndir. Ok hvervetna þar sem maðr gjörir öðrum manni fjárskaða, með heipt ok öfund, bæti sá fullrètti eptir dómi er gjörir, ok fjárskaða með, ef vitni eru til. Þat er allt full-

[1]) Aðrar: skilja. [2]) Aðrar hafa: smá eðr vánd.

rèttis skaði, er menn meta til hálfrar merkr, en ef minni er, þá er öfundarbót með eptir dómi, þeim er skaðinn var gjör. Rèttari skal jafnan nefna menn til dóms, ef lögmaðr er eigi nær. Nú dylr hinn, en eigi eru vitni til, syni með lýrittareiði hinum meira[1] fyri fullrèttis skaða, en ef eiðr fellr, gjaldi slíkt sem áðr var talt. En ef ver tekst en hann vill, gjaldi skaða sektalaust innan 7 nátta þeim er fè átti.

## 26. Um farargreiða skipmanna.

Nú ferja menn farma fyri landi fram eðr úr úteyjum. En þat er farmr, er skip er hálfhlaðit eðr meir. Þá eru þeim allar hafnir jafnheimilar, ef þeir eru eigi meir en 3 nætr í sömu höfn at veðri færu. Nú eru þeir lengr, ok eigi veðrfastir þá bæti landnám landsdrottni. Rètt er at þeir sèu í sömu höfn meðan þeir þurfa at þurrka eðr selja varning sinn eðr feng, eðr færa á land góz sitt til hirzlu. Nú brýtr maðr skip sitt, þá er hann fer með landi fram, árar eðr annan trèreiða, þá taki sèr við af annars reka, svá at hann sè byrgr, ok leggi verð eptir með vitnum eptir skynsamra manna virðingu, ef til eru, at þess bónda, er næstr býr reka þeim, er viðr var á.

## 27. Um ábyrgð á skipum fyri stormi.

Ef maðr dregr upp skip sitt, þar er hann á eigi uppsát, ok hefr skip upp, ok lystir við annars skip, þá á sá at ábyrgjast bæði, er upp dró, þar er hann

[1]) Aðrar sleppa: hinum meira.

átti eigi uppsát. Nú hefr þess skip upp, er uppsát átti, ok lýstr því við þess skip, er eigi átti uppsát, ok brýtr, þá ábyrgist hverr sitt skip. Nú eigu þeir báðir uppsát, eðr hvárrgi þeirra, þá ábyrgist sá bæði skipin, ef annat lestist af öðru, er þat festi er upp tók. En ef bæði hefr senn upp, ok lýstr á lopti saman, þá ábyrgist hverr sitt skip. Nú dregr maðr við upp þar í hjá sem skip standa, þá skal maðr svá festa viðinn, at eigi taki veðr upp. En ef veðr tekr við upp, ok meiðir skip eðr reiða, þá ábyrgist sá skip, er víðinn átti at festa. Ef maðr ber fè sitt eðr feng á land, ok hefr þat upp veðr, ok brýtr skip manna, þá ábyrgist sá skip, er þar bar upp, er spjöll varð at. Nú dregr maðr föng sín á annars land, þar sem eigi standa skip fyri, ok eigi veit hann ván til skipa uppsátra, ok draga menn þar upp skip síðan, þá ábyrgist hann þat eigi, þó at viðr hans eðr föng brjóti skip. Ef við manns eðr feng hefr upp fyri veðrs sökum, ok kastar á annars manns við eðr feng, eðr hús, svá at þar meiðist af, þá ábyrgist sá þat er at sköðum verðr, er við eðr feng átti at festa, ok skal þat svá fara sem um skip skilr. Nú fara menn með landi fram eðr með eyjum, ok setja upp skip sitt í tópt eðr naust, ok kemr sá til síðan, er á, með skip sitt, ok vill þar upp draga, þá skulu þeir út draga, er eigi áttu uppsát. Nú vilja þeir eigi út draga, þá bæti fullu landnámi þeim er uppsát á, slíku sem hann er maðr til, ok ábyrgist sjálfir skip sitt at öllu, þó at hann dragi út. Rètt er honum at festa skip sitt með torfi ok grjóti,

ok vinni þat á landi hins þar hvárki spillí akri nè eng, ok inni þeim fyri skaða sinn er jörð á. (R. B. E. K. Eigi viljum vèr at mikil skreið flytist hèðan af landinu meðan hallæri er.

# Hér hefr hinn níunda hlut lögbókar, er kallast þjófabálkr.

**1. kap.** Þat er nú því næst, at várr skal engi annan stela. Nú er þat greinandi, at ef sá maðr stelr mat [1], er eigi fær sèr vinnu til fóstrs, ok hjálpar svá lífi sínu fyrir hungrs sakir, þá er sá stuldr fyri engan mun refsingarverðr. En ef maðr stelr hundi manns eðr ketti, kníf eðr belti, ok öllu því er minna er vert en til eyris, þat er hvinnska, ok ef maðr verðr sannr að því, gjaldi konungi 2 aura, en þeim eyri er átti, ok heiti maðr at verri. En ef maðr stelr til eyris, er sèr fær vinnu til fóstrs, sá er áðr var eigi at slíku kenndr, þá skal hann á þing færa, ok leysi húð sína þrem mörkum við konung. Nú stelr hann annat sinn til eyris, leysi hann húð sína 6 mörkum, en ef hann leysir eigi, láti húðina, ok sè brugðit [2] lykli á kinn honum. Nú stelr hann í þriðja sinn til eyris, láti húð sína, en konungr taki 13 merkr [3] af fè hans. En ef sá maðr hinn sami stelr aptr, þá er hann dræpr. En ef sá maðr stelr til merkr, er ekki var at þýfsku

[1]) Aðrar bæta við: til eyris [2]) Aðrar bæta við: heitum
[3]) Aðrar: 6 merkr.

kenndr, þá skal hann á þing færa, ok leysi sik 13 mörkum við konung, eðr fari útlægr sem þingmenn dæma. En ef hann stelr optar þá er hann dræpr. Nú ef þjófr stelr til 2 marka í fyrsta bragði, þá hefr hann fyristolit lausafè sínu öllu. En ef hann á í jörðu, þá virði úr til 13 marka, ok hafi at auk slíka refsing, sem sá maðr leggr á hann, eptir dómi, er konungsvald hefr í hendi til rèttra refsinga, ok haldi þó lífinu. En ef sá hinn sami stelr optar, þá hefr hann fyristolit landi ok lausum eyri, ok lífinu með. Jafnsekr er sá maðr, sem tekr við fè þjófstolnu vísvitandi, at gjöf, kaupi eðr láni, hefr hann þat ok hirðir, ok leggr laun á sem hinn er stal, utan eigi verðr hann dræpr fyri. Sá heitir þjófsnautr. En hálfu minna er sá sekr, sem ræðr þjóf ráðum, nema hann vísi ómaga sínum yngri en 16 vetra til at stela, þá svari fullri sekt sem hann hafi sjálfr stolit. (R. B. H. K. Skylt er at vándum mönnum sè refst þar sem þeir verða teknir, ef þar er áðr lögligt próf á komit. Ella færist þeir í hendr sýslumanni þar sem þeir verða teknir, ok sendi þá hverr sýslumaðr frá sèr til annars með góðri geymslu ok sinni ábyrgð, þar til er hann kemr til þess sýslumanns er misgjört var at).

## 2. Hversu þjóf skal refsa.

Nú er þjófr fundinn, þá skal binda fóla á bak honum í þeim hrepp sem þjófr er tekinn, ok færa hann umboðsmanni bundinn, ok haldi konungs umboðsmaðr honum til þings, ok af þingi í fjöru eðr hraun eðr nokkurn þann stað sem hentast þykir. En um-

boðsmaðr fái mann til at drepa hann, ok svá alla þjófa. En bændr eru skyldir at fylgja þjófi til dráps, þá er af þeirra ábyrgð. En ef þeir vilja eigi fylgja þjófi til dráps, þá er hverr þeirra sekr hálfri mörk við konung. En sá er eigi vill þjóf á þingi dæma, lögliga til kvaddr, er sekr hálfri mörk við konung, þó at sýslumaðr vili eigi refsing á leggja. Fè þat allt, er tekit verðr af þjófi, þá á sá þat er þjóf tók, ef eigi berst öðrum vitni til. En alla aðra lausa aura á konungr. Sá ábyrgist þjóf, er hann bindr, 4 mörkum við konung þar til er hann setr hann bundinn á flet konungs umboðsmanns, ok hafi vitni við. En ef þjófr vill verjast, þá fellr hann útlægr. Ef maðr lætr þjóf lausan, þá sekist hann 4 mörkum við konung, svá umboðsmaðr sem annarr maðr. En ef einn maðr tekr þjóf, þá liggr honum ekki við þó at hann verði laus. Eigi er maðr skyldr at taka þjóf, nema hann standi hann með þýfi því, er binda megi fóla á bak honum, eðr granni hans kveði hann til, sá er hann veit at stolit er frá. Þar skal hvern þjóf dæma sem hann stal, ef eigi fær áðr lögligu prófi á komit þar sem hann er tekinn.

## 3. Um ránsmenn.

Nú eru ránsmenn óbótamenn, hvar sem þeir verða teknir, ok svá hverr sem þeim veitir lið til þess, eptir því sem segir í óbótamálum í mannhelgi. Ef maðr rænir mann þjófi eðr útlægum manni, svari landráðasök við konung. En hverr annarr, er í gengr óhæfu, ok at er með honum, er sekr mörk

við konung. Nú kennir maðr fè sitt þjófstolit í hendi öðrum manni, ok tekr við fè sínu, ok skilr svá fyri, at hann drepr hverrgi konungs rètti niðr, ok hefr þar vátta við, þá er hinn sannr at sök, en sá ósekr er við tekr fè sínu. Ef maðr leynir þjófi, ok tekr við fè sínu þjófstolnu af honum, þá er hann sekr 4 mörkum við konung. Nú mælir þat sýslumaðr eðr lendr maðr, at þeir hafi sætt gjörva, sá er stal ok hinn er stolit var frá, ok hafi drepit niðr konungs rètti, þá skal sá er stolinn var synja með lýrittareiði, fellr til 4 marka ef fellr, en hinn er þjófr sem áðr.

## 4. Hversu þjófstolit fè skal aptr sækja.

Nú stendr maðr fè sitt þjófstolit í hendi öðrum manni, en sá vænist heimild at, ok kallar kaup sitt, þá skal beiða hann vörzlumanns fyri hann, ok svá fyri fè þat, er hann kallar sèr, ok gjöra eindaga til. Þá skal hann færa fram vitni sín, at þat er hans fè, ok eigi gaf hann þat nè galt, ok eigi sölum seldi, ok engi sá er hann bauð um, þá er honum fèt uppnæmt. Þá skal hann gjöra hvárt er hann vill, at fara burt með fè sitt, eðr reyni heimildartöku hins, en ef hún brestr honum, þá er hann þjófr at. Hvervetna þar sem maðr hefr heimild til þess gripar, er tekinn er frá manni eðr stolinn, ok huggði hann sèr heimilan mundi vera, þó at hann fregni annat síðarr, ok er honum rètt at halda til þings eðr lögmanns úrskurðar, eðr annars rètts rannsaks. En ef hann lætr grip fyrri

lausan, en dómr dæmir af honum, þá á hann enga heimting til þess er hann gaf við. En þá hefr hann heimild til, ef sá heimilar honum, er hann á aura sinna forráð, ok hann hugði at sá mætti honum heimilan fá þann grip, en eigi elligar. Nú riptir maðr grip undan manni, þann er hann hefr heimildartöku fyri sèr, þá sæki hverr sitt af sínum heimildarmanni, þar til er til prófs kemr, ok svari sá fyri stuld, sem fyri á at svara at lögum.

## 5. Hvern veg maðr skal undan stuldi færast.

Nú kennir maðr öðrum manni stuld, þá skal hann gjöra hvárt er hann vill, at stefna honum heim ok þaðan til þings, eðr lýsa þýfi hans á þingi. Þá eigu þingmenn at gjöra honum stefnu til næsta þings, ef hann er innan hèraðs. En ef hann er utan hèraðs, þá skal gjöra honum lagastefnu aptr til þinga um hvert mál, ok eindaga þat þing, ok ef hann kemr eigi, þá ber hann á baki sök, nema nauðsynja vitni berist honum. Nú kemr hann sjálfr, þá skal hann eið festa; fellr til sektar[1], ef fellr, eptir því sem áðr segir eptir fjármagni.

## 6. Um rannsókn eptir stolnu fè.

Ef maðr er stolinn fè sínu, ok sèr hann mannafarveg liggja frá, þá skal hann ganga eptir hèraðsmönnum sínum, ok lýsi torreki sínu, ok sæta sèr liðs til eptirfarar, svá mikils sem honum líkar, ok spyrja til garðs bónda. Þá skulu þeir setjast

[1]) Aðrar bæta við: fullrar.

utan garðs eðr túnvallar, ef eigi er garðr um, ok gjöra einn mann til húss, ok segja til erindis, ok sezta rannsaks. Nú býðr bóndi rannsókn, þá skal hinn ganga eptir grönnum sínum, þá eiga þeir at ganga í ullskyrtum einum, ok lausgirðir inn. En ef bóndi býðr rannsókn, ok finnst eigi fóli at hans, synì hann sèttareiði, ef þeir vilja honum kennt hafa. En ef eiðr fellr, falli til 4 marka. Bóndi skal fá þeim lýsi sem þeir þurfa meðan þeir rannsaka. Þeir menn sem eigi vilja láta lykla til at lúka upp hirzlum sínum, þá eru lok þeirra óheilög við broti. Skulu hinir sömu menn rannsaka í öllum stöðum bæði úti ok inni, ok gjöra þeim eigi skaða í rannsókn er fyri búa. En stanga skulu þeir jörð ok grafa í öllum stöðum, ok leita þar sem þeir vilja. Ok ef þeir finna fè sitt í þeim húsum sem menn eru í, þá er fóli inni fundinn. Svá ok ef þýfi finnst í þeim gröfum sem úti eru, ok er innan til grafit, eðr finnst í úthýsum eðr útifylsnum öðrum, þeim er lykkjuspor liggja til, ok frá húsum þeim er menn eru í. En ef menn finna í gegndyrum eðr vindaugum, svá at kasta má inn, þá hafi sá fyri sèr sèttareið, sem fyr segir. En ef þeir menn er rannsaka, bera þá ofríki, er fyri eru, eðr fara með ólögum at rannsókn, eðr annan veg en nú var mælt, ok verðr bóndi ósannr at sök, svari höfðingi honum fullrètti eptir lagadómi, en konungi 4 merkr, en engu, ef hann verðr sannr at. En ef sá einhverr er rannsakar, eðr einhverr annarr maðr ber eðr bera lætr fóla í hús manns eðr hirzlur, svari fullrètti eptir lagadómi, þeim er hús eðr hirzlur

átti, en konungi slíku sem sá ætti at svara, ef hann hefði stolit jafnmiklu.

## 7. Um handrán ok fornæmi.

Ef maðr finnr fè sitt þjófstolit, ok fylgir eigi þjófr, þá skal hann hafa við návistarmenn sína, er hann tekr fè sitt. En ef sýslumaðr mistrúir, ok segir at þjófr hefr fylgt, þá láti hann bera vitni um, at þar var eigi þjófr við, er hann tók fè sitt. Taka má maðr fè sitt eðr grip sinn at heimilu, hvar sem hann finnr, ef eigi er á haldit. Ef maðr rænir mann handráni, eðr gjörir fornæmi, bæti þeim er ræntr var slíkum rètti sem 6 skynsamir menn dæma, lögliga til nefndir af rèttaranum. En þat er handrán, er maðr tekr eðr slítr úr höndum manni eðr af honum, hvar sem á honum er. Þat heitir fornæmi, er maðr heldr eigi á, ok þykist eiga, en hinn tekr svá í burt, at hann sèr á. Eigi á maðr sitt at taka, ef á er haldit, fyrri en vitni eru til borin. En ef hann tekr, bæti öfundarbót eptir lögligum dómi.

## 8. Um undanfærslu stuldar.

Nú kennir maðr manni stuld, en öðrum viðtöku, at hann hafi tekit við fè hans þjófstolnu, en sá kveðr nei við; þá skal hann synja með sèttareiði, en sá eiðr fellr til slíkrar sektar sem fyr segir eptir fjármagni, ef hann vissi at þjófstolit var. Ef maðr sækir annan mann um stuld, ok er eigi lýst þýfð eptir, þá skal sá er fyri sök verðr synja með sèttareiði. Sá eiðr fellr til 4 marka. En ef ómagi

stelr 16 vetrum yngri, þá skal bæta aptr verk hans fullu, eigi á konungr á því. (R. B. E. K. Ef maðr er stolinn fè sínu, þá á sá er stolinn er full gjöld fjár síns af fè hins seka, ok kostnað þann allan sem hann þarf til eptirfarar, ok rètt sinn eptir lagadómi sem hann sè lögræntr jafnmiklu.

## 9. Um stuld fugla ok sela.

Ef maðr tekr hauk bundinn í hreiðri, ok leynir, þá er hann þjófr at, ef hinn lýsir þýfð er átti. En ef maðr stelr sel af jörðu manns, þá er hann þjófr at, ef svá mikill er, at þjófssök nemr, ella synì með sèttareiði, fellr til 4 marka, ef fellr. Svá hit sama fyri hauk. Konungr á sekt á því.

## 10. Ef maðr selr jörð konungs.

Ef maðr selr jörð konungs at óleyfi hans, þá er hann þjófr; ok svá sá er kaupir, ef hann veit þat, ella synì með sèttareiði, fellr til 4 marka ef fellr. Nú tekr maðr marksteina upp úr jörðu, ok setr niðr í öðrum stað, ok færir á þess hlut, er í móti honum á, þá er hann sekr aleigu við konung fyri utan jarðir, nema lausafè hans vinnist eigi svá, at konungr hafi 13 merkr, þá virðist í jörð ef hann á. Ok svá skal hvervetna þar sem 13 marka mál eru. En 6 aurum er maðr sekr, ef hann tekr upp markstein, ok setr hvergi niðr. Ef maðr leggst undir fènað manna, ok drekkr, sá maðr á engan rètt á sèr. (R. B. E. K. Ef maðr mjólkar búfè annars manns stelandi hendi, bæti sem fyri stuld, sá er fè hefr til, ella láti húð sína eptir lagadómi,

ok refsing rèttarans, nema soltinn sè, þá gjaldi þó nytfall, sem vert er, þeim er bú á).

## 11. Um stuld á aldini ok ávexti.

Ef maðr gengr í eplagarð manns eðr hvannagarð eðr næpnareit, ok allt þat aldin, er menn hirða ok hegna með görðum ok gæzlum, þó at vötn falli um, ok vill sá eigi lofa er á, tvígildi þeim skaða er átti, ok 2 aura í þokkabót. En ef maðr tekr til eyris eðr meira, sæki sem um annan stuld. En ef þeir menn gjöra þetta, er eigi hafa fè til at bæta fyri, færi til þings, ok sveri þar fyri eptir lagadómi.

## 12. Hvernig áfóðr skal taka.

(R. B. E. K. Nú fer maðr at veg með hrossi, ok þó at þeir sè 3 saman, ok stendr hey nærri götu, en bær eigi allnær, þá taki þeir at ósekju þat sem hross þeirra þurfa til áfóðrs, ef nauðsyn gengr til). En ef maðr kemr um nátt til bæjar með eiki sína, ok er honum synjat fóðrs at gjöf eðr kaupi, hafi at ósekju vöndul fyri hvert hross fyri engan pening, ef nauðsyn gengr til

## 13. Um misfanga.

Nú verðr manni misfangi, þá sekist hann eigi fyri þat, ef hann lýsir fyrir mönnum samdægris síðan hann verðr var við, ella verðr hann þjófr at, ef svá mikill munr er gripa, at þjófssök nemr. En þat er misfangi, ef maðr tekr þat er annarr á, ok lætr sinn grip eptir liggja, ok sè þeir svá lík-

ir at skynsömum mönnum sè ljóst, at hann þóttist sinn grip burt hafa, ok skal hann aptr hafa fært gripinn innan 7 nátta, síðan hann verðr var við, til þess staðar sem hann tók, nema nauðsyn banni, ella er hann sekr hálfri mörk við konung, ok hinum fyri skaða sinn, er átti þat fè, en eigi er þat misfangi, ef markat er annat frá öðru. Þat er misfangi, ef maðr tekr þess kyns grip í burt, sem hann lætr eptir í vápnum, klæðum eðr hrossum, þess kyns sem hann átti, ok svá at lit. Eigi er þat misfangi, ef maðr tekr þar hest sem hann á hross, eðr berfè þar sem hann á graðsmala, ok svá um aðra gripi. Þá skal maðr þess kyns fè í burt taka, sem hann á ván, ok með þeim lit. Nú kemr maðr síðarr, ok sèr at annarr gripr liggr eptir, sá er annarr á, lýsi fyri mönnum samdægris, ok hafi at ósekju þar til er hans gripr kemr aptr. Ef maðr tekr grip manns at misfangi á Öxarárþingi, á fjöllum eðr óbyggðum, ok finnr eigi fyrri en hann kemr heim í hèrað, þá sekist hann eigi á meðför þess gripar, ef hann hefr til Öxarárþings annat sumar, hit næsta, en hverr ábyrgist þat er með fer. Ef manni verðr misfangi í þingför, eða á Öxarárþingi, þá er þeim rètt, er þess gripar saknar eðr hross, at bíða til þess, er menn eru í burtu, ok hafi þaðan þat hross, eðr annan grip, er þá verðr eptir, ef þat er svá líkt hans hrossi, at hann ætlar at honum sè þat at misfanga orðit, ok lýsi sem fyr segir. Nú hvar sem misfangi verðr í þeim stöðum, er maðr á heimilt til þings at færa, þá hafi hann með sèr 3 sumur til þings, nema fyr verði

rèttr eigandi at, ok lýsi í lögrèttu. En ef þá kannast engi við, þá eignist hann, nema síðarr verði rèttr eigandi at með lögligum vitnum.

## 14. Ef maðr finnr fjárhlut.

Ef maðr finnr fjárhlut manns, ok hefr eigandi glatað, þá skal hann lýsa fyri mönnum samdægris, ella verðr hann þjófr, ef hann lýsir eigi, ef fè er svá mikit at þjófssök nemr. Maðr skal í ljósi hafa fè, ok nýta sèr, ok þó at eigandi komi þá, eptir er slitit er, þá bæti hinn engu. En sá maðr, er til kallar, skal til hafa 2 skilrík vitni, at þat er hans fè, ef hann skal óræntr vera, ok sverì at fullan eið, þá lætr hann at lögum laust, ella á hann. Nú fara menn at götu saman, ok finnr sá fund, er fyrstr fer, þá eiga þeir allir saman þat, ok þeir er eptir fara. Eigi eiga þeir í, er um fram ganga. Ef menn fara á skipi saman, ok finna þann hlut, er fjár er verðr, þá skulu þeir skipta at jafnaði sín í milli. Ef maðr finnr fè í jörðu manns, hafi sá þriðjung, er finnr, en landeigandi tvá hluti, en allt ef hinn heldr ekki upp at lögum. Nú finnr maðr fè í jörðu í almenningi, hafi sá þriðjung, er finnr, en þeir tvá hluti, er þann almenning eiga. Nú brýtr maðr haug, eðr grefr jörð manns, at óleyfi þess er á, til fjár, færi þeim er jörð á slíkt er hann fann, leggi á landnám, ok jarðspjöll þeim er jörð á. En ef sá mistrúir, er jörð á, at hinn hafi hánum svá mikit fè fært, sem hann fann, þá synì hann með sèttareiði. Sá eiðr fellr til 4 marka[1].

[1]) Aðrar: 3 marka.

## 15. Um geymslufé.

Ef maðr selr fè sitt til hirzlu af trúnaði öðrum manni, þá skal sá er við tekr, hirða ok varðveita sem sitt fè, þat sem hann vill vel varðveita. Ok ef þat fè hverfr eðr glatast, þá má sá, er þat fè á, koma þeim til lýrittareiðs, er við fè tók, utan sá segi þat þá, er hann við fè tók, at hann vili at engu ábyrgjast, ok eru til þess löglig vitni. Svá ok ef þat fè hverfr úr einni hirzlu, ok hans fè sjálfs. En ef eiðr fellr þar, sem skildr er um þetta mál, fellr til 4 marka[1].

## 16. Ef maðr lèr manni grip.

Ef maðr lèr manni grip sinn, þá á hverr láni heilu heim at koma, eðr gjaldi verð eiganda, sem 6 skynsamir menn meta, nema hinn týnist með láninu, er lèð var, þá má hann eigi lán ábyrgjast, er hann mátti eigi líf sjálfs síns. Eigi er erfingi skyldr fyri þat lán at gjalda. Heimilt verðr skip, hross, eðr annarr gripr þeim er lèð er, ok öllum þeim er hann vill í þeirri ferð, ef hann hefr eigi lengr eðr víðara en honum var lèð. En engum skal hann ljá, ef hinn hefr þat frá skilt, er lèði. Engi maðr skal lán hafa lengr en lèð er, ella gjaldi 2 aura þeim sem fyr segir, nema sá krefi er átti, þá sekist hinn fornæmi, nema nauðsyn banni. Nú þó at maðr fari með eik annars manns, at leigu eðr láni, þá skal sá ábyrgjast, er hest á, þó at hann gjöri nokkrum manni skaða, ef eigi er af þess völdum eðr vangeymslu, er með fer. Ef maðr

[1]) Aðrar: 3 marka.

tekr grip manns óléðan, hest eðr skip, hvárt sem þat er meira skip eðr minna, eiki, eðr aðra hluti þvílíka, bæti skaða þann allan, er hinn hefr af eptir 6 manna dómi lögliga til nèfndum, ok rètt eðr öfundarbót með, þeim er tekit var fyri, eptir atvikum, hver nauðsyn til bar þann er tók, ok hver öfund í var gjör, eðr hverr skaði þeim varð at, er tekit var fyri. Jafnan rètt ok öfundarbót skal hverr maðr hafa á fènaði sínum eðr öðrum hlutum, er tekit er fyri eðr misþyrmt, hvat manna sem hann er at nafnbótum, utan landnám fari eptir því sem fyr segir, ok þeir rèttar, sem til mannhelgi heyra. Handrán ok kvennalegorð þat dæmist eptir því sem sá er maðr til, er þetta er misgjört við. Ekki á konungr á þessum fjártökum nema hálfa mörk fyri handrán. Ef maðr tekr skip manns, þá skal hann einni sök fyri svara sik ok ómaga sína. En ef fleiri menn eru í einni för, þar sem óskil verða gjör um hrossareiðir eðr hrossa eptirrásir, þá sekist þeir einir, er óskil gjöra, en ekki þeir er skil vilja gjöra. Ef maðr tekr eik manns, ok er eigi öðrum um varðveizlu boðit, svá at hann viti, færi þeim er á, ok fer svá með sem hann ætti, þá sekist hann eigi á því, ef hann vildi þeim í því gagn gjöra er á. Ef 2 menn eðr fleiri eiga skip saman, eik eðr aðra gripi, þá ábyrgist sá at öllu er með fer. En hverjum þeirra er heimilt í sína þörf. Eigi á hann at ljá eðr byggja skip at óleyfi þess er á með honum. En ef hann gjörir þat, þá svari hann þeim er á með honum, en hinn er síkn saka, er lèð var eðr leigði. Ef maðr

tekr grip manns, skip eðr hross, ok villir heimildir at, þá er hann þjófr at.

## 17. Ef maðr lèr þat honum er lèð.

Nú lèr maðr manni hross sitt eðr grip, ok vill sá hafa at þörf sinni, er lèð var, en hinn fer til er lèði, ok tekr af honum lánit, þá gjaldi sá hálfa mörk at áfangi, er skip eðr hross átti. En ef sá hefr víðara eðr lengr at veðri færu en honum var lèð, gjaldi sá hálfa mörk at áfangi þeim er skip eðr hross á, ok bæti þó skaða þann, er at verðr, þeim er lèði. Nú lèr maðr öðrum manni þat skip eðr hross, er honum var lèð, þá sekjast þeir, er hafa, ef þeir vissu, at sá átti eigi at ljá. Nú hyggja þeir, at sá ætti at ráða skipinu, er þeim lèði, ok varðar honum einum þá við. Nú koma þeir aptr, er með skip manns hafa farit, þá skulu þeir upp setja skip, ok um búa, sem áðr var. Nú mega þeir eigi upp koma, þá skulu þeir þeim til segja, er á skip, ok bjóða honum lið sitt, ok biðja hann til fara. En ef hann vill eigi til fara, þá ábyrgist hann sjálfr skip, en þeir ella, er með fóru, ok svá ef þeir búa eigi um sem áðr var, er þeir tóku. Ef maðr lèr manni skip eðr selr á leigu, þá verðr öllum þeim heimilt skip til meðfarar, er hann þarf í þá för at hafa. (R. B. H. K. Þar sem menn rjúfa skipan í veri eðr langferðum, sekr hverr hálfri mörk við konung, er þat gjörir, en þeim eptir lagadómi, er skip átti. En hverr sem tekr vísvitandi annars vinnumann eða skipara, sekr

hálfri mörk við konung, ok skal þó skipari ok vinnumaðr þar vera, sem hann rèði sik fyrri.

## 18. Um dufl ok teningakast.

Ef menn dufla eðr kasta teningum um peninga, sè uppnæmt konungs umboðsmanni allt þat er við borð liggr, ok hverr þeirra sekr hálfri mörk við konung. En ef menn veðja, hafi at engu ok sè sektalaust.

## 19. Um tylftareið.

Ef konungr kennir manni landráð, þá skal hann synja með tylftareiði, ok svá skal synja allra óbótamála. Nú skal nefna 6 menn á hverja hönd hinum, er undan skal færast, jafna at rètti við hann, þá sem næstir honum eru, ok um þat mál má kunnast vera, hvárki sakaða nè sifjaða; fulltíða menn ok valinkunna, þá er hvárki sè áðr reyndir at röngum eiðum nè skrökváttum, ok hefr 7 af þeim en sjálfr hinn áttundi, ok 4 fangavátta, ok eigi at meinsærum reynda, ok sverì innan tìu vikna særra daga. Sá skal sverja fullan eið fyri sik, er fyri sök verðr, en allir aðrir sanni mál hans með því skilorði: at eigi vita þeir annat sannara fyri guði en hann sór eptir sinni hyggju.

## 20. Um sèttareið.

Sèttareiðr skal standa um öll 13 marka mál, ok þjófnaðarmál, sem segir í þjófabálki, ok svá fyri 10 marka mál. Nú skal nefna 3 menn á hverja hönd þeim er fyri sök er hafðr á þann hátt, sem

segir um tylftareið, hafi 3 af þeim, sjálft hinn fjórði, ok tvá fangavátta.

## 21. Um lýrittareið.

Lýrittareiðr skal standa um öll 5 marka mál, ok 4 marka mál[1], þar sem nefna skal 2 menn á hvára hönd þeim, er fyri sök er hafðr. Hafi þá 2 þar af þeim, sem hann fær, en sjálfr hinn þriði. En fyri merkr mál ok þaðan af smærri, skal nefna til lýrittareiðs 2 menn á hvára hönd[2] hinum, er fyri sök er hafðr, hafi annan af þeim, sè sjálfr annarr, fangaváttr hinn þriði. Þessi eiðr skal standa þar til, er hafa skal 2 manna eið, eðr eineiði. Því at einn skal eyris synja, en 2 tveggja, 3 þriggja sem lögbók váttar.

## 22. Um meinsæri.

Þeir menn, sem að því verða kenndir ok sannir, at þeir sverja ranga eiða, ok prófast þat með sannindum, þá skulu þeir vera útlægir til Noregs um 3 vetr, utan konungr vili meiri miskunn á gjöra. Skulu þeir einskis manns eiða eðr vátta njóta, með því at þeir gjörðu sik sjálfir ónýta, ok gjaldi konungi 4 merkr, en 6 aura fyri hvern mann er sór með honum, ef þeir vissu eigi at ósært var. En ef þeir vissu at ósært var fyrri en þeir sóru, gjaldi þeir konungi 4 merkr sem hann. En ef þeir atburðir kunna til at falla, at þeim mönnum verða gefnar sakir þær, er við liggr líf eðr limir, eðr sè

[1]) Aðrar bæta við: ok 3 marka mál ok 2 marka mál. [2]) Aðrar: sinn mann á hvára hönd.

aleigumál, þá skulu þeir slíkra vitna ok undanfærslu njóta sem þess er miskunn til, er konungsvald hefr í hendi til rèttinda.

## 23. Um sakeyri.

Allr sakeyrir, lögliga lagðr á menn, skal goldinn at næstum fardögum eptir. Hann er rètt goldinn í vaðmálum ok ullu, ok í allri skinnavöru, ok í öllu kvikfè eptir því sem flestra manna gengr í milli í því hèraði, í slátrum ok alls kyns mat, í lèreptum, ok öllum austrænum varningi, ok öllu járnsmíði, eptir 6 manna virðingu, fella eigi til vöru nè búfjár, en virða þó til fullra aura.

# Hèr eptir fylgja nokkrar rèttarbætur o. s. frv. Noregs konunga, lögunum til styrkingar og rèttinda[1].

## Gamli sáttmáli milli Íslands ok Noregs konungs 1262.

Í nafni föður, sonar ok heilags anda var þetta játað ok samþykkt af öllum almúga á Íslandi með lófataki: Vèr bjóðum virðuligum herra Hákoni konungi hinum kórónaða vára þjónusta, undir þá grein laganna sem samþykkt er milli konungdómsins ok þegnanna, er landit byggja. Í fyrstu grein, at vèr viljum gjalda konungi skatt ok þingfarakaup, sem lögbók váttar, ok alla þegnskyldu, svá framt sem haldit er við oss þat móti var játað skattinum. — Í fyrstu, at utanstefningar skyldum vèr engar hafa, utan þeir menn sem dæmdir verða af várum mönnum á alþingi burt af landinu. — Item, at íslenzkir sè lögmenn ok sýslumenn hèr á landinu, af þeirra ætt sem at fornu hafa goðorðin upp gefit. — Item, at sex hafskip gangi til landsins á hverju ári forfallalaust. — Erfðir skulu upp gefast fyrir íslenzkum mönnum í Noregi, hversu lengi sem staðit hafa, þegar er rèttir arfar koma til, eðr þeirra um-

[1]) Sumum rèttarbótum ok öðru, sem ekki stendur í hinum eldri útgáfum Jónsbókar er hèr bætt við eptir Lovsamling for Island 1. b., og er fylgt textanum sem þar er, þegar þat — eins og gamli sáttmáli — er á báðum stöðunum.

boðsmaðr. — Landaurar skulu ok upp gefast. — Item skulu slíkan rètt íslenzkir menn hafa í Noregi, sem þeir hafa beztan haft. — Item, at konungr láti oss ná friði ok íslenzkum lögum, eptir því sem lögbók vár váttar, ok hann hefr boðit í sínum brèfum, sem guð gefr honum framast vit til. — Item, jarl viljum vèr hafa yfir oss, meðan hann heldur trúnað við yðr, en frið við oss.

Halda skulum vèr ok várir arfar allan trúnað við yðr, meðan þèr ok yðrir arfar haldit trúnað við oss ok þessar sáttargjörðir fyrirskrifaðar, en lausir ef rofin verðr af yðvarri hálfu at beztu manna yfirsýn.

## Rèttarbót Eiríks konungs Magnússonar 15. júlí 1294 um nokkrar breytingar á Jónsbók[1].

Eiríkur Magnús með guðs miskunn Noregskonungr, son Magnúsar konungs, sendir öllum mönnum á Íslandi kveðju guðs ok sína.

Þorlákr lögmaðr kom til vár, ok tæði fyri oss bænarstað yðvarn um nokkura hluti, þá sem þèr beiddut at til skyldi leggjast bókar yðvarrar eða úr takast; svá sýndi hann oss ok þá hluti, sem hann beiddist af yðvarri hálfu, ok honum ok þeim fleirum góðum mönnum, sem á Íslandi eru, ok þá

[1]) Sbr. Lovsamling for Island 1. b., 17—22 bls. Þessari rèttarbót er skotið inn í texta Jónsbókar hèr og þar, og höfum vèr sett þat í svigagreinir. Hèr er rèttarbótin tekin í heilu lagi, því hún munar ekki alllítið að efni og orðfæri í lagasafninu frá þeirri sem skotið er inn í textann.

váru hjá oss, þykja yðr harla nytsamligir vera; ok af því, at vèr viljum jafngjarna sjá yðra nauðsyn þó at þèr sèt í fjarska, um þá hluti sem þèr beiddust skynsamliga, sem þeirra þegna várra sem nær oss búa, þá gjörum vèr yðr kunnigt, at vèr samþykkjum þessar yðrar beiðslur allar, sem hèr fylgja:

1. Með handsölum skal jarðir byggja ok svá í borgun ganga. — 2. Svá skal leiguliði hjón hafa, at hann fái unnit engjar allar, ella bæti hann landsdrottni skaða þann allan, sem menn meta at jörð spillist af því, utan þeir skili öðruvíss. — 3. Um kaldakol forfallalalaust þat sem fèmætt er eptir, utan kvikfè, þá eignast sá er jörð á. — 4. Um burtfærslu taða: tvígildi fyri þat sem eptir er, þá er hann ferr af jörðu, þann kostnað sem sá þarf til burtfærslunnar er til kom jarðar. — 5. Full skaðabót skal greiðast fyri beit töðu, akra eða engjá, þó at eigi sè löggarðr um, landnámslaust fyri þeirra manna fè, er beit eigu í örskotshelgi, en ella fullt landnám með. Skylt er at hafa löggarð, hvárt sem hlaðit er korni eða töðu. — 6. Um gjeldfjárrekstr á vár til afrèttar, ok fjallgöngur á haustum, hvern tíma vera skal, gjöri eptir því sem hreppstjórnarmenn gjöra ráð fyri, ok hverju byggðarlagi hæfir, því at þat heyrir eigi einn veg öllum til, ellar svari sá slíkri sekt sem lögbók váttar, er eigi gjörir svá. — 7. En um allt kvikfè, þat sem goldit er

---

1. gr. sbr. Jónsb. Kaupab. 23. — 2. gr. sbr. Landlb. 5. — 3. gr. sbr. Landslb. 9. — 4. gr. sbr. Landslb. 8. — 5. gr. sbr. Landslb. 31. — 6. gr. sbr. Landslb. 46. — 7. gr. sbr. Landslb. 48.

eða gefit; utan hross, eignist sá er mark á, ef eigi er af brugðið innan hálfsmánaðar, er hann bannaði lögliga með vitnum. — 8 Ef maðr leggr sitt mark á fé annars manns með leynd, ok villir svá heimildir at, þá er hann þjófr, ef svá mikit er at þjófssök nemr. — 9. Nú kemr engi eptir fé því fyri miðjan vetr, er bóndi veit eigi hverr á, ok hefr þat verit hálfan mánuð síðan sagt var til, þá er rétt í fyrstu viku þorra at láta virða fé þat 6 granna sína; þeir skulu svá virða sem þeim þykkir þá vert er þeir virða. — 10. Standa skal lögleiga eptir bók, at 6 skynsamir menn meti hvárt sá er leigði hefr til fóðr eða smjör, ok ef eigi er til, gjaldi jafnvirðan annan mat, ef hann þarf eigi úti at kaupa, ella leysi 12 álnum vaðmáls. — 11. Nú krefr maðr mann fjár síns í réttan gjalddaga, þess er vitni veit eða við er gengit, þá er vel ef hann geldr, eða stefni honum heim á 14 nátta fresti, ok krefi þar enn fjár síns. Nú vill hann eigi greiða. þá stefni honum þing ok krefi þar enn skuldar sinnar. Nú vill hann eigi greiða, þá sekist hann 2 aurum fyri kröfu hverja. En þaðan af þinginu skal sækjandi nefna svá marga menn, sem hann þykist þurfa, ok fari síðan eptir bók. — 12. Ef verkmaðr liggr 3 náttum lengr um heyannir, en hálfan mánuð utan heyannir, meti skynsamir menn hvert leigufall er. — 13. Sú klausa er úr tekin bókinni er fyribýðr at hafa dilkfé. — 14. Ok þat

8. gr. sbr. Landslb. 48. — 9. gr. sbr. Landslb. 50. — 10. gr. sbr. Kaupab. 15. — 11. gr. sbr. Kaupab. 8. — 12. gr. sbr. Kaupab. 25. — 13. gr. heyrir til Landslb, 17. — 14.

kapítulum, er fyriþýðr at þeir menn reisi búnað, er minna fé eigu en til 5 hundraða. — 15. Nú ferr maðr á veg með hrossi, ok þó at þeir sé 3, ok stendr hey nær götu, en bær eigi allnær, þá taki þeir hey at ósekju, ef þeir þurfa, slíkt sem hross þeirra eta þar, ef nauðsyn gengr til. — 16. Þat skal standa um melrakkaveiðar sem lögréttumenn skipa, ok aldri meiri sekt en 6 álnir fyri hvern. — 17. Eigi skal ómaga telja framar en á fé þess hjóna er ómaginn er skyldr, ok hverfi af fénu þegar hann er 16 vetra, ef hann er heill ok verkfærr. — 18. Ef mær eðr kona utan ekkja, giptist utan ráð föður síns eða bróður, eða móður, eða þess er giptingarmaðr er fyri ráði hennar, hafi fyrigjört arfi sínum eptir giptingarmann, þann sem hún stóð til, utan hann vili meiri miskunn á gjöra, nema giptingarmaðr vili firra hana jafnræði. — 19. Erfingi á kost at halda ómaga eyri þó at hann eigi minna fé en ómagi á, ef skynsömum mönnum virðist hann óhættur skuldunautr. — 20. Bóndi skal eiga hálfar vígsbætr eptir húsfrú sína. — 21. Eigi skal bóndi selja eignir húsfrú sinnar, eða þær er þau eigu bæði saman, utan samþykkis hennar, nema full nauðsyn gangi til, ok þó með skynsamra manna ráði. — 22. Ef hrútr kemr til sauða, eða hafr til geita, ok gjörir spell, bæti skaða er

---

gr. þessi kap. var næstr seinasta kapítula í Kaupab, sleppt í útgáfunum). — 15. gr. sbr. Þjófab. 12. — 16. gr. sbr. Þingfararb. 6. — 17. gr. sbr. Framfærslub. 1. — 18. sbr. gr. Kvennag. 1. — 19. gr. sbr. Arfatökur 21. — 20. gr. sbr. Mannh. 1. — 21. gr. sbr. Kvennagipt. 3. — 22. gr. sbr. Landslb. 49.

metinn verðr. — 23. Nú er maðr stolinn fè sínu, þá á sá, er stolinn er, full gjöld fjár síns af fè hins sakaða, ok kostnað þann, er hann þurfti til eptirfarar, ok rètt sinn eptir lagadómi, sem hann sè lögræntr jafnmiklu. — 24. Eigi er umboð fullt utan með váttum ok handsölum. — 25. Um skrúðklæðabúnað sekr 2 aurum fyri hvert er hann ber framarr enn lög vátta, utan konum sè gefin — 26. Um eldi þingmanna, sekr 2 aurum fyri hvern mann er eigi er alinn forfallalaust. — 27. Ef maðr rangfærir ómaga, gjaldi þeim kostnað fullan er til er fært, þann er hann hafði fyri. — 28. Um skuldir kaupmanna sekr hálfri mörk fyri hundrað hvert, er eigi er goldit at Ólafsmessu forfallalaust, hálft konungi en hálft þeim er skuld á. — 29. Þar sem maðr segir sig úr dómi forfallalaust, lögliga tilkrafðr af rèttarànum, sekr hálfri mörk, við konung hálft, ok hálft við þann er mál á, utan svá mikit mál sè at dæma, at þeir fái eigi yfir tekit, þá leggi til alþingis eða heima til lögmanns. — 30. 6 eru mórendar álnar til eyris. — Ekki eru melrakkabelgir mæltir í lögaura. — 31. Sá kapítuli er úr tekinn bókinni er váttar um tveggja missera vinnumenn. — 32. Ef maðr særir mann, bindr eðr berr, eða skemmir fullrèttisorðum eða verkum,

23. gr. sbr. Þjófab. 8. — 24. gr. sbr. Kaupab. 10. — 25. gr. sbr. Framfærslub. 13. — 26. gr. sbr. Þjófab. 2. — 27. gr. sbr. Framfærslub. 4. — 28. gr. sbr. Kon. þegnsk. 3. — 29. gr. sbr. Þingfar. 8. — 30. gr. sbr. Kaupab. 5. — 31. gr. Þessi kap. var sá þriði að aptan í Kaupab., stendur ekki í útgáfunni. — 32. gr. sbr. Mannh. 23.

ok vitu þat vitni, ok krefr sá lagastéfnu ok réttar síns, er fyri vanvirðu verðr, en hinn neitar, þá sekist hann hálfri mörk, hálft hvárum, konungi eða þeim er mál á. — 33. Hvar sem ungum manni tæmist land í erfð eða at gjöf, í vígsbætr eða réttarfar, ok selr fjárhaldsmaðr hans í brott, þá á hann brigð til þess lands. — 34. Ef maðr fellir boð, þat er stefnt er þing at heyra konungsbréf, eða manndrápsþing, eða manntalsþing til jafnaðar, eða hreppstjórnarþing um haust, sekr 2 aurum fyri hvert. — 35. Ef maðr maðr mjólkar stelandi hendi bú annars manns, bæti sem fyri stuld, sá er fé hefr til, ella láti húðina eptir lagadómi. — 36. Skylt er bóndum at gjöra vegu færa um þvert héruð ok endilöng, þar sem mestr er almannavegr, eptir ráði sýslumanna ok lögmanna; sekr eyri hverr er eigi vill gjöra, ok leggist þat til vegabóta. — 37. Ef griðungr eltir fang úr kú, svá at skaði virðist, sá er heima er gætt með búi, bæti fjórðungi bóta ef sannprófat verðr, en engu þeim er hann lèr; en ef hann vill eigi varðveita hann, eða reka í afrétt, bæti skaða þann sem hann gjörir, eptir því sem menn metá. — 38. Eigi skal hèr á landi gefa mey eðr konu meiri tilgjöf en til 60 hundraða, þó at menn sè ríkir, ok hvergi meir en sè fjórðungr úr fè hans, en ef hann gefr í beztu eign sinni, þá skulu erfingjar hans leysa til sín, ef þeir vilja. — 39. Ef maðr færir bú sitt hreppa

33. gr. sbr. Landabr. 1, — 34. gr. sbr. Framfærsl. 10. — 35. gr. sbr. Þjófab. 10. — 36. gr. sbr. Landslb. 44. — 37. gr. sbr. Landslb. 55. — 38. gr. sbr. Kvennagipt. 1. — 39.

meðal, þá skal hann segja til einkunnar sinnar í þeim hrepp sem hann hefr bú sitt í fært, ok láta skrá með einkunnum þeirra manna sem þar búa fyri. — 40. Stefnu skal leggja til kaupa við skip fyri heyannir ok eptir, ok seli þar hönd hendi. — 41. Sektalaust er manni at kjósa undan sèr málaland sitt. — 42. Þeim mönnum skal eigi gefast ölmusa, er ganga húsa í meðal ok bera vápn. — 43. Þessi orð eru úr tekin bókinni, at ekki skal at skáldskaparmálum ráða. — 44. Um kálfa ok lömb, kið ok grísi, þá sekist maðr eigi þó at ómarkat sè, meðan í sjálfs hans landi gengr. — 45. Endrnýja má maðr umboð at liðnum 3 vetrum, hvárt sem hann er utan lands eðr innan. — 46. Þingvíti skulu leggjast til þinghúsagjörðar, svá lengi sem þarf. — 47. Landnám ok skaðabætr skal gjalda sá er svín þau á, er skaða gjöra, svá sem fyri annan fènað. — 48. Ekki á jörð í viði þeim, er fluttr er úr almenningi, utan hann liggi lengr en lög vátta. — 49. Sá skal skatt gjalda er búnað reisir, en hinn eigi, er brigðr búi, ef hann hefr minna fè en til 10 hundraða, skuldlaust ok ómagalaust. — 50. Þat kapítulum skal ok vera í bók yðvarri, sem váttar um byggingu á konungseigna-

gr. sbr. Landslb. 47. — 40. gr. sbr. Þegnskyldu 3. — 41. gr. sbr. Landslb. 10, — 42. gr. sbr. Mannh. 30. — 43. gr. sbr. Mannh. 27. — 44. gr. sbr. Landslb. 47. — 45. gr. sbr. Arfatökur. 24. — 46. gr. sbr. Þingfararb. 5. — 47. gr. sbr. Landslb. 51. — 48. gr. sbr. Landslb. 59. — 49. gr. sbr. Þegnsk. 1. — 50. gr. Þat er annarr kapítuli í Landsleigub.

um. — 51. Eigi viljum vèr at mikil skreið flytist hèðan, meðan hallæri er á landinu.

Eru þeir nokkrir hlutir hèr í ritnir, sem þeim vitrustu mönnum sem eru á landinu sýnast ofarr meirr of harðir eða of linir, þá bjóðum vèr lögmönnum várum at þeir riti til vár þat sem þèr beiðizt allir samt, skulum vèr þá sannliga, með góðra manna ráði, þá skipan á gjöra, sem vèr væntum at yðr sè hentast. — þessi skipan var gjör í Túnsbergi, þá er liðit var frá burði várs herra Jesú Christi 1294 vetr á Svithúnsvökudag á 15. ári ríkis várs. Herra Bárðr Serksson kanceler várr innsiglaði, Jón klerkr ritaði.

## 8. Rèttarbót Eiríks konungs um stefnufall.

Svá skipaði virðuligr herra Eiríkr konungr, son Magnúsar konungs, at hvervetna þar sem sakaráberi stefnir undir rètt próf til sýslumanns, ok kemr hann eigi forfallalaust, þá sekist hann hálfri mörk, hálft sýslumanni, en hálft þeim er mál á; skulu þær stefnur vera eptir leiðarlèngd, ok svá að stefndr hafi nóga stund at koma at öllum gögnum ok vitnum, ok prófi sýslumaðr mál þeirra innvirðuliga, hvárt sem koma annarr eða báðir, ok gjöri rètt þeirra á millum. En ef hann fær eigi yfir komit, þá er hann skyldr at rita til konungs eðr lögmanns slíkt próf sem framast fær hann, ok gjöra þat kauplaust; er þá lögmaðr skyldr til at leggja úrskurð á þat mál, þó at hann haldi þá eigi vitnum sín-

51. gr. sbr. Farmannal. 27.

um til lögmanns. Sama er ok þess manns sök, sem sýslumaðr stefnir til sín innan hálfs fylkis, til þess at prófa mál hans, ok gjöra rètt öðrum mönnum af þeim, ef hann kemr eigi nauðsynjalaust. Svá er ok skipat, at ef eigi eru löggjafir á nefnd, ok gefr maðr ýmsum mönnum aðrar gjafir, þá skulu þær gjafir haldast allt þar til er þær verða jafnar við löggjafir. En ef meira er gefit, þá skal skerðast fyrir hverjum eptir því sem tala rennr til eptir fjármagni, utan sálugjafir, ok þær gjafir er maðr gefr heill ok ósjúkr ok afhendir at sèr lifanda, ef skynsömum mönnum virðist eigi arfsvik á gjör. Svá er ok staðfest, at frilluson ættleiddur tekr rètt af föður sínum eptir móður sína þá sem ættleiddi hann, ef engi er þeirra til, sem áðr eru taldir í erfðatalinu. Frilluson hinn elzti einn tekr höfuðból eptir föður sinn, ef faðir hans festir móður hans síðan hann var fæddr, ok þó at hann hafi kvángast þess í millum, ok eigi börn með þeirri, ok andast sú, ok festir þá hina síðan, er áðr var frilla hans. Ef bóndi selr jarðir húsfreyju sinnar utan hennar samþykki ok vilja, þá skal hún skyldug vera at lýsa fyri skilríkum mönnum innan næstu 5 vetra, síðan hún vissi at þær váru seldar, ok segja at húsbóndi hennar hefr jarðir hennar selt at hennar óvilja, utan hún hafi óttast bónda sinn, eðr eigi þess máls aldri uppreist. Ef maðr á börn með eiginkonu sinni meðan hann er í útlegð, þá eru þau eigi arfgeng hvárki til föðurs arfs. nè móður arfs, nema því at eins, at faðir þeirra verði lendr síðan.

## 3. Rèttarbót Eiríks konungs um prófasta.

Eiríkr með guðs miskunn Noregs konungr hinn kórónaði &. Nú af því at oss ber skylda til innvirðuliga eptir at sjá ok um at bæta lög ok landsins rètt, þá skipum vèr nokkra hluti af með hinna beztu manna ráði, ok sendum yðr með þessum greinum sem hèr fylgir. Í fyrstu, at þeir prestar hafi prófastsdæmi, sem eigi hafa sóknarkirkjur eða heyra leyndar skriptarmál. Item þeir bændr skilríkir innan sóknar, sem vel eru fjáðir, hafi umboð ok varðveizlu yfir kirkjufè ok því gózi, sem hún á at hafa sèr til upphalds, ok þó með vitorði prestsins, ok gjöri herra byskupi reikning eða kórsbræðrum, ef hann er eigi nær. Svá skulu ok handgengnir menn, prestar ok byskupsmenn, gjöra útfarar leiðangr, ok skipa fè sem aðrir menn. Geymi menn at þrem sinnum verði lýst áðr samgangr verðr hjóna í millum, því at ef þau geta börn síðan, er svá var lýst, þá skulu þau vera skilgetin, þó at síðarr meir prófist meinbugir á þeirra á millum. Þat er ok forboðit, at nokkurr maðr nauðgist til þess eiginorðs, at hann skal þá konu eiga sem hann hafði áðr fyri frillu, ef hann leggst með henni, síðan hann ber þat til skriptar ok yfirbótar. Item, þar sem maðr er stefndr til konungs innan lands, ok kemr eigi, eðr hans umboðsmaðr forfallalaust, þá sekist hann 2 mörkum við konung, utan hann hafi boðit sitt mál undir rètt rannsak heima til lögmanns eðr sýslumanns, ok vill hann þat eigi er kærir, þá sekist sá eigi er stefnt var, þó at hann

komi eigi til konungs at því sinni. Item, at maðr hafi bréf ok innsigli lögmanns eðr sýslumanns eðr annara skilríkra manna, ef hann ferr úr átthaga sínum í aðra staði, þau er honum beri vitni um, at hann sè skilamaðr. Svá ok ef maðr segir manni fyri brigð á þeirri jörðu, er hann hyggr hann eiga at halda svörum fyri, en hinn hefr burt látit á laun-ungu, ok vill svá villa sókn hins, þá skal verj-andi vera skyldr at segja honum hverr hönd hefr á jörðunni, en ef hann leynir, þá gjaldi hinum svá mikla landskyld sem af þeirri jörðu gengr um þá 12 mánuði. Geymi ok um boðburð, at hverr sem fellir, gjaldi eyri fyri hvern bónda, er eigi kom boð til á boðslóð, ok eigi kom til þings forfalla-laust. Um þat fè sem eindagat er, hafi atfarar-þing, þegar hann vill, svá at hann hafi áðr heimt í rèttan gjalddaga. Er ok skipat um eignir þær, sem faðir gefr, ok kvángar með son sinn eða gipt-ir dóttur sína, ok húsfrú hans veit þat þá, ok er í hjá, ok telr ekki at opinberliga, þá má hún ekki rjúfa þat síðan, þó at misdauði þeirra verði, nè svá þeirra erfingjar, utan meira sè gefit en lög vátta, þá jafnist þat eptir bók. Svá er ok greint, ef bóndi selr eignir húsfreyju sinnar, eðr þær sem þau eiga bæði saman, þá ábyrgist sá sjálfr vátta innan 20 vetra, ok hans erfingjar ef hann er dauðr, ef jarðir váru seldar með húsfreyjunnar samþykki, síðan er úr vátta ábyrgð. Item, um jarðabrigði ok garða, at þat kærist fyri lögmanni eðr fyri sýslumanni, ok gjöri þeir þar rètt af, hvárt sem klaga leikmenn eðr lærðir menn. Svá er ok staðfest, ef sonarsynir

eru tveir eðr fleiri skilgetnir, eins manns synir, ok var faðir þeirra skilgetinn samfæddr, þá skulu þeir taka fullan arf slíkan sem faðir þeirra stóð til, ok svá jarðir ok óðul, ok skipti sín í milli eptir mannmergð. Hvervetna þar sem lögmaðr er nær, þá skal hann nefna menn til dóms, einkanliga þar sem um stórmál er at dæma en ella sýslumaðr, ok skoði innvirðuliga, at þeir nefni 12 menn skynsama ok skilríka til dóms, hvárki sakaða nè sifjaða þeim sem um skal dæma, ok þeir 12 gangi einir saman ok staðfesti svá dóm sinn, ok síðan gangi þeir til annara manna, ok samþykki þeir þá allir saman dóm þann með lófataki, en þeir sem eigi vilja samþykkja sverì einn eið, at eigi viti þeir annat sannara en þeir segja, ella sekr hverr þeirra hálfri mörk við konung. Ef kona missir bónda síns yngri en tvítug, eðr karlmaðr missir húsfrú sinnar yngri en 20 vetra, ok koma þau saman at frænda ráði, þá megu þau hafa fjárhald sitt ok annara manna, ef undir þau ber; eðr fá öðrum, ef þau vilja þat heldr. Item, við því skal engi leiguliði ábyrgjast hús at skriður spilli eðr ofviðri brjóti, ef hann hefr uppihaldit ábúð eptir lögum.

## Endurnýjun gamla sáttmála Íslendinga við Hákon konung Magnússon 1302[1].

Í nafni föður ok sonar ok heilags anda var þetta játð ok samþykkt af almúganum á alþingi við handgengna menn með fullu þingtaki.

---

[1]) Sbr. Lovsamling for Island 1. b. 23—24. bls.

At várum virðuligum herra Hákoni Noregs konungi hinum kórónaða, bjóðum vèr fullkominn góðvilja ok vára þjónustu, ok at halda þá lögbók sem hinn signaða Magnús konungr sendi út sem vèr sórum næst. Allir viljum vèr ok eiða vára halda við konungdóminn, undir þá grein lögmálsins, sem samþykkt var millum konungdómsins ok þegnanna, þeirra sem landit byggja. Er sú hin fyrsta, at vèr viljum gjalda skatt ok þingfararkaup 20 álnir, sem lögbók váttar, ok alla þá þegnskyldu er lögin vátta með stöddum eiði ok endimörkum oss á hendr. Hèr á mót sakir fátæktar landsins, ok nauðsynja þess fólks, er landit byggir, at ná þeim heitum í móti því gózi, er heitit var móti skattinum í fyrstu af konungsins hálfu. En þat eru þau heit, at íslenzkir sè sýslumenn ok lögmenn á landi váru, ok þvílíkan skipagang hafa sem heitit var á hverju ári út hingat forfallalaust, ok þeim gæðum hlaðin sem nytsamlig sè landinu. — Viljum vær engar utanstefnur hafa, framar en lögbók váttar, því at þar höfum vèr margfaldan skaða af fengit, ok við þat þykjumst vèr eigi búa mega; en allr sá boðskapr, er oss býðr meiri afdrátt eðr þýngsl, en áðr er svarit ok samþykkt, þá sjáum vèr með engu móti at undir megi standa, sakir fátæktar landsins. — En hálfu síður þorum vèr fyri várum herra Jesu Christo at játa nú meira undan þeim guðs ölmusum, sem áðr með guðs miskunn höfum vèr veittar oss til sáluhjálpar. — Biðjum vèr einkanliga virðuligan herra Hákon konung hinn kórónaða ok alla aðra dugandismenn, at þeir þröngvi

oss eigi framar en lög vátta til meiri álaga. — þat gefi oss herra Jesús Christus, at þetta várt ráð verði sjálfum guði til tignar ok virðingar, en öllum helgum til lofs og dýrðar, ok konunginum í Noregi og öllu hans réttu ráðuneyti til vegs ok virðingar, en oss til friðar ok frelsis. Amen.

## Réttarbót Hákonar konungs Magnússonar 1303, um heitingar.

Hákon með guðs miskunn o. s. frv. þat er optliga kært fyri oss, at frændr þeirra manna, er várir umboðsmenn láta taka til rannsaks, eða láta refsa þeim eptir lögum, heitast við vára umboðsmenn, eðr þá aðra, er þeim vilja fylgja, ok konungsvald styrkja, ok réttindi eiga at gjöra eptir lögum, ok af því hinum skynsömustu mönnum ok oss sýnast þessir menn eigi betri en þeir menn, er heimta gjöld fyri þá menn, er konungr lætr refsa eptir lögum fyri sín afbrot, þess ok annars, at eptir slíkum heitum hafa opt vánd heit fram komit, ok af því krefr ok vár skylda til, skorður við at reisa þvílíkri vonzku ok annari illsku er nú hefst dagliga, þá er er þat boð várt ok fullkomligr vili, at hverr at þessu verðr kunnr ok sannr héðan af, takist ok innsetist undir konungs geymslu, þar til er hann fær þá borgunarmenn, eð hinn sé traustr ok öruggr fyri honum, er hann heitaðist við, svá at hann fái þar af hvárki skömm né skaða, ok á ofan 4 merkr konungdóminum fyri sína ofdirfð, ok hinum fullrétti sitt eptir 6 manna dómi, er hann heitaðist við. Kann ok svá til at bera, at hinn sem heit-

ast var við, fái nokkra skömm eðr skaða, þó at síðarr sè, ok sýnist skynsömum mönnum nokkur sú grunsemd þá á, at þess völd hafi til gengit eðr ráð, er áðr heitaðist við, þá fyribjóðum vèr sýslumönnum várum ok lögmönnum nokkra undanfærzlu taka af þeim fyr en vèr erum at spurðir. En ef nokkurr tekr, þá er sem ógjört sè. — þat höfum vèr ok undirstaðit sannliga, at þeir eru margir menn, er vanfærir eru at skipta lögum við þá menn er eigi vilja eptir stefnum fara eðr skynsamliga svara, hvárt þeir eiga málefni við aðra menn eðr aðrir við þá, utan ganga fram með reiðugligri heitan ok ofsvæsi við þá sem spakir eru, eðr minni þeim eru fyri sèr, ok þó bjóða sig til laga ok rèttinda eptir góðra manna dómi ok vörzlum þar sem þat hæfir. Svá verða ok sumir fyri hræðslu sakir sinn rètt upp at gefa. Ok því at vèr viljum eigi nè megum slíka hluti með nokkru móti líðast láta hèðan af, þá bjóðum vèr fullkomliga sýslumönnum várum, at taka þá menn, er at slíku verða kenndir, ok til slíkrar geymslu ok varðveizlu sem fyr segir. Með sama hætti skal ok vera um undanfærslu þeirra, ef þeim kann þörf at verða er málaefni eigu við þá. Bjóðum vèr öllum mönnum ok einkanliga handgengnum mönnum várum at veita sýslumönnum várum lið með styrk ok fylgi, svá at þessi vár ok allr annarr boðskapr sá, er vèr höfum skipat góðum mönnum til frelsis, ok óhlýðnum mönnum til refsingar ok yfirbótar, verði staðfastliga haldinn. Var þetta brèf gjört í Túnsbergi á Óðinsdaginn næstan fyri Trinitatis messu á 4.

ári ríkis várs. Herra Haki kanseler vár innsiglaði. Páll klerkr ritaði.

## Rèttarbót Hákonar konungs Magnússonar 1305[1].

Hákon með guðs miskunn Noregs konungr, son Magnúsar konungs, sendir öllum guðs vinum ok sínum, þeim sem þetta brèf sjá eða heyra, kveðju guðs ok sína.

Þèr rituðut til vár ok beiddust af oss nokkurrar vægðar ok linunar um suma hluti, þá sem allt Ísland tekr í ýmsum atburðum; ok af því, at vèr höfum jafnan reynt af yðr góðvilja ok eptirlæti, þá sendum vèr yðr þetta várt brèf, í hverju vèr höfum greint þær rèttarbætr, sem vèr viljum ok megum at sinni yðr gefit hafa, þar til sem vèr látum ofarr meir greina þá hluti í lögbók várri: 1. Er þat þá fyrst, at þeir af várum mönnum, sem sigla til Íslands, ok þar kunnu brotligir verða, viljum vèr at þeim sè þar sakir gefnar, ok rèttr af þeim gjörr at Ólafsmessu fyrri, ok svá sè þeim ok rètt gjört, ef nokkurr gjörir þeim rangt. En ef sýslumaðr fyrinemst þeim rètt að gjöra, þá svari hann sökinni. — 2. Bjóðum vèr fullkomliga, at vándum mönnum sè refst þar sem þeir verða teknir, ef þar er lögligt próf áðr á komit, ella fáist þeir í hendur sýslumanni þar sem þeir takast, ok sendi þá hver sýslumaðr frá sèr til annars í góðri

1. gr. sbr. Jónsb. þegnsk. 3. — 2. gr, sbr. þjófab. 1.

---

[1]) Sbr. Lovsamling for Island 1. b. 24—26. bls. þessari rèttarbót er skotið inn í texta Jónsbókar til ok frá.

geymslu ok sinni ábyrgð, þar til er hann keimr til þess sýslumanns, er brotit er at. — 3. Líkar oss vel, at frændr gjöri kaupmála sín í millum ok helmingarfèlag, eptir því sem þeim semr; en ef hjón gjöra sín á meðal. Standi eptir því sem bók váttar. — 4. Ok ef annathvárt þeirra kann frá fat falla, þeirra sem 10 vetr eðr lengr hafa saman verit, ok hafa þau jafnan haldit sik fyri löglig hjón, þó at hjúskapr þeirra hafi eigi lögliga verit ámálgaðr, ok eigi byggðarfleygt meðan þau lifðu bæði millum skilríkra manna, at hún væri hans frilla eðr hórkona, þá skal barn eða börn, ef til eru, í arf setjast og haldast fyri skilgetin, þó eigi lifi festingarváttar — 5. Viljum vèr at frítt fè eitt sè virt í forlagseyri, ok at erfingjar ómagans sè skyldir at taki við hans gózi ok fjárhaldi, þó at hann sè eigi fullveðja, ef frændr ómagans samþykkja, ok sýnist hann þeim óhættr skuldunautr, ok skulu þá frændr svara skaða ómaganum. — 6. En ef fátækir menn skjóta börnum sínum aflögliga í hrepp, lofum vèr hreppstjóra þeim er næstr er, ok bóndum með honum, at taka þann mann ok binda ef þarf, ok færa aptr, ok binda síðan barn á bak honum, ok láta sjálfan bera brott úr hreppinum. — 7. En um skyldu fátækra manna viljum vèr, at nátt sè á hverjum 10 hundruðum, þar til er verðr hundrað hundraða, en síðan nátt á 20 hundruðum, þar til sem er 200 hundraða, en þó at fè sè meira,

---

3. gr. sbr. Kvennagipt. 3 — 4, gr. sbr. Arfatökur 27. — 5. gr. sbr. Arfatökur 21. — 6. gr. sbr. Framfærlub. 9. — 7. gr. sbr. Framfærslub. 12.

takist þat ekki til manneldis, utan hreppstjórnarmönnum sýnist annat rèttara. — 8. Þat er góðr vili várr, at geldfè sè sektalaust í heimalöndum, ef hreppstjórar ok grannar lofa ok samþykkja ok gefa enga sök á. — 9. Þeir ok sem eigi vilja halda þá skipan sem hreppstjórar gjöra lögliga, ok gjaldi hálfa mörk, hálft konungi en hálft hreppstjórum, ok leggist þat til fátækra manna. — 10. Einar vágir ok ein mælikeröld vilium vèr at gangi um allt landit, ok bjóðum, at hverr sýslumaðr í sinni sýslu sjái þar svá eptir, sem hann vill halda þeim sæmdum sem hann hefr af konungdóminum. — 11. Búlausir menn, ef peninga eigu, svari manneldi ok öllum hreppnauðsynjum at jafnaði sem hreppstjórnarmenn gjöra ráð fyri. — 12. Sá ok sem boð fellir, svari sekt fyri alla þá, er á þeirri boðslóð eru ok eigi kom boð til forfallalaust.

Var þetta brèf gjört í Túnsbergi Jónsvöku aptan á sètta ári ríkis várs. Herra Áki kanseler várr innsiglaði, Símon klerkr Þorsteinsson ritaði.

## Rèttarbót Hákonar konungs 1310, um at sýslumenn gjöri rètt.

Hákon með guðs miskunn Noregs konungr, o. s. frv. Margir menn hafa kært fyri oss um þann úrskurð sem lögmaðr segir manna í millum, ok dómar þeir sem dæmdir eru, at engi rèttr gjörist á, þó at kært sè fyri sýslumönnum eða þeirra um-

8. gr. sbr. Landslb. 46. — 9. gr. sbr. Framfærslub. 9. — 10. gr. sbr. Kaupab. 26. — 11. gr. sbr. Framfærslub. 12, — 12. gr. sbr. Framfærslub. 10.

boðsmönnum, utan þeim sè gjafir gefnar. Ok af því at oss byrjar þvílíka hluti með engu móti þolast láta, þá viljum vèr at allir menn viti, at þar sem sá, er málit varðar ok lögskilit er, eðr dæmdr er dómr til handa, kærir sik fyri várum sýslumönnum eðr þeirra lènsmönnum, ok biðja sèr rètt gjöra ok fá engan, þá fyribjóðum vèr várum sýslumönnum ok þeirra lènsmönnum at sækja vára þegna um þann sakeyri, er vèr höfum þeim veitta fyr en þeir hafa rètt gjört þeim er sik kærði lögliga fyri þeim, ok þess ván eiga ofan á at vèr fáum þeim vára föðurleifð í hendr, er rètt vilja gjöra þeim mönnum er sik kæra lögliga. Hvervetna þar sem lögmanni ok öðrum skynsömum mönnum lízt at sýslumenn eðr þeirra lènsmenn taka rangliga peninga manna utan lögligra sókna, ok kunni einhverr svá fákunnigr at verða eða fásvinnr, þá viljum vèr at þeir sæki engan rètt, fyr en þeir hafa rètt gjört þeim er þeir tóku fyri aflaga eptir lögmanns ráði ok annara góðra manna.

Var þetta brèf gjört í Túnsbergi á annan dag Jóla, á 11. ári ríkis várs, o. s. frv.

## Rèttarbót Hákonar konungs 1313. Um eiðvætti ok arf eptir hórgetin börn.

Hákon með guðs miskunn Noregs konungr, o. s. frv. Hèðan af skulu karlmenn nefnast til eiðvættis ok undanfærslu með körlum, en konur með konum, ok ef kona hórar undir bónda sinn, ok eiga börn saman, ok andast faðirinn ok síðan barnit,

þann arf skal síðan aldri móðir taka, er þat barn erfði eptir föður sinn, utan þau sættist áðr sín í millum um mál sín, ok upp gefi hvárt öðru þann sama hór, þann arf skulu taka föðurfrændr barnsins hinir nánustu, sem erfðatal váttar. Sömuleiðis skal fara, ef bóndi hórar undir konu sína. Bjóðum vèr sýslumönnum ok lögmönnum þessi lög ok rèttarbætr í lögbók setja, því at vèr viljum at þau gangi um aldr ok æfi um allt várt ríki. Gefi þat Jesus Christus, at þessar várar skipanir ok allar aðrar rèttarbætr, er vèr höfum yðr gefit, geymi þèr svá at yðr sè til nytsemdar ok æfinligs gagns, guði til heiðurs, oss til æru öllum samt ok fagnaðar.

Þetta brèf var gjört í Niðarósi Krossmessudag um várit, þá er liðit var frá hingatburð várs herra Jesu Christi 1300 ár ok 13 vetr, á 14. ári ríkis várs. Herra Bjarni Auðunarson innsiglaði oss sjálfum hjáverendum. Þorgeir Torfason ritaði.

## Rèttarbót Hákonar Magnússonar 14. júní 1314[1].

Hákon með miskunn Noregs konungr, son Magnúsar konungs, sendir öllum mönnum á Íslandi, þeim sem þetta brèf sjá eða heyra, kveðju guðs ok sína.

Skylda vár ok ástsemd sú, sem vèr berum til alþýðu ríkisins, sakir mikils góðvilja ok eptirlætis, er allir menn hafa oss veitt, síðan guð kaus oss til ríkisstjórnar, krefr oss til at bæta þá hluti sem á-

---

[1]) Sbr. Lovsamling for Island 1. b. 27—31. bls. Þessari rèttarbót er skotið inn í texta Jónsbókar á ýmsum stöðum.

fátt er, einkanliga, um lög ok landsins rètt, höfum vèr þar um hugsað með beztu manna ráði, ok bænastað þeirra vitrustu manna, ok þá váru í hjá oss, lètum vèr skrifa yðr til nytsemdar ok huggunar þessar rèttarbætr sem hèr fylgja:

1. Í fyrstu, at þau mál er lögmenn ok sýslumenn fá eigi yfir tekit, þá gjörist 12 mánaða stefna til Noregs, svá at þá megi þar rètt af gjöra. — 2. Item, at svá sè lagastefna til sýslumanns sem lögmanns, ok hálfu minni sekt við. — 3. Sýslumenn skulu ok gjöra stundarstefnu til sín, at andsvara mönnum þeim; sem lögligt mál hafa á hendr þeim ok svá vitnum þeirra, ok gjöri þeim rètt sem mishaldinn er, þó at stefndr komi eigi forfallalaust. — 4. Svá viljum vèr ok, at rètt sè at gjöra stundarstefnu til lögmanns, þá er hann ríðr um land at skipa málum manna, svá þó, at stefndr megi auðveldliga vitnum sínum til koma. — 5. Þeir búlausir menn skulu skatt greiða, sem hann á til 10 hundraða fyri sik, ok hundrað fyri hvern ómaga sinn, ok eitt hundrað um fram. — 6. Fyrirbjóðum vèr, at þeir sè lènsmenn, sem eigi eru fullveðja at bæta aptr, ef þeir taka órèttiliga, utan bændr samþykki annat. — 7. Eigi viljum vèr at nokkurr skjóti máli sínu undan lögmanni eða sýslumanni, ok tálmi svá rèttindi manna, ef skynsam-

1. gr. sbr. Jónsb. Þingfarab. 9. — 2. gr. sbr. á samastað. — 3. gr. sbr. á sama stað. — 4. gr. sbr. á sama stað· — 5. gr. sbr. Þegnsk. 1. — 6. gr. sbr. Þegnsk. 2. — 7. gr. sbr. Þingfarab. 9. — 8. gr. Þessir kapítular eru 27. og 28. kapít. í Kristinnrètti Árna byskups. Sbr. einnig Rekab. 10.

ir menn sjá, at þeir fá yfir tekit. — 8. Þat kapítulum skal ok vera í bók yðvarri, sem stendr í rèttarbótum þeim, sem Vilhjálmr kardínali gaf öllum mönnum í Noregs konungs ríki, ok þetta er upphaf: „Ef virka daga má eigi vinna sakir veðráttu", ok þetta annat, er svá hefr: „Fyri sakir nauðsynja lands". — 9. Svá höfum vèr ok staðfest: alla þá vandræðamenn, sem komast á kirkjunáðir, skal sektalaust flytja til Noregs ok koma þeim þar í kirkju eptir ráði lögmanns ok sýslumanns, utan þá menn, er kirkja á eigi at halda eptir lögum. — 10. Þessar náðir gjörum vèr ok um fjölmæli, ef maðr kallar annan mann drottins svikara, fordæðu, morðingja, þjóf eða hvinn, pútuson eða hórkonuson, eða önnur jafnskemmilig orð, þá skal sá er þat mælir sekjast 4 mörkum við konung. — 11, En öll þau fjölmæli er smærri dæmast ok til minni hneixla horfa, skulu eptir dómi ganga, bæði sekt ok rèttr þeirra er talat er til, þar til er vèr getum víð komizt með ánefndri grein at setja þau, með beztu manna ráði. — 12. En hvar sem maðr fær mey eðr konu eptir lögum, ok eru honum lèðir peningar eða í borgun gengit, at hann á svá mikla peninga sem þá eru ánefndir. Þá skal sömu leið fara sem lögbók váttar um þat fè, sem konu verðr lèð. En ef hann vanrækir, þá sæki giptingarmaðr eðr lögligr umboðsmaðr konunnar henni til handa, ok taki þar af fyri starf

9. gr. sbr. Mannh. 18. — 10. gr. sbr. Mannh. 25. — 11. gr. sbr. á sama stað. — 12. gr. sbr. Kvennagipt. 2. — 13. gr. sbr. Erfðatal, 1. erfð.

sitt svá at hann sè vel haldinn af. — 13. Þar sem maðr festir mey eða konu at guðs lögum ok samþykkt beggja þeirra, þá eru þau börn öll lögliga til arfs komin, sem þau eiga, hvárt sem þau eru getin fyri festing eða eptir; utan þau hafi í hórdómi getin verit. En sú er ein löglig festing, eptir því sem forn landslög vátta, en engi önnur, ef maðr tekr í hönd mey eðr konu, nærverandi skilríkum vitnum, ok festir hann með þeim orðum sem þar heyra til, en hverr öðruvísi bindr sinn hjúskap, þá skulu þeirra börn eigi löglig til arfs. — 14. Svá er nú ok skipat, at móðir skal taka arf eptir barn sitt þat sem hún gat í frillulífnaði, í hinni sèttu erfð næst eptir frilluson, en ef hún er eigi til, þá tekr frilludóttir. — 15. Sá maðr skal eigi játa mega arfi undan sèr, er hann er yngri en 20 vetra. En sá er tvítugr, er hann hefr 20 jólanætr. — 16. Þat er nú ok staðfest, at ættleiðings son skilgetinn taki næst eptir ættleiðing, ok þá þeir, sem honum stefna jafnfram, þann arf sem faðir hans var til leiddr, ef hann er andaðr; svá ok þó at sonarsynir sè 2 eða fleiri, þeir sem faðir þeirra var skilgetinn, þá taki þeir eigi meira arf en faðir þeirra stóð til, ef þeir eiga við þá at skipta sem jafnfram þeim standa. — 17. Skylt er hvárt hjóna at færa annat fram, hvárt sem þat er framfærslu þarf verðr ótt, eða fær annan krankleika, en ef þau hafa með minna fè saman gengit, en þau ætti bæði samt til 3 hundraða, ok aldri urðu þau svá rík, at þau

14. gr. sbr. Erfðatal, 6. erfð — 15. gr. sbr. Erfðatal 15. — 16. gr. sbr. Erfðatal, 2. erfð. — 17. gr. sbr. Framfærslub. 2.

ættu konungi skatt at gjalda, þá sè hvárt annars handbjargarómagi, eða flytì á hrossi, ef þau fá eigi fyri unnizt, ok þeirra börn skulu eigi á hreppa segjast, meðan þau mega flytjast með fyrra skilorði. Þar skal þrot heita sem sá andast frá, er með handbjörg átti fram at færa eða fyr sögðum flutningi. — 18. Eigi skal nú þurfa at lögbjóða ómaga meir en einum, nema hann sýni með skilríki í lögligan stefnudag, at nokkurr standi jafnfram honum, þeirra sem fullan forlagseyri eigu, skal þá ekki framarr dæmast á hann en eptir rèttri tiltölu. — 19. Bjóðum vèr ok staðfastliga ok í lög setjum, at allir þeir fátækir menn, sem á vánarvöl ganga ok þiggja ölmusu, eru skyldir at leiða eða bera börn sín, eða annan veg flytja, eptir því sem skynsamir menn sjá at þau fái orkat, ok svá föður sinn ok móður, utan son eða dóttir vinni sèr áðr tveggja missera björg, þá eru þau eigi skyld at ganga á fátæki með föður eða móður. — 20. En ef þeir menn, sem með vánarvöl ganga, ok þiggja ölmusu, vanvirða bændr ok aðra dugandi menn, þá sem heimilisfastir eru, með orðum eða verkum, svá at þat verði vitnisfast, þá svari líkamligri refst lögliga eptir dómi, utan þeir fái fullan borgunarmann, at lúka slíkt fè sem dæmt var í rètta salastefnu. En ef þeir sem misgjörðu, vilja hlaupast undan dómi, krefi sá granna sína, er fyri vanvirðingu verðr, ef konungs umboðsmaðr er eigi nær at taka þann mann ok fjötra ok flytja undir lögsamdan dóm,

18. gr. sbr. Framfærslub. 4. —. 19 gr. sbr. Framfærslub, 6. — 20. gr. sbr. Mannh. 30.

utan sá fái borgunarmann, at hann skal hvergi hlaupast. — 21. Item, um þá lausamenn, sem óskil gjöra ok skuldir eiga at lúka, þá taki sýslumenn, hverr í sinni sýslu, góz þeirra, með vitorði skilríkra bónda, ok lúki hverjum sína skuld, ef til vinnst, ella missi hverr sem tala rennr til. — 22. Ef þórsdag þann, sem 3 vikur eru af sumri, ber á helgan dag, þá komi öll gögn fram um landabrigði hinn næsta sýknan dag eptir. — 23. En ef maðr tekr fálka á annars manns jörðu, eigi sá tvá hluti verðs, er á jörðu býr, en sá þriðjung er veiddi. — 24. Hèðan af skal 15. vetra gamall maðr vera vitnisbærr, ok eiga sjálfr rètt á sèr, ef honum verðr með öfund misþyrmt; skal ok fjárhaldsmaðr hans fullu fyri svara af hans gózi um þat sem hann kann brotligr at verða. — 25. En ef menn verða sannprófaðir at stika rangt með rèttum stikum, eða vega rangt með rèttum vágum, eða mæla órèttliga með rèttum mælikeröldum, ok verðr þat eyris skaði eða meiri, svari slíku fyri sem hann hafi stolit jafnmiklu. — Björgynjar askr mótmarkaðr skal ganga til hunangs ok lýsis, eða sá sem sýslumaðr lætr þar eptir gjöra, en hverr sem í röngu keraldi mælir, svari konungi fullri sekt, eptir því sem bók váttar, en þeim fyri skaða sinn, sem síns misstu órèttliga. — 26. þar sem menn rjúfa skipan í veri eða í langferðum, sekir hálfri mörk við konung, en hinum eptir lögligum dómi, er

21. gr. sbr. Kaupab, 7. — 22. gr. sbr. Landabr. 1. — 23. gr. sbr. Landslb. 58. — 24. gr. sbr. Kaupab. 2. — 25. gr. sbr. Kaupab. 26 — 26. gr. sbr. þjófab. 17.

skip átti. En hverr sem tekr annars skipara vísvitandi, sekr hálfri mörk við konung, ok skal skipari þó þar vera sem hann rèði sik fyrri. — 27. Konungr á sekt þá, sem við liggr um heilagra daga veiðar. — 28. Engi maðr skal lengr ábyrgjast vitni um skuldalúkningar en um 3 ár, ef skuld er minni en 6 hundruð, en þó at skuld sè meiri, ábyrgist eigi lengr en 5 vetr.

Bjóðum vèr at þèr haldit alla þessa articulos, ok látið skrifa í bók yðra.

Þetta brèf var gjört í Björgvyn þrem náttum fyri Bótólfsvöku á 15. ári ríkis várs. Herra Bjarni Auðunarsson innsiglaði. Jón Murti ritaði.

## Rèttarbót Hákonar konungs 1318, um arf ættleiðings.

Hákon með guðs miskunn Noregs konungr, o. s. frv. Vèr viljum yðr kunnugt gjöra, at Týsdaginn næstan eptir miðföstu á 19. ári várs ríkis komu þeir fyri oss á stefnu í málstofuna á Túnsbergi, Úlfr Þórhallason af hálfu Guðrúnar húsfreyju sinnar ok annara systkyna hennar, barna meistara Herjólfs kórsbróður í Opsló af einni hálfu, ok af annarri Gunnar af Hrísum. Kærði Úlfr, at Guðrún kona hans ok systkyn hennar nái eigi rètti af honum um arf frú Ragnhildar móður meistara Herjólfs, þar sem faðir þeirra hafði arfleitt þau til arfs síns eptir lögum. En Gunnar svaraði því, at þótt faðir þeirra hefði arfleitt þau til arfs síns, þá væri þau þó ekki arfleidd til arfs frú Ragn-

27. gr. sbr. Rekab. 10. — 28. sbr. sbr. Kaupab. 8.

hildar föðurmóður sinnar, ok móður meistara Herjólfs, er síðar andaðist en faðir þeirra; og kveðst hafa fyri dóm herra Guttorms lögmanns sem sjá má. Nú af því at lögmennirnir undirstóðu ýmisliga ættleiðingar kapítula, ok báðu oss skýra ok greina hversu þat skal undirstandast, hvárt ættleiðingr skal þann einn arf taka, sem hann er ættleiddr til, eðr fleiri, þá gjörum vèr þá skýring á með vitrustu manna tillögum ok undirstaðning, þeim sem virðuligr herra faðir várr, Magnús konungr, hafði, þá er hann skipaði ættleiðingar kapítulum ok í lögbók sína lèt setja, at ættleiðingr skal taka alla arfa sem til kunna falla sem skilgetinn eignarkonu son þess sem arfleiddi jafnan hèðan af. Ok því dæmum vèr Guðrúnu ok öðrum börnum meistara Heriólfs lögliga arfleiddum arf frú Ragnhildar föðurmóður sinnar.

## Rèttarbót Hákonar konungs um brèfabrot.

Hákon með guðs miskunn Noregs konungr sendir N. lögmanni, o. s. frv. Margir menn hafa kært fyrir oss iðugliga, ok einkanliga þeir sem umboð hafa várra vegna, at sækja brèfabrot oss til handa, at þèr vilìt enga sekt á þá dæma, er brjóta brèf vár eðr rjúfa þá úrskurði, er vèr höfum álagt eðr staðfest. Ok af því viljum vèr at þèr vitið, at vèr höfum svá skipat staðfastliga fyr meir, ok svá viljum vèr at geymist upp frá þessum degi óbrigðuliga, at hverr sem brýtr brèf vár hèðan af eðr dóma, varnaðarbrèf eðr staðfestu, eðr þau önnur

sem vèr gefum út ýmsum mönnum til rèttinda, styrks eðr ráða, þó at eigi sè sakir á nefndar í várum brèfum, þá viljum vèr at hverr maðr sè sekr 8 mörkum, er vár brèf brýtr. Ok svá bjóðum vèr þèr at dæma, ok lagaúrskurð á at leggja hèðan af fyr nefndar 8 merkr á hvern þann mann, er at því verðr kunnr ok sannr, sem aðrar lagasektir þær, sem á nefndar eru í landslaga bókinni sjálfri. Nema þar sem menn gjöra friðbrot, heimsókn eða rán eðr aðrar þær sakir sem oss þykir eigi svá lítil sekt til koma, þá viljum vèr at fari eptir því sem lögbok váttar, o. s. frv.

## Rèttarbót Hákonar konungs um fèlagsgjörð hjóna í milli.

Hákon með guðs miskunn, o. s. frv. Vèr höfum optliga beðnir verit um fèlagsgjörð þá sem stendr í lögbók, at vèr skyldum gjöra hana ljósari ok umbæta þat sem oss þætti áfátt vera; ok af því skulu þat allir menn vita, at með hinna beztu manna ráði, þá höfum vèr svá skipat ok staðfest um allt landit. Þat fyrst, at þar sem menn gipta börn sín saman, þá stendr sá skilmáli hvárt sem er fèlag eðr tilgjöf. Nú fær maðr mey eða konu með tilgjöf, þá megu þau leggja fèlag, þegar þau geta börn til arfs, ef hvárttveggja vill, ok er sú kona gipt með frænda ráði, helmingsfèlag, hvárt sem er at skipta við börn þeirra eðr útarfa, ok leggist í fèlag þat, er þá eiga þau, eða eigandi verða með slíkum arftökum sem þá gjörðu þau sín í millum. Nú ef þau hjón leggja fèlag sín í millum, er

bæði eðr annat eiga áðr börn í ómegð, þá mega þau leggja fèlag sín á millum með þeim hætti, at hvárstveggja frændr hinir nánustu ok skynsömustu samþykki, þeir sem til arfs standa eptir börnin, ef faðir eða móðir væri frá fallin, nema lögmanni ok öðrum skynsömum mönnum virðist til svika eðr vèla gjört við börnin, þá skal þat fèlag sem ógjört sè. Svá höfum vèr skipat, at ef misdauði hjóna verðr, þar sem eigi er fèlag, ok fellr annathvárt hjóna frá at sumarmálum, eða hvern tíma sumars til Michaelismessu, þá skal hvárt sína landskyld hafa þá sem inn kemr um haustið ok at vári eptir, en ef annathvárt hjóna fellr frá at Michaelísmessu, at jólum, eðr at Kyndilmessu ok um vetrinn eptir, ok fram til Krossmessu, þá skiptist eptir jarðareignum sú landskyld, sem óneytt er, sem tala rennr til.

## Rèttarbót Hákonar konungs um fjársóknir.

Hákon með guðs miskunn Noregs konungr, o. s. frv. Þar sem menn sækja fjársóknir sínar í hèraði með atfararþingi, liggi þar við hálf mörk sem áðr lá eyrir við konung, hverjum er þrjózkast heim at fara af þingi með rèttaranum rètt at gjöra, hverr sem sækir, Svá ok fyribjóðum vèr at nokkurr maðr kalli sín mál undan lögligum rèttara til þess at draga málit fyri hinum ok firra hann svá sínum rèttindum, utan þat sè í konungs náveru. Bjóðum vèr sýslumönnum ok lögmönnum at leggja svá hvers manns mál, sem brèf þeirra vátta.

## Rèttarbót Magnúsar konungs Eiríkssonar um óbótaverk.

þessar rèttarbætr gaf Magnús konungr, at þótt maðr hitti í þau óbótamál, at hann hefr fyrigjört lífinu ok öllu því hann á í föstu ok lausu; annattveggja drepr maðr lögmann fyri rètta lögsögn, eðr brennir mann inni, stingr út augu manns, eðr sker tungu úr höfði manns, eðr meiðir mann, eðr drepr mann, föður sinn eðr móður sína, son eða bróður, dóttur eða systur, konu sjálfs síns, eðr kona bónda sinn, eðr týnir sjálfum sèr, eðr vegr mann í heimili sjálfs, eðr tekr í burt eigin konu manns, eðr tekur konur með ráni eðr herfángi, eðr falsar maðr konungs steðja í Noregi, brèf eðr innsigli konungs, eðr drepr þann mann, er hann hefr konungs innsigli fyri sèr, eðr hefr engar sakir við, eðr í herbergi konungs, eðr í konungsgarði, eðr í konungsskipi, eðr í návistu hans, eðr tekr maðr konu nauðuga, eðr hefnir óbótamanns, eðr heimtar gjöld fyri. En ef einhverr er sá er í slík óbótamál fellr (sem guð láti engan henda) ok þó at hann hafi fyrigjört fè ok lífi við konung, ok á einhverr þeirra börn eptir í ómegð, þá skulu konungs umboðsmenn ætla barni hverju fullan forlagseyri af því fè er hinn útlægi átti, sem meðan fè vinnst, þar til at börn eru matvinnungar fyrir aldrs sakir eptir lögum, þó at fè sè eigi meira en þeim vinnst til forlagseyris.

## Rèttarbót Magnúsar konungs 1343, at þeir víg vinna flytist eigi af landinu.

Magnús með guðs miskunn Noregs konungr, o.

s. frv. Vèr viljum at þèr vitið, at sakir hlýðni þeirrar ok þegnskyldu, sem vèr hyggjum oss hafa af yðr sem af öðrum várum þegnum, þá viljum vèr ok fullkomliga bjóðum, at engi maðr taki sýslur til nokkurs langframa, nafnbætr eðr annat starf, þar sem konungdóminum heyrir til at skipa, nema sá er þess vill beiðast, komi sjálfr til vár, at vèr skipum þá hverjum eptir því sem oss sýnist hverr verðr vera. Fyribjóðum vèr fullkomliga, at þeir menn sem saklausa menn drepa, eðr önnur skemmdarvíg vinna, færist af landinu, nema vár sèrleg boð eða brèf komi þar til. Svá leggjum vèr ok landráðasök á þá alla, sem óhlýðnis samheldi eðr samhleypi gjöra til þess at styrkja illgjörðamenn móti krónunnar rètti ok landsins lögum, ok þá sem draga þá undan lagarefsingum, sem þeir eru verðir sakir sinna afbrota. Svá viljum vèr at hirðstjóri vár láti sækja oss til handa sýslugjöld ok sakareyri, sem falla kann af þeim sýslum sem lausar verða á landinu, meðan þeir, er þeirra sýslna vilja beiðast, eru í ferð til vár ok aptr til landsins. Viljum vèr þessa vára skipan óbrigðiliga halda láta, þar til er oss ok váru ráði verðr skynsamliga tjáð, at önnur skipan megi ágjörast. Viljum vèr at hirðstjóri vár hèr rètti sýslumenn, þá sem óstýrir eru, ok um lög fram þvinga vára þegna, ok ef þeir vilja bæta sik eptir hans ráði ok hirðarinnar, þá safnist þeirra afbrot til vár undir góðra manna innsiglum, til þeirra gjörða, sem vèr viljum þar á gjöra, ok hafi misst þann góðvilja sem þeir

af oss hafa, til þess er vár brèf ok boð þar um koma aptr til landsins.

Þetta brèf var gjört í Sona Kaupangi á Óðinsdag næsta eptir Nikulausmessu á 4. ok 20. ári ríkis várs. Síra Árni kanseler vár innsiglaði oss sjálfum hjáverendum; Helgi Ívarsson ritaði.

## Rèttarbót Hákonar konungs 1370 um arf, at bróðurson skilgetinn, taki fyr arf en dóttursyn skilgetinn af óskilgetnum.

Hákon með guðs miskunn Noregs ok Svíakonungr sendir báðum lögmönnum á Íslandi, ok öllum öðrum sínum mönnum ok þegnum, ok almúga þess sama lands kveðju guðs ok sína.

Ormr Snorrason hèr með yðr lögmaðr ritaði til várs allrakærasta herra ok föðurs, herra Magnúsar konungs, góðrar minningar, ok tèði honum í opnu brèfi sínu, undir sínu ok annara góðra manna innsiglum (með hverju hans brèfi þetta várt brèf er með fest), at Pètr Hálfdánarson kærði á lögþingi fyri honum ok lögrèttumönnum eptir arfi Gunnars Andressonar föðurbróður síns, skilgetinn bæði til föður ok móður. En af annara hálfu kærði til þess sama arfs dóttursynir skilgetnir ok móðir þeirra getin í hórdómi, ok bað áðr nefndr Ormr föður váru þetta mál at skoða með ráði sínu, ok gefa rèttarbætr hingat aptr til landsins, hversu lögmenn skulu dæma í annari erfð ok þriðju þar sem þeir menn kalla sik til arfs, er í hórdómi eðr í frændsemispjöllum eru út af komnir, þó at þeirra

börn sèu skilgetin. Nú af því, at þetta mál var fyri þránefndum föður várum ok svá fyri oss ok beggja váru ráði skoðat, eptir því sem brèfit Orms lögmanns skýrir, ok af því, at faðir ok vær skoðuðum innvirðugliga með ráði váru þetta mál, þá dæmdum vèr áðr nefndum Pètri Hálfdánarsyni með samþykki ráðgjafa várra áðr nefndan arf eptir Gunnar föðurbróðir sinn, en dóttúrbörnum frá, svá framt sem móðir þeirra var getin í hórdómi, ok köllum aptr dóm Þorsteins lögmanns í þann máta um áðr nefnt mál, ok bjóðum lögmönnum várum, at ef þvílík mál kunna optarr fyri þá at koma, um þá menn sem af hórdómi eðr frændsemisspjöllum eru út af komnir, at þèr setið þann úrskurð í lögbók til rèttarbóta móti þeim mönnum sem svá eru til komnir, ok skal hèðan af fyri lög dæmast svá opt sem slík mál kunna til at falla.

Var þetta brèf gjört á Niðarnesi undir Ögðum á hvítasunnadag á 20. ári ríkis várs Noregs, ok innsiglat oss sjálfum hjáverendum.

## Rèttarbót Kristjáns konungs 1551 um skilgetning presta barna.

Vèr Kristján með guðs náð Danmerkr, Noregs ok Vinda ok Gauta konungr, o. s. frv.. Gjörum öllum mönnum vitanligt: at vèr af várri sèrligri gunst ok náð höfum leyft ok lofat, ok nú með þessu váru opna brèfi leyfum ok lofum, at allir þeir prestar sem giptir eru, eðr giptast kunna upp frá þessum degi yfir allt várt land Ísland, þá skulu þeirra börn ok afsprengi arfa taka eptir föður ok móður, eins svá

sem eptir önnur veraldlig skilgetin hjón um allt várt land Ísland. Þar fyri fyribjóðum vèr öllum hverir helzt þeir eru, eðr vera kunna, sèrdeilis várum fóetum, embættismönnum ok öllum öðrum um allt fyr nefnt Ísland at gjöra nokkra hindran eðr forfang áðr nefndum eiginiptum kennimönnum eðr þeirra skilgetnum börnum um þeirra erfðir, eptir því sem fyriskrifat stendr, svá framt sem þeir vilja eigi mæta reiði ok óblíðu af oss..

Gefit á váru sloti Kaupmannahöfn á st. Galli consessoris dag, þá liðit var frá guðs burð 1551 ár.

# Alþingis samþykktir, o. s. frv.

## Um vápnaburð á alþingi.

Þetta var samtekit í lögrèttu ok dæmt af lögrèttumönnum á öðru ári eptir fráfall virðuligs herra Hákonar Noregs konungs hins kórónaða, at enginn skuli bera upp bundinn kníf þann, at stokkr eðr hjölt væri at skapti, en ef borin er, svari þriggja aura sekt ok knífrinn upptækr, ok at alþingismanna dómrofi sekr 4 mörkum. Item, þeir fèlausir menn, sem óskil gjöra, sem kaupa at mönnum góz manna eðr gripi, taki aptr hverr við sínu, þótt eigi hafi sèr aptr skilt, svá framt þeir fá vitni til, at þeir áttu þat er þeir seldu. Item, þær konur, er ósæmdar eru af lausum mönnum, skulu eigi gefa peninga til frelsis þeim er ósæmdu, sèr til ósæmdar ok sínum örfum.

## Um vinnufólk.

Í guðs nafni amen. Var þessu játað ok samþykkt af

hirðstjóranum Vigfúsi Ívarssyni, lögmönnum ok lögrèttumönnum ok af öllum almúga á Íslandi, bæði utan vebanda ok innan lögrèttu á almenniligu Öxarárþingi.

Í fyrstu: allir þeir menn, karlar ok konur, sem sik ráða í vist hjá tveimr, þremr eða fleirum, sè rètt fangaðir af sýslumanni eðr bændum, ef eigi er konungs umboðsmaðr nær, undir þvílíka refsing sem dómur dæmir, en vera síðan eptir þar í vist sem hann var fyrst ráðinn. Svá ok skulu þat nú vera full ok öll lagaráð við verkmenn ok þjónustumenn, konur sem karla hèðan í frá, sem þeir veita viðgöngu sjálfir eða hafa veitt fyrir váttum, ok verði þat vitnisfast, eðr hitt ef þeir hafa fè eðr peninga út í hönd sèr tekit fyri fram at þjóna til eðr verit í vist þeirri 3 nætr í samt. Skulu ok allir vinnumenn komnir til sinnar vistar krossmessu á várit forfallalaust, þeir sem þau ráð hafa gjört, svá ok hverr í þann tíma sem þeir hafa lofat ok ásáttir vorðnir í sínum skilmála, ella sèu þeir sóttir at ósekju hvar sem þeir eru. Svá ok þeir vinnumenn, eð eigi vinna eðr vilja vinna með bændum, fyribjóðum vèr bændum at hýsa þá ok heima, ljá eðr leyfa fènaði þeirra hagabeit. Item, fiskimenn, þeir, sem eigi geta lokit sínar skreiðarskuldir, vinni fyri skuldinni til þess at lokin er, svá ok hverr hinna, sem minna vinna en þeir hafa áðr peninga upphorit eða á sik skilit ok lofat at vinna. En hverr sem rýfr fyriskrifaða articulos, eðr brýtr móti þessari hirðstjórans og lögmanna ok lögrèttumanna ok almúgans samþykkt hèr á greindu almenniligu

Öxarárþingi, þá sekist sá 4 mörkum við konung, svá sem hann rjúfi lögmanns úrskurð.

### Um kaup á vöru.

Svá er skipat[1] ok staðfest, at konungr ok hans umboðsmaðr á fyrst kaup á öllum varningi eðr þarfindum, hvárt sem falt hafa innlendir eða útlendir. þá skal honum fyrst selja fyri slíkt verð, sem aðrir vildu kaupa, ok um allt þat er hann þykist við þurfa ok falt er, þá skal hans umboðsmönnum fyrst selja, þeim sem hann gjörir til. Item, sá sem manni gjörir fjárskaða til hálfrar merkr með öfund ok heipt, bæti sá fullrètti eptir dómi er gjörði ok fjárskaðann sem 6 skynsamir menn meta, ef vitni eru til, eðr syni sèttareiði, ef eigi eru vitni til, en öfundarbót fyri minna fjárskaða eptir atvikum, eða sýni lýrittareiði.

## 2. Endurnýjun gamla sáttmála 1319.

Öllu váru ok virðuglegu ríkisráði ok geymslumönnum í konungsgarði í Noregi senda bændr ok almúgi á Íslandi kveðju guðs ok sína, kunnugt gjörandi, at Gunnar ráðsveinn tèði fyri oss á alþingi með auðmjúkum góðvilja við konungdóminn, sem hann fremst mátti, hvernig þjer báðut oss sverja jungherra Magnúsi dóttursyni Hákonar konungs hins kórónaða slíkum þegnskyldum, sem hans virðuligum foreldrum var játað æfinliga til þarfinda ok þeirra afkvæmi at forfallalausu konungsins vegna í mót várum skattgjöfum, at til skildum 6 skipum hingat til Íslands hvert sumar, þeim gæðum hlað-

ja er landinu væru nauðsynlig, 2 fyri norðan, 2 fyri sunnan, 1 fyri austan ok (eitt) í Vestfjörðum, ok íslenzkir sè lögmenn ok sýslumenn, sè annarr lögmaðr fyri norðan, en annarr fyri sunnan, ok hafi þeir ekki sýslur. En sökum þess vèr ekki viljum, at af oss standi nokkurr brigð várs máls, þá höfum vèr gjört ok gjöra viljum alla þá þegnskyldu, sem vèr erum honum skyldugir at veita eptir fyr sögðu skilorði, þar til er þèr megit gott ráð fyrir gjöra, at vèr megum ná fornum fríheitum ok nýjum skilmála. Vitið fyri víst, at vèr þykjumst lausir, eptir því fornasta brèfi, sem várt foreldri sór Hákoni konungi gamla, ef vèr fáum eigi at sumri þat sem oss er játað af honum ok nú mælum vèr til. Skreið ok mjöl viljum vèr at ekki flytist meðan hallærit er í landinu meira en kaupmenn þurfa til matar sèr, en útstefningar samþykkjumst vèr eigi framar en lögbók váttar; þá eina viljum vèr sóknarmenn hafa, er bændr kjósa: Viljum vèr þann tíma sverja en ekki fyr, sem ríkisins ráðs brèf með innsiglum er oss sent, ok þar með fram komi góðvili. Gefi þat vár herra Jesús Christus, at þjer gjörit svá ráð fyri þessu ok öllu öðru, at sál virðugligs Hákonar konungs sè til eilífs fagnaðar, jungherra Magnúsi til heiðurs ok æru, ok oss öllum til friðar og fagnaðar bæði lífs ok sálar.

# Almennt efnis registur
## yfir lögbókina eptir stafrofsröð.

### A.

nær börn þeirra eru eigi skyld at fara á vánarvöl með þeim 94.

fè í jörðu hverr á 108, ef maðr vill eigi taka við sínu 104, eindagat 186, dæmdu ef fyri er staðit 186, hjóna, ef ómagi á kemr 90, dauðs manns, ef eigi vinnst til skulda 79, ómaga, hverr varðveita skal 79—80, þat virðist s.st., konu skal eigi af landi flytjast 65, hjóna fyrigjöri eigi eitt annars s.st., ómaga færist eigi úr fjórðungi 80, þjófstolnu sá við tekur 227, ef maðr tekr sitt af þjófi 229, ef maður kennir þjófstolit hjá öðrum 229, uppnæmt hvat er s.st., ef maðr finnur þjófstolit 231, nær eigi má taka 232, ef eigi vinnst meir en til mála konu 83, nær missa þess skal eigi borgast 197, hverr á af þjófi tekit 228, hvat mikit vera skal til siglingar 209, at festa þat 187, ef næstu framfærendr eigu eigi 90, af hverjum eigi skal dæma 11—12, skipti þess ólögliga 88, ef lagt er til ferju 153, ef jörð er keypt með f. konu 66, annars gefi engi sök á 192, ef út þarf at kasta á skipi 212—13, þrjóts 186, að goldit, hversu marka skal 158, ef undir treðst 133, skipti þess í haga 124, 162, ómarkat hversu fara skal 156, 159, ef maðr markar annars f. án orðlofs 158, ef menn reka úr afrètt 163, gangandi f. hvernig marka skal 158, ef markat er annars manns marki 159, með leynd markat 158, ef ókunnu er eigi lýst at lögum 161, ef eigandi kemur eigi til fyri miðjan vetr, s.st., ef maðr tekr sitt f. í burtu ok sýnir eigi bónda,

## H.

## K.

M.

## N.



## O.

P.



R.

S.

## T.

## V.

## Þ.

## Æ.



## Ö.

## Prentvillur og leiðrjettingar:

Bls. 10[6] þingvitni les þingvíti; 12[22] skyn l. skil; 13[13] gengr, sá l. gengr sá; 19[27] konungs l. konung; 26[22] konngi l. konungi; 29[26] fjórðungi l. fjórðungi hverjum; 30[2] skamma l. skemma; 31[23] eiginkonur fyri l. eiginkonur eðr frændkonur fyri; 38[20] syni l. synì; 46[19] 6 l. 16; 50[27] þingi l. þingum; 56[17] bítinn l. bitinn; 63[2] 6 l. 12; 65[9] annars l. annars fè; 66[16] er sök l. er sú sök. Aptan við sömu línu bætist: En ef hann verðr sannr at því, reiði slíkt sveininum, sem hann gaf hans, ok heiti drengr at verri; 70[29] mera ihafði l. meira hafði; 79[25] næst l. mest; 85[24] garðshondi l. garðsbóndi; 91[21] ska l. skal; 93[17] hurt l. burt; 99[20] fyr l. firr; 106[13] sem sem l. sem; 114 sakir. þó l. sakir, þó; 116[21] í l. eigi; 118[29] hægliga l. hagliga; 122[23] heimilar l. jafnheimilar; 123[18] þann þann l. þann; 125[18] til sitja l. til at sitja; 126[24] sá l. svá; 127[22] með at l. með þeim at; 135 blaðsíðutal 234 l. 135; 137 kapítulatal 38 l. 28; 160[7] má l. skal; 165[12] kapítulatal 58 l. 56; 165[21] bekkr, er l. bekkr; 173[6] þá l. þó; 183[8] þingi l. alþingi; 187[6] kivikfè l. kvikfè; 191[21] 5 ár l. 3 ár; 201[7] gagn l. eign; 202[15] heimtaði l. heimilaði; 205[25] athafnar l. áhafnar; 206[7] skipa l. skipi; 216[28] bálkabrún l. bálkabrún; 219[26] Ef l. En; 223[15] af l. ef; 226[25] aptr l. optarr.

---